# SAMANBURÐUR

Á

ÁGREININGSLÆRDÓMUM KATÓLSKU OG PRÓTESTANTISKU KIRKJUNNAR,

EPTIR

SIGURÐ MELSTEÐ,
KENNARA VIÐ PRESTASKÓLANN Í REYKJAVÍK.

---

ÚTGEFANDI:
EGILL JÓNSSON Í REYKJAVÍK.
1859.



Enginn getur lagt annan grundvöll en þann, sem lagður er, sem er Jesús Kristur.

1. Kor. 3, 11.

---

REYKJAVÍK 1859.

Prentaður í prentsmiðju Íslands. E. ÞÓRÐARSON.

# Formáli.

Næstliðið sumar kom mjer til hugar, að rita um ágreininginn milli vor prótestanta og katólskra manna um lærdóma kristilegrar trúar. Mjer er ekki kunnugt, að nokkuð sje áður ritað um þetta efni á íslenzka tungu[1], þar sem þó aðrar þjóðir hafa allt frá dögum siðabótarinnar til þessara tíma ritað margt og mikið um trúarágreininginn milli kirknanna. Það ræður að líkindum, að eptir því sem samgöngur fara í vöxt milli vor Íslendinga og annara þjóða, muni þeir tímar fara í hönd, að vjer ekki að eins sem borgaralegt fjelag komumst í verzlunarsamband og önnur veraldleg viðskipti við katólskar þjóðir, heldur má búast við því, að hin katólska trúarjátning kunni um leið að heimsækja hina evangelisk-prótestantisku trúarjátningu á Íslandi, og að íslenzkir prestar og kennimenn komist, ef til vill, í viðkynningu við katólska trúarboðendur. Það má því telja, að þess sje full þörf og að tími sje til þess kominn, að vjer einnig eigum eitthvert það rit, sem í samanhengi skýri fyrir

[1]) Þess skal hjer getið, að lítill ritlingur hefur verið prentaður um þetta efni á Akureyri 1857 („Lúterskan borin saman við katólskuna"), útlagður úr norsku tímariti og gefinn út af Svb. Hallgrímssyni; en þetta rit barst mjer ekki í hendur, fyr en eptir að þetta er skrifað, og eptir að handrit mitt var komið í prentsmiðjuna.

mönnum og gefi yfirlit yfir ágreininginn, sem er milli vor prótestanta og katólskra manna um lærdóma kristilegrar trúar, og geti verið til leiðbeiningar þeim, sem ýtarlegar vilja kynna sjer þessa áríðandi grein guðfræðinnar, sem talar um trúarjátningar kristilegrar kirkju og samband þeirra sín á milli. Þetta var það, sem mjer gekk til, að semja þennan ritling. Jeg hef haft í riti þessu fyrir augum katólska og prótestanta yfir höfuð, en ekki aðgreint lútersku og reformertu kirkjuna; því, þó ágreiningur sje, eins og kunnugt er, milli þessara síðarnefndu kirkna í nokkrum greinum, þá eru þær þó báðar samdóma í grundvallarlærdómum siðabótarinnar, og báðar jafnt samtaka í því, að mótmæla öllum lærdómum katólsku kirkjunnar, sem ekki geta samþýðzt guðsorði, og enga fótfestu hafa í heilagri ritningu.

Jeg hef í þessu riti haft tvenns konar lesendur fyrir augum, ekki einungis lærða menn, og þá, sem fengið hafa guðfræðislega menntun, heldur og ólærða, og leitazt við eptir megni, að haga útlistun minni svo, að efnið geti orðið skiljanlegt greindum og skynsömum alþýðumönnum. Fyrir þessa sök hef jeg íslenzkað allar latínskar innvitnanir í trúarjátningarnar, sem tilfærðar eru neðanmáls; þetta lengir að vísu ritið nokkuð, en jeg þóttist ekki geta hjá því komizt, og áleit það skyldu mína, ef einhverjir kynnu að verða lesendur ritsins þeir, sem ekki skilja latínska tungu, svo þeim gæfist einnig kostur á, að lesa orð trúarjátninganna, þó ekki sje í frummálinu, og sjá, á hverjum grundvelli útlistunin er byggð.

Hvað efnið og meðferð þess snertir, þá er hvorttveggja byggt á trúarjátningum kirknanna; að því leyti ráða þær stefnu þessa rits, og eru aðalundirstaðan fyrir því, eins og skýrt er frá í innganginum. Auk trúarjátninganna hef jeg fyrst og fremst haft mjer við hönd önnur rit eptir höfunda siðabótarinnar, sem jeg hef getað komizt yfir. Mikinn stuðning hef jeg haft af „*Institutiones symbolicae*“ eptir *Marheinecke*, einkanlega til leiðbeiningar í því, að velja staði úr trúarjátningunum, og í kaflanum um guðsþjónustu og helgisiði kirkjunnar hef jeg opt haft hliðsjón af riti eptir *Professor Clausen: Catholicismen og Protestantismen.* Þar að auki hef jeg haft mjer við hönd nokkur af helztu ritum, sem komið hafa síðan út um þetta efni eptir katólska og prótestantiska guðfræðinga; einkanlega hef jeg víða tekið tillit til rita þeirra *Baurs* og *Möhlers,* háskólakennara í Tübingen; því af öllum þeim, sem átzt hafa við á vorum dögum um trúarágreininginn milli kirknanna, hafa þeir mótmælalaust flutt þetta mál hvor fyrir sína kirkju með mestu fylgi og mestum fimleik, jafnfræknir bæði til sóknar og varnar.

Samkvæmt stefnu þessa rits hefur það fremst af öllu verið áform mitt og ætlunarverk, að skýra frá hreinum og óafbökuðum lærdómi beggja kirkna, eigna hvorugri aðra kenningu, heldur en þær flytja í trúarjátningum sínum, og teygja aldrei út úr orðum þeirra annað en það, sem beinlínis liggur fólgið í trúarjátningum þeirra og trúarstefnu; þess vegna hef jeg líka stöðuglega farið eptir játningarbókum

kirknanna, og byggt útlistun mína á orðum þeirra í hverri grein.

Jeg hef við hvert fótmál fundið til þess, hversu langa leið þetta rit á að því takmarki, sem jeg sje álengdar, hversu mikið og margt það vantar til þess, að geta fullnægt þeim kröfum, sem vakað hafa fyrir mjer; en allt að einu gjöri jeg mjer þó von um, að það geti orðið að einhverju liði og til einhverrar leiðbeiningar þeim, sem með alvöru leita eptir að komast til glöggrar þekkingar á þessu efni, og sannfæringar með sjálfum sjer viðvíkjandi trúarágreiningnum milli kirknanna, og jafnframt orðið til þess, að festa þá í sannfæringu sinni um evangeliskan sannleika hinnar prótestantisku kirkjutrúar. Gæti þessi ósk mín og von rætzt, gæti þetta rit í einhverju tilliti unnið að þessu miði, þá hef jeg náð þeim tilgangi, sem jeg hjer hef haft fyrir augum.

Reykjavík, 23. d. desemberm. 1858.

*Höfundurinn.*

---

# YFIRLIT EFNISINS.

## Inngangur.

Nöfn þeirra höfunda og bóka, sem vitnað er til í þessu riti, eru skammstöfuð þannig:

*Apol. conf.* . . merkir *Apologia confessionis.*
*Art. Smal.* . / *Artic. Smal.* } — — *Articuli Smalcaldici.*
*Bellarm.* . . — — *Bellarmin* kardínáli.
*Calv. inst. rel. chr.* — — *Calvin, institutio religionis christianae.*
*Conf. Aug.* . . — — *Confessio Augustana.*
*Cat. major* . — — *Catechismus major.*
*Cat. Rom.* . / *Catech. Rom.* } — — *Catechismus Romanus.*
*Conf. Belg.* . — — *Confessio Belgica.*
*Form. conc.* . — — *Formula concordiae.*
*Mel. loc. theol.* . — — *Melanchthon, loci theologici.*
*Prof. fidei* . . — — *Professio fidei.*
*Syn. Trid.* . . — — *Synodus Tridentina.*

# Inngangur.

## I.

## Um trúarjátningar rómversku katólsku kirkjunnar.

Siðabótin á 16. öld var ekki stofnun nýrrar kirkju, og ætlaði sjer ekki að stofna nýja kirkju. Lúter og samverkamenn hans í siðabótarverkinu vissu vel, að kristileg kirkja var stofnsett fyrir mörgum öldum af frelsara heimsins; þeir vissu vel, að enginn getur lagt annan grundvöll, heldur en þann, sem lagður er, og að kristileg kirkja er einungis ein, eins og stofnari hennar er einn. Þeir játuðu af alhuga trúna á eina almenna kirkju, og voru gagnteknir af þeirri sannfæringu, að kristileg trú sje alheimstrú, að allar þjóðir eigi að safnast undir merki Jesú Krists, svo að allar verði ein hjörð, eins og hirðirinn er einn. Þess vegna kom þeim ekki til hugar, þegar þeir gengu að verki sínu, að koma fram með nýja kenningu, sem ekki hefði áður verið flutt í kristilegri kirkju. Þvert á mót laut öll kenning þeirra og starfsemi að

því, að endurnýja hinn upphaflega hreina lærdóm, boða guðsorð hreint og óafbakað, eins og lausnarinn hafði kennt heiminum það, og postular hans fluttu það á eptir, og fyrstu aldir kristninnar eptir þeirra daga. Þegar höfundar siðabótarinnar risu upp á móti kenningu og siðum kirkjunnar á þeirra dögum, var áform þeirra ekkert annað en það, að leiða í ljós aptur hinn sanna upphaflega grundvöll kristilegrar trúar, sem kirkjan þá var farin að yfirgefa, og næstum búin að gleyma, og þeir gjörðu grein fyrir því, að kirkjan á þeirra dögum væri orðin öll önnur, bæði í kenningu sinni og háttsemi, heldur en hún hefði verið á hinum fyrstu öldum. Hinni upphaflegu kirkju var það ljóst, að kristileg trú er alheimstrú, að kirkjan í eðli sínu er ein og almennileg; þess vegna leitaði kristileg kirkja líka snemma eptir ytri einingu eins og sýnilegum vitnisburði um hina innri einingu milli Krists játanda í anda og sannleika. Því hlaut kirkjan að mótmæla og veita mótspyrnu allri afbökun kristilegrar trúar, allri villutrú, sem snemma fór að bera á hjá ýmsum flokkum í fornkirkjunni, hjá þeim, sem fara vildu einförum í trúarefnum, og ekki aðhyllast hinn sameiginlega postullega kristindóm. Þessi stefna fornkirkjunnar, að verja einingu og almennilegleika kirkjunnar, og við halda hinum hreina upphaflega kristindómi, var í alla staði beinlínis samkvæm anda trúarinnar sjálfrar; hún var sprottin af þeim grundvallarlærdómi kristindómsins, að eins og stofnari kirkjunnar er einn, eins er líka kirkja hans ein. En þessi grundvallarregla gleymdist, þegar fram liðu

stundir; eptir að rómverska kirkjan frá 5. öld fór að draga til sín yfirráðin yfir öðrum kirkjum, og biskupunum í Rómaborg tókst smátt og smátt, bæði með brögðum og yfirgangi, að innrœta mönnum trúna á yfirbiskupsdœmi sitt yfir öðrum biskupum, og með því að gjöra sig að yfirdómurum allra annara í trúar- og sáluhjálpar-málum, þá fóru menn að binda kirkjutrúna við hinn rómverska biskupsstól, sem að öllu leyti var óþekkt í fornkirkjunni. Með þessu móti varð hin upphaflega trú á almenna kristilega kirkju að trú á hinn rómverska biskupsstól; kristileg trú varð á miðöldunum að páfatrú, og þetta breytti algjörlega eðli kirkjunnar, og öll afbökun kristilegs lærdóms og aflögun kirkjunnar hafði upptök sín frá þessari grundvallarvillu. Að vísu átti hinn kristilegi sannleiki sjer á öllum öldum talsmenn, sem sáu villuna, og sem töluðu hástöfum móti afbökun kirkjunnar á kristilegri trú. En hið páfalega einveldi, sem vildi gjöra kirkjuna að ríki af þessum heimi, bældi hvervetna niður boðun hins hreina lærdóms með kirkjulegri harðstjórn. Sannleikans postular voru ofsóttir með eldi og sverði. Flokka valdensanna, sem boðuðu postullegan kristindóm á 12. og 13. öld, ofsótti kirkjan með hlífðarlausri grimmd. Jóhann Húss og Híerónýmus, sem fluttu hreinan lærdóm fagnaðarboðskaparins í sama anda sem Lúter síðar, ljet kirkjan brenna á 15. öld á fundinum í Costnitz, og tókst þá í bráð, eins og opt áður, að veita mótstöðu sannleikanum. En tími dómsins yfir villunni og sigurtími sannleikans hlaut að renna upp. Hin mikla

trúarhreifing á 16. öld, þegar Lúter rjeðst á villulærdóm kirkjunnar í sama anda sem Húss, og boðaði hreinan kristindóm eptir guðsorði í ritningunni, hafði þau endalok, þar eð katólska kirkjan enn þá veitti sannleikanum mótspyrnu, að sundrung komst á kirkjufjelagið, og áhangendur siðabótarinnar, sem aðhylltust kenningu Lúters og samverkamanna hans, greindu sig frá hinni fornu kirkju. Þannig kom upp hin prótestantiska kirkja, sem gjörði grein fyrir lærdómi sínum gagnvart rómversku katólsku kirkjunni. Rómverska kirkjan hlaut þá einnig í þessari miklu hreifingu að taka skýrt fram sína trúarjátningu móti hinni nýju kirkju. Til að útkljá þetta trúarmál, var það almenn ósk manna, að haldinn væri kirkjufundur eptir fornum sið; keisarinn og þýzka þjóðin öll heimtuðu almennan kirkjufund, og Lúter þráði hann einnig, svo að hann opinberlega gæti gjört grein fyrir kenningu sinni, og hún yrði prófuð eptir guðsorði. Páfunum einum stóð stuggur af slíkum fundi; þeir óttuðust frelsishreifingar hjá þjóðunum, og þeir mundu vel eptir þeim skelk, sem kirkjufundirnir á 15. öld í Costnitz og Basel höfðu komið inn hjá hinum rómverska biskupsstól. Páfarnir drógu þess vegna þetta fundarhald, meðan þeim var auðið, þó að þeir lofuðu fundinum hvað eptir annað. Þegar þetta var búið að ganga í mörg ár í eintómum loforðum frá páfans hendi, lagði Karl keisari 5. svo fast að Páli páfa 3., að hann komst ekki lengur undan, og gaf út 1536 boðunarbrjef sitt til þessa kirkjufundar, og var þar ákveðið, að fundinn skyldi halda næsta

ár í Mantúa á Ítalíu. Eins og nærri má geta, höfðu páfinn og keisarinn sína ætlunina hvor með þennan kirkjufund. Keisarinn skoðaði hann mest frá veraldlegu sjónarmiði, eins og ráð til þess, að koma á ytri sameiningu og borgaralegum friði í ríkjum sínum, takmarka vald páfans, og af nema ýmsa kirkjulega annmarka og ósiði, bæði í kirkjustjórn og kirkjuaga, en ekki kom honum til hugar, að lagfæra þyrfti trúarfræði kirkjunnar. Páfinn þar á móti, sem helzt kaus með sjálfum sjer, að ekkert yrði úr fundarhaldinu, boðaði fundinn í því skyni, að upp ræta alla villutrú, sem komin væri upp í kirkjunni, og meinti sjálfsagt með því prótestanta; sömuleiðis átti ætlunarverk fundarins að vera, að bæta siði kristninnar, og koma á krossferð móti Tyrkjum. Lúter og samverkamenn hans hugsuðu sjer aptur á móti ætlunarverk kirkjufundarins fyrst og fremst það, að prófa lærdóm kirkjunnar eptir guðsorði, og hreinsa trúarfræði kirkjunnar frá öllum mannasetningum, sem enga fótfestu hefðu í guðsorði. Prótestantar sáu fljótt, að rómverska kirkjan hafði allan annan tilgang með fundinn, og þeim var það ljóst, að á fundi í Ítalíu, undir handarjaðri páfans, mundu þeir litlu koma til leiðar fyrir hreina evangeliska trú. Það varð því ekkert af því, að þeir sæktu þennan fund, enda varð ekkert úr honum, með því allt lagðist á eitt í því, að gjöra hann að engu. Loksins komst þó svo langt, að þessi langþráði og marglofaði kirkjufundur var haldinn í Tríent 1545. Páfinn sendi þangað legáta sína, til að stýra fundinum í sínu nafni. Fyrsta árið gekk

til þess, að bíða eptir ýmsum biskupum, sem sækja ætluðu fundinn, tala sig saman um þingsköp og fundartilhögun yfir höfuð. Árið 1547 flutti páfinn fundinn til Bologna, og bar fyrir drepsótt í Tríent, en í rauninni var þetta bragð páfans til þess, að koma fundinum nær sjer, í ítalska borg. Júlíus páfi 3. ljet fundinn flytja sig aptur til Tríent 1551, en árið eptir, 1552, ljet hann segja fundinum slitið fyrir hræðslu sakir við herlið prótestanta undir herstjórn Moritz kjörfursta, og eptir það var fundurinn aðgjörðalaus í 10 ár, þangað til Píus páfi 4. ljet hann taka aptur til starfa 1562, og hjelt fundurinn þeim á fram til næsta árs, 1563; þá var honum algjörlega slitið, og hafði hann í öll þessi ár átt 25 aðalsamkomur.

Þessi merkilegi kirkjufundur í Tríent var, eins og vikið er á, upphaflega ætlaður til þess, að jafna trúarágreininginn milli prótestanta og rómversku katólsku kirkjunnar. Lúter hafði þegar frá öndverðu skotið máli sínu til almenns kirkjufundar; keisarinn og þýzka þjóðin heimtuðu samhuga fund af páfanum, og prótestantar fengu það loforð hjá keisaranum, að þeim skyldi leyft að gjöra grein fyrir trú sinni á þessum fundi, og halda svörum uppi fyrir henni eins frjálslega og með jöfnum rjettindum, sem aðrir fundarmenn. Allt annað ætlaði páfinn sjer. Lúter hafði þegar verið bannfærður af páfanum og kenning hans; páfarnir álitu hann þess vegna og alla áhangendur hans sjálfsagða villutrúarmenn, og því var eptir boðunarbrjefi páfans prótestöntum stefnt á fundinn eins

og sakamönnum. Prótestantar sáu þá, hvers þeir mundu eiga von á þessum fundi; það gat ekki dulizt þeim, að áfellisdómurinn var þegar fyrir fram kveðinn upp yfir þeim, og þess vegna tóku þeir það ráð, sem eðlilegt var, að sitja heima, og eiga engan þátt í fundi þessum.

Hvað nú snertir starfsemi þessa kirkjufundar, þá snerist yfir höfuð allur áhugi hans á móti prótestöntum og lærdómi þeirra. Að vísu áttu setu á þessum kirkjufundi margir æruverðir lærðir katólskir guðfræðingar, sem gagnteknir voru af innilegri löngun eptir verulegri kirkjubót, einkum frakkneskir og spánskir biskupar. En þessi frjálslyndari flokkur varð undir. Meiri hluti fundarmanna voru jesúítar, klerkar úr Ítalíu, hirðbiskupar páfans, sem ekki hugsuðu um annað en gagn páfans, og vildu því halda öllu í fornum skorðum. Andi páfans stýrði þannig alveg þessum fundi í Tríent; páfinn var þar eins og allt af nálægur, því legátar hans stýrðu fundinum, og stöðuglega gengu sendiboðar á milli frá Rómaborg, til að út búa legátana með því, sem þeir þurftu með, og blása þeim og fundinum í brjóst páfans velþóknanlegum vilja. Fundurinn hafði fyrir sjer rit Lúters og annara samverkamanna hans, því prótestantar voru þá þegar fyrir löngu búnir að gjöra opinberlega grein fyrir trú sinni, og ákveða kenningu sína í ýmsum trúarjátningum. Þessi rit prótestanta tók fundurinn til skoðunar, ákvað síðan, hver væri kenning rómversku kirkjunnar í hverri lærdómsgrein, og lagði áfellisdóm á lærdóm prótestanta í þeim trúar-

lærdómum, sem ágreiningur var um. Með þessu móti lagði fundurinn í Tríent samþykki sitt á og staðfesti sem rjettan kirkjulærdóm alla hina fornu trúarfræði katólsku kirkjunnar, en lagði bannfæringu yfir lærdóm prótestanta. Kirkjufundurinn segir, að hann beri engan nýjan lærdóm fram, heldur hinn forna hreina lærdóm kristilegrar kirkju gagnvart þeirri villu, sem nýlega sje komin upp, og hafi gjört árásir á trúna. En í rauninni staðfesti fundurinn sem hreinan kirkjulærdóm alla guðfræði miðaldanna, hina svo nefndu skólaguðfræði, og með henni allar þær mannasetningar, sem þá sköpuðust og fundnar voru upp, til að afbaka kristilega trú. Gangurinn í fundarstörfunum var sá, að lærdómur prótestanta í hverri grein var dreginn út úr ritum þeirra, og nefndum (*congregationes*) var falið á hendur, að segja um þá álit sitt. Þessar nefndir áttu fundi með sjer, og bjuggu til sitt trúaratkvæði á móti lærdómi prótestanta; síðan voru álit nefndanna rædd á aðalfundi, og kirkjulærdómur úrskurðaður og ákveðinn í hverri grein, eptir því sem aðalfundinum kom saman um, og bannfæring var lögð yfir lærdóm prótestanta. Ákvarðanir fundarins í ágreiningslærdómunum byrja vanalega með þessum orðum: „Ef einhver segir“ (*si quis dixerit*), og enda með bannfæringarlýsingu: „*anathema sit*“.

Þannig einskorðaði þá þessi kirkjufundur trúarlærdóma rómversku katólsku kirkjunnar gagnvart lærdómi prótestanta. Legátar páfans beiddu jafnskjótt í nafni fundarins páfann, að samþykkja og staðfesta ákvarðanir fundarins. Þetta gjörði páfinn, og lýsir

því yfir í staðfestingarbrjefi sínu, að ákvarðanir fundarins innihaldi hreinan og áreiðanlegan lærdóm katólsku kirkjunnar, og býður öllum trúuðum, að fallast á þær og halda þær órjúfanlega. Undir eins eptir fundarlok voru ákvarðanir fundarins, bæði trúarfræðislegar og viðvíkjandi kirkjustjórn, birtar á prenti, og komu út í Rómaborg 1564 með nafni: *„Canones et decreta concilii Tridentini“* (setningar og ályktanir kirkjufundarins í Tríent). *„Canones“* eru stuttar ákvarðanir um trúar- og kirkju-mál; *„decreta“* eru aptur lengri útlistanir, þar sem fundurinn greinilega eins og í álitsskjölum gjörir grein fyrir lærdómum sínum. Gjörðir þessa almenna kirkjufundar snertu bæði trúarlærdóma og kirkjustjórnarmál yfir höfuð. Hinar trúarfræðislegu ákvarðanir fengu strax í stað góðar viðtökur í öllum katólskum löndum, og eru til þessa dags viðurkenndar sem bindandi trúarregla af öllum katólskum þjóðum. Frakkneska kirkjan, sem þó jafnan hefur varið frelsi sitt móti yfirgangi páfans, tók hiklaust við trúarlærdómum kirkjufundarins. Fundurinn í Parísarborg 1810 lýsti því yfir, að hvað trúarlærdómana snerti, þá skyldu ákvarðanir fundarins í Tríent vera órjúfanleg trúarregla frakknesku kirkjunnar. Þar á móti fengu ekki allar ákvarðanir fundarins um ytri kirkjumál, um stjórnartilhögun og kirkjuaga, alstaðar jafngóðar viðtökur. Einkanlega færðist frakkneska kirkjan undan, að leiða í kirkjulög hjá sjer flestar stjórnarákvarðanir fundarins, og allt til þessa tíma hefur hún verið ófáanleg til, að veita þeim móttöku. Ákvarðanir fundarins í Tríent

eru þannig með rjetti álitnar aðalgrundvöllur undir kirkjulærdómi rómversku katólsku kirkjunnar, og aðaltrúarjátning hennar. En þar að auki eru 2 aðrar bækur, sem taldar eru trúarregla katólsku kirkjunnar, með því þær eiga kyn sitt að rekja til fundarins í Tríent, og eru óaðgreinanlegar frá honum. Þessar bækur eru *„professio fidei"*, og *„catechismus Romanus"*. *„Professio fidei"* var samin 1564 að skipun Píusar páfa 4.; hún er ágrip af trúarákvörðunum fundarins í Tríent, og er einkum ætluð prestum og kennimönnum kirkjunnar, og verða þeir allir að vinna eið að því, að þeir skuli fylgja henni sem trúarreglu, og slíkt hið sama hljóta allir þeir að gjöra, sem taka trúarjátningu katólsku kirkjunnar. Þessi bók er stýluð í játningarformi, og þó hún sje ekki löng, tekur hún margar trúargreinir jafnvel skýrar fram, heldur en ákvarðanir fundarins. *„Catechismus Romanus"* er 3. trúarjátning kirkjunnar. Þessi bók er samin eptir undirlagi fundarins í Tríent. Fundurinn ætlaði sjer upphaflega að semja lærdómsbók í hreinum katólskum trúarlærdómi, en gat ekki af lokið þessu starfi, af því fundinum var slitið áður. Píus páfi 5. fól þá ýmsum lærðum guðfræðingum á hendur, að semja þessa lærdómsbók, og kom hún út í Rómaborg 1566: *„Catechismus ex decreto concilii Tridentini, Pii Vti jussu editus"*. Þessi bók er eins og hin fyrri byggð á gjörðum fundarins í Tríent, samin einkanlega fyrir barnauppfræðendur, og þannig ætluð til þess, að innræta alþýðu trúarákvarðanir fundarins; og þar eru ýmsir lærdómar jafnvel skýrar og skilmerkilegar út-

listaðir, heldur en hjá fundinum. Einkanlega er ar trúlega brýndur fyrir mönnum lærdómur kirkjunnar um páfavaldið. Þessi bók varð fljótt almenn lærdómsbók í öllum skólum katólskra landa, og á þessari bók eru byggðar allar aðrar lærdómsbækur, sem jesúítar einkum hafa fengizt við að semja. Með þessum 3 trúarjátningum hafði þá rómverska katólska kirkjan kostgæfilega tekið fram lærdóm sinn, og sett skilnaðarvegg milli trúarfræði sinnar og prótestanta. Kirkjan ljet ekki þar við sitja. Til þess að reisa enn fremur skorður við því, að lærdómur prótestanta smeygði sjer inn í katólsk lönd, og til þess að binda samvizku barna sinna eingöngu við hina rómversku páfatrú, upp hugsaði kirkjan kœnlega ýmsar tilskipanir. Í því skyni áskildi Píus páfi 4. í staðfestingarbrjefi sínu á gjörðum fundarins hinu postullega sæti rjett til þess, að út þýða allar ákvarðanir fundarins, og lagði með því öll störf hans, bæði í trúarefnum og öðrum kirkjuefnum, undir ótakmarkaðan vilja og dómsúrskurð páfans. Þessu til framkvæmdar setti Sixtus páfi 5. árið 1588 kardínálanefnd (*congregatio pro interpretando concilio Tridentino*), sem skyldi hafa það starf, að út þýða ákvarðanir kirkjufundarins. Til þessarar nefndar skyldu allir snúa sjer, sem væru í vafa og óvissu um eitthvað í ályktunum fundarins, og kœmi ágreiningur upp í kirkjunni um, hvernig skilja ætti eitthvað hjá fundinum, skyldi þessi nefnd ákveða og úrskurða, hver væri hin rjetta þýðing. Til þess enn fremur að aptra útbreiðslu allra villutrúarbóka í kirkjunni, og hafa vakandi auga á öllum

ritum, sem í einhverju tilliti væri grunuð um rjetta trú, setti Píus páfi 5. sjerstaka nefnd: *„congregatio pro indice librorum prohibitorum“*. Páll páfi 3. hafði látið koma út í Rómaborg 1558 hina fyrstu skrá yfir forboðnar bækur, og Píus 4. hafði 1564 gefið reglur fyrir, hvernig hana skyldi semja. Þar var tilgreint, hverjar bækur væru alveg bannaðar *(damnati)*; hverjar lesa mætti með því skilyrði, að úr þeim væri hleypt vissum köflum *(expurgandi)*. Nefnd sú, sem Píus 5. setti *„pro indice librorum prohibitorum“*, átti nú að halda á fram þessari skrá, og hafa vakandi auga á öllum bókum, sem út kæmu; og þessum starfa hefur nefndin trúlega gegnt til þessa dags; hún hefur verið ritdómari allra guðfræðisbóka, og stemmt stiga fyrir öllum bókum, sem flytja einhverja kenningu á móti trúarfræði rómversku kirkjunnar. Einungis veitir hún leyfi einstökum guðfræðingum kirkjunnar, að lesa guðfræðisbækur villutrúarmanna í því skyni, að þeir hreki þann lærdóm, sem þær flytja. Þannig hefur kirkjan sýnt óþreytandi árvekni í því, að verja hina hreinu katólsku kirkjutrú, eins og hún var ákveðin af fundinum í Tríent og tekin fram í trúarjátningum kirkjunnar, sem þegar eru nefndar. Kirkjan ætlaði með allri þessari fyrirhyggju eins og að víggirða hina katólsku kirkjutrú á alla vegu, bæði fyrir ásóknum utan að frá hendi prótestantiskrar trúar, og efasemdum, sem koma kynnu upp hjá börnum katólsku kirkjunnar sjálfrar; hún ætlaði sjer að koma upp og tryggja algjörlega einingu trúarinnar á útvortis hátt. En þetta hefur kirkjunni ekki tekizt; því þó katólskir

guðfræðingar[1] sumir gjöri sjer mikið far um, að gylla fyrir mönnum þá trúareiningu, sem eigi sjer stað í katólsku kirkjunni, og bregði prótestöntum um sundrungu og ágreining í trúar- og kirkju-efnum, þá verður í rauninni, þegar rjett er litið á málið, minna úr þessari einingu, heldur en katólskir vilja telja mönnum trú um. Í katólsku kirkjunni á sjer engu síður sundrung og trúarfræðislegur ágreiningur stað, en í prótestantisku kirkjunni, heldur jafnvel stórkostlegri; því þar sem prótestantar eru samdóma í grundvallarlærdómum trúarinnar, er mikill ágreiningur milli katólskra innbyrðis í lærdómunum um kirkjuna og stjórn hennar, um samband páfans við biskupana og hina almennu kirkjufundi, og þessar trúargreinir eru þó einmitt hyrningarsteinninn í hinni katólsku trúarfræði; þrátt fyrir það sundrar ágreiningurinn út af þessum lærdómum katólsku kirkjunni í 2 mikla flokka, hina svo nefndu *Curialista* (páfaflokk) og *Episcopalista* (biskupaflokk), sem síðar mun verða talað um. Sama er að segja um lærdóminn um guðs náð og mannlegt frelsi. Þessi lærdómur sundrar einnig katólsku kirkjunni í 2 aðalflokka, jansenista, eða hina ágústínsku stefnu, sem nálgast vilja í ýmsu prótestanta, og jesúíta, sem hafa myndað sjer nokkurs konar flokksguðfræði fyrir sig, og eru yfir höfuð þrælbundnir hinu rómverska páfasæti. Rómversku kirkjunni hefur ekki tekizt, hversu mikilli harðstjórn sem hún hefur beitt, að leggja fjötur á mannlegan anda; þess

[1]) Sambr. einkanl. *Bossuet: Histoire des variations des églises protestantes.*

vegna var það ómögulegt fyrir kirkjufundinn í Tríent, hversu kœnlega sem hann setti niður orðin í trúarsetningum sínum, að stýla orð sín svo, að ekki mætti teygja úr þeim nema eina þýðingu, og þess vegna líka óhugsandi, að hann mundi geta reist skorður við því, að upp kœmu ýmsar útleggingar og frábrugðnar útþýðingar á ákvörðunum fundarins. Enda sýnir saga katólsku kirkjunnar á eptir, að gagnstœðir flokkar í kirkjunni hafa opt borið fyrir sig sömu orð fundarins, til að styðja gagnstœða lærdóma.

Vegna þessa ágreinings, sem er í katólsku kirkjunni milli guðfrœðinganna um trúarlærdómana, liggur það í augum uppi, að, þegar skýra á frá trú kirkjunnar, verður að við hafa varhygð og val á rökum byggt. Rómversku kirkjunni væri mikill órjettur gjörður, ef menn af handahófi eignuðu henni hverja þá hjátrú og hjegilju, sem finnast kann hjá alþýðu í katólsku kirkjunni, eða hjá einhverjum vissum munkaflokki. Eins væri það heimildarlaust, að gefa það jafnan út fyrir hreinan lærdóm rómversku kirkjunnar, sem kann að finnast hjá guðfrœðingum hennar, þó lærðir kunni að vera, og hafi haft álit á sjer; því það er engan veginn sagt, að trúarskoðun þeirra komi jafnan heim við hinn opinbera kirkjulærdóm. Hitt er aptur víst, að margir þeirra, einkum á síðari tímum, eptir að prótestantisk trúarfrœði og heimspekileg menntun frá prótestöntum fór að hafa áhrif á katólsku kirkjuna, hafa leitazt við, að mynda nokkurs konar heimspekilega katólsku; þeir hafa gjört sjer far um, að fœra hina katólsku trúarfrœði í skáld-

legan fegurðarhjúp, til þess að draga fjöður yfir hið hneykslanlega í trúarlærdómum kirkjunnar, en gylla þá og fegra sem mest að utan, svo að þeir gætu gengið í augu prótestöntum. Einkanlega var hinn nafnfrægi Bossuet[1], biskup í Meaux, † 1704, meistari í þessari íþrótt, einhver hinn mesti trúarfræðingur og kennimaður, sem katólska kirkjan átti sjer á þeim tímum, og á þessum tímum hefur Möhler[2], katólskur guðfræðiskennari í Tübingen, † 1838, fetað í fótspor Bossuets, og trúlega beitt hinum sömu vopnum í þjónustu kirkju sinnar. En þessi guðfræðisstefna er engan veginn í anda katólsku kirkjunnar, enda hafa þeirra eigin trúarbræður, aðrir katólskir guðfræðingar, risið upp á móti henni, og með fullum rökum lýst því yfir, að slík aðferð væri afbökun hreinnar katólskrar trúar, og jafnvel ekki orsakalaust borið þeim á brýn, sem þvílíkri aðferð beittu, óhreinskilni við katólsku kirkjuna. Rit þvílíkra guðfræðinga verða menn að nota með varhygð, þegar útlista á lærdóm katólsku kirkjunnar; því það væri ógjörandi, að taka rit þeirra eins og áreiðanlega og óyggjandi undirstöðu fyrir hinni katólsku trúarfræði. Áreiðanlegur grundvöllur fyrir hinni katólsku kirkjutrú geta einungis þau rit álitizt, sem hafa fengið opinbert gildi og staðfestingu kirkjunnar, eins og regla og mælikvarði trúarinnar. Þvílík rit mega álítast trúarjátningar (*symbola*) kirkjunnar; og þar til teljast þá þau

---

1) *Exposition de la doctrine de l'église catholique sur les matières de controverse.*

2) *Symbolik,* 1. útg. *Mainz* 1832.

3 rit, sem talað er um hjer að framan, sömuleiðis trúarákvarðanir *(canones)* hinna almennu kirkjufunda, úrskurðir og tilskipanir páfanna í trúarefnum *(decretales, constitutiones)*, og yfir höfuð öll þau rit, sem hafa staðfestingu hins páfalega sætis eins og regla trúarinnar. Rit einstakra guðfræðinga geta því að eins komið til skoðunar í útlistun hinnar katólsku kirkjutrúar, að höfundarnir hafi almennt álit á sjer sem rjetttrúaðir guðfræðingar, og rit þeirra sjeu í anda hinna opinberu trúarjátninga. Þess vegna mun yfir höfuð í þessu riti einungis verða vitnað til þeirra bóka, sem hafa fengið opinbert gildi í katólsku kirkjunni eins og trúarjátningar hennar.

## II.

## Um trúarjátningar prótestantisku kirkjunnar.

Hin prótestantiska kirkja hefur sínar trúarjátningar ekki síður en katólska kirkjan. Prótestantar gjörðu fljótt opinberlega grein fyrir trú sinni og kenningu, svo lærdómur þeirra lægi fyrir almenningssjónum, yrði prófaður eptir heilagri ritningu, og öllum yrði ljóst, í hverju þá greindi á við trúarfræði katólsku kirkjunnar. Þessi opinberu trúarrit eptir oddvita siðabótarinnar, sem samþykkt hafa verið eins og trúarregla í prótestantisku kirkjunni, eða viðurkennd af henni eins og trúarjátningar, eru undirstaðan undir hinni prótestantisku trúarfræði, og lýsa hinum einkennilega

skilningi prótestantisku kirkjunnar á kristindóminum gagnvart katólsku kirkjunni, jafnvel þó þessi rit hafi allt aðra þýðingu hjá katólskum, heldur en hjá prótestöntum. Katólska kirkjan eignar sjer, eins og síðar mun nákvæmar verða skýrt frá, stöðugan innblástur heilags anda, ekki síður nú, heldur en á dögum postulanna; henni á ekki að geta skjátlazt í trúarefnum, með því heilagur andi bregzt henni aldrei, en blæs henni daglega í brjóst hinn algjörða sannleika[1]. Þess vegna hlýtur líka sjerhver setning kirkjunnar, sjerhvert orð hennar og trúarákvörðun að vera algjör, og óumbœtanleg um aldur og æfi; því hvort sem menn heldur líta til hins skrifaða orðs í heilagri ritningu, eða til hins óskrifaða orðs í siðum og sögusögn kirkjunnar, eða til trúarjátninga hennar, þá er, samkvæmt kenningu katólskra manna, ein og hin sama uppspretta að þessu öllu, nl. heilagur andi, sem ekki talar skýrar í ritningunni, heldur en í gegnum páfann, og biskupana á kirkjufundunum. Samkvæmt þessu eignar katólska kirkjan trúarjátningum sínum ævarandi og óumbreytanlegt lagagildi, sem sjerhvert barn kirkjunnar hlýtur að trúa á og lúta, eins og orði heilags anda. Öðruvísi lítur prótestantiska kirkjan á þessar bœkur. Prótestantiska kirkjan eign-

---

[1]) *„Haec una ecclesia errare non potest in fidei et morum disciplina tradenda, quum a spiritu sancto gubernetur“. Cat. Rom.*

Það er: þessari einu kirkju getur ekki skjátlazt í boðun sinni á trúarfrœði eða siðalærdómum, þar eð heilagur andi stýrir henni.

ar einungis hinni fyrstu kristni, tímabili postulanna, innblástur heilags anda, og játar um ekkert rit, að það sje innblásið af heilögum anda, nema ritninguna. Þess vegna viðurkennir hún heldur engan óbrigðulan dómara í trúarefnum, engan algjörðan mælikvarða trúarinnar, nema heilaga ritningu eina; hún er sú regla, sem öll önnur kenning á að metast eptir (*norma normans*). Þar á móti eignar prótestantiska kirkjan trúarjátningum sínum ekkert algjört eða óbrigðult dómsvald í trúarefnum jafnhliða heilagri ritningu; hún viðurkennir þær ekki sem trúarreglu, vegna þess þær hafa fengið ytra lagagildi og álit í kirkjunni, heldur vegna þess, að inntaki þeirra kemur saman við lærdóma heilagrar ritningar (*quia cum sacra scriptura consentiunt*). Álit þeirra er þá ekki byggt á sjálfum þeim, eða skipun kirkjunnar, heldur á heilagri ritningu; þær eru hin afleidda regla trúarinnar (*normae normatae*), sem, eins og öll önnur mannleg kenning, á að prófast eptir kenningu ritningarinnar. Því þó hinar miklu trúarhetjur og höfundar siðabótarinnar, sem sömdu trúarjátningar kirkjunnar, hefðu sjerlega hlutdeild í gjöf heilags anda, þó þeir væru dýpra innvígðir í anda kristindómsins, en aðrir á þeirra tímum, þá höfðu þeir ekki andann í sama mæli sem postular Krists; þeir voru ekki i n n b l á s n i r af heilögum anda. Þess vegna hlýtur prótestantiska kirkjan samkvæmt grundvallarreglu sinni jafnan að álíta játningar sínar með fram að vera mannaverk, sem, eins og allt annað mannlegt, geta tekið umbótum, og um aldur og æfi eiga að

prófast og leiðrjettast eptir heilagri ritningu. Þar af leiðir, að prótestantiska kirkjan bindur sig ekki, á sama hátt og katólska kirkjan, við þessar bækur, eins og ósveigjanlegt trúarlögmál; hún bindur sig ekki við bókstaf þeirra, heldur hefur í hávegum hinn mikla trúarinnar fjársjóð, hinn sannkristilega biflíukjarna, sem þær hafa að geyma, og játar þær sem reglu trúarinnar, að því leyti, sem hún finnur, að andi þeirra er gagntekinn af ritningarinnar anda *(quatenus cum sacra scriptura consentiunt)*. Þetta gildi, og ekkert annað, eigna trúarjátningar vorar sjer sjálfar[1]. Þær gefa sig hvergi út fyrir óbrigðulan dómara trúarinnar, heldur vottorð um skilning kirkj-

---

[1]) *„Sola scriptura sacra judex, regula et norma agnoscitur, ad quam omnia dogmata exigenda sunt et judicanda. Caetera autem symbola non obtinent auctoritatem judicis — haec enim dignitas solis sacris literis debetur — sed duntaxat pro religione nostra testimonium dicunt, eamque explicant, ac ostendunt, quo modo singulis temporibus sacrae literae in articulis controversis in ecclesia dei intellectae et explicatae fuerint". Form. conc.*

Þ. e.: Heilög ritning ein játast dómari, regla og mælikvarði, sem prófa á eptir alla trúarlærdóma og dæma. En aðrar trúarjátningar hafa ekki dómsvald — þvílík tign ber heilagri ritningu einni —, heldur flytja trúarjátningarnar einungis vitnisburð um trú vora, og útskýra hana, og sýna, hvernig hinar helgu bækur á ýmsum tímum hafa verið útlagðar og útlistaðar í kristilegri kirkju í trúarlærdómum þeim, sem ágreiningur hefur verið um.

unnar á vissum tíma, sem þær urðu til á, og leiðbeining fyrir menn, til þess að skilja heilaga ritningu í hennar eigin anda. Höfundum siðabótarinnar kom því aldrei til hugar, að gjöra orð sín eða rit að neyðandi trúarlögmáli, eða æðsta dómara í trúarefnum, því þá hefðu þeir sjálfir afneitað þeirri grundvallarreglu, sem þeir sjálfir börðust fyrir, og sem allt verk þeirra byggðist á, og sem er aðaleinkenni prótestantisku kirkjunnar, að ekkert mannlegt vald geti haft æðsta dómsúrskurð í trúarefnum, heldur hafi guðsorð, heilög ritning þar ein ótakmarkað úrskurðarvald. Þess vegna vara þeir svo opt, einkanlega Lúter víða í ritum sínum, menn við því, að láta hvorki sín nje annara manna orð binda sig, en prófa kenningu allra með því, að bera hana saman við heilaga ritningu.

Hin prótestantiska kirkja telur mörg rit, sem gildi hafa fengið eins og trúarjátningar, einkanlega reformerta kirkjan; í henni hefur, að heita má, hver landskirkja sína trúarjátningu. Trúarjátningar lútersku kirkjunnar eru þessar: 1. Augsborgarjátningin (*confessio Augustana*). Karl keisari 5. hafði boðað ríkisdag í borginni Augsborg 1530, til þess, meðal annars, að jafna trúarágreininginn og trúarhreifinguna á Þýzkalandi, og hafði látið prótestanta vita, að þeir skyldu gjöra þar grein fyrir kenningu sinni opinberlega. Jóhann kjörfursti í Sachsen, prótestantiskur höfðingi, fól þá helztu guðfræðingunum í Wittenberg, Lúter, Melanchthon, Jónasi og Bugenhagen á hendur, að semja stutt og skýrt ágrip af hinni

evangelisku trú, og afhenda sjer síðan. Eptir skipun kjörfurstans sömdu þessir guðfræðingar ágrip í 17 greinum, og fengu það kjörfurstanum í hendur í Torgau; eru þessar greinir kenndar við bœinn og kallaðar „Torgauargreinirnar“. Kjörfurstinn hjelt síðan til Augsborgar, og hafði með sjer Melanchthon, en skildi Lúter eptir í Coburg. Í Augsborg var beðið eptir keisaranum í 6 vikur, og varði Melanchthon þeim tíma til, að semja hina svo nefndu Augsborgarjátningu, og lagði til grundvallar hinar fyrnefndu Torgauargreinir. Þessi trúarjátning var send Lúter til yfirskoðunar, og samþykkti hann hana í alla staði. Allir prótestantiskir höfðingjar á ríkisdeginum skrifuðu undir hana, og keisaranum var afhent hún hátíðlega 25. d. júním, bæði á latínu og þýzku; hið þýzka handrit var lesið upp fyrir öllu ríkisþinginu í heyranda hljóði. Þannig varð til hin fyrsta trúarjátning lútersku kirkjunnar. 2. Vörn Augsborgar-játningarinnar (*apologia confessionis*). Jafnskjótt og keisarinn hafði fengið í hendur játningu prótestanta, fól hann nokkrum katólskum guðfræðingum á hendur, að hrekja rit prótestanta. Þessir menn sömdu þá ritling (*confutatio*), sem líka var lesin upp, og skipaði keisarinn prótestöntum síðan að gefast upp, og lúta í hlýðni þeim sannfœrandi ástœðum, sem þar væru fœrðar. Í nafni prótestanta beiddist Melanchthon þá, að mega sjá ritið, til að svara því; en því var þverneitað. Engu að síður greip Melanchthon til pennans, og svaraði þessu riti, þó ekki hefði hann að styðjast við annað en minni sitt, og

einstöku orð, sem hann hafði ritað hjá sjer, þegar ritlingurinn var lesinn upp. Eptir að ríkisdeginum var slitið, barst Melanchthon í hendur eptirrit af *„confutatio“* katólskra; endurbœtti hann þá svar sitt, og kom því í þá lögun, sem það nú er í, og kallaði *„apologia confessionis“* (vörn játningarinnar). Melanchthon ritaði bókina á latínu, en síðan var henni snúið á þýzku, og varð trúarjátning lútersku kirkjunnar. 3. Schmalkaldar-greinirnar *(articuli Schmalcaldici)*. Eins og áður er sagt, hafði Páll páfi 3. boðað almennan kirkjufund saman í Mantúa 1537. Keisarinn sendi þá orð prótestöntum í Schmalkalden, og ljet semja við þá um, að gefa skýrslu sína um trúna. Jóhann Friðrik kjörfursti fól þá Lúter á hendur, að semja ágrip af öllum trúaratriðum, sem ágreiningur var um milli kirknanna; ætlaði hann að leggja það fram á kirkjufundinum, í því skyni að það yrði brúkað sem undirstaða, þegar kirkjufundurinn fœri að þinga um trúarágreininginn. Lúter samdi þetta rit, og hafði það með sjer til Schmalkalden á fund, sem prótestantiskir höfðingjar áttu þar með sjer, og var það samþykkt af öllum prótestantiskum höfðingjum og guðfrœðingum, sem viðstaddir voru. Í Schmalkalden var Melanchthon falið á hendur, að semja viðbœti við þessar greinir, kafla um yfirráð páfans og vald biskupanna *(tractatus de primatu papae et jurisdictione episcoporum)*, og er þar með mikilli snilld og skarpskyggni gjört grein fyrir því, hvers vegna prótestantar hafi sagt skilið við páfann og hans ríki. Eins og áður er sagt, varð ekkert af fundinum í Mantúa, og

ekkert varð af, að prótestantar kœmu á fundinn í Tríent. Lúter gaf samt út 1538 þessar greinir, og urðu þær að trúarjátningu kirkjunnar, með því þær fengu almennt samþykki prótestanta. Upphaflega voru greinirnar samdar á þýzku, síðar var þeim snúið á latínska tungu. 4. Stœrri og minni frœði Lúters (*catechismus major et minor*). Ekki samdi Lúter þessi rit upphaflega í þeim tilgangi, að þau yrðu opinber trúarreglurit, heldur til leiðbeiningar kennimönnum kirkjunnar og alþýðu í kristilegri trú, eptir að hann hafði farið um Saxland 1527 og 1528 kirkjuskoðunarferðir. Á þessari ferð hafði honum gefizt nœgilegur kostur á, að sannfœrast um, hve ófróðir prestarnir voru í kristindóminum, og þess vegna lítt fœrir til þess, að standa rjettilega í stöðu sinni sem sálusorgarar og frœðarar alþýðu í kristilegri trú, og að kristnir söfnuðir þess vegna voru eins og hjarðir án hirða. Þetta gekk Lúter mjög til hjarta. Hann samdi því 2 lærdómsbœkur 1529, aðra, þá meiri, handa prestum, hina minni handa alþýðu og unglingum, báðar á þýzkri tungu. Síðar var þeim snúið á latínu, og hafa þessi rit síðan hlotið gildi sem trúarjátningar í lútersku kirkjunni, hin minni lærdómsbók þó í fleiri löndum heldur en hin stœrri. 5. *Concordiu*-reglan (*formula concordiae*). Hún var ekki beinlínis stýluð á móti katólsku kirkjunni einni, eins og hinar 3 elztu trúarjátningar, „*confessio Augustana, apologia confessionis*“, og „*articuli Schmalcaldici*“, heldur var hún ætluð til þess, að verja hina hreinu kenningu Lúters, og jafna trúarstríðin, sem komin voru upp í lútersku kirkj-

unni eptir dauða Lúters. Þess vegna er hún ekki síður stýluð á móti ýmsum lærdómi, sem kom upp í lútersku kirkjunni sjálfri, og þótti víkja frá kenningu Lúters, heldur en á móti katólsku kirkjunni. Eptir andlát Lúters hafði Melanchthon sveigt nokkuð í einstöku trúargreinum frá orðum hins mikla kennimanns, einkum í lærdóminum um kveldmáltíðina, og valið mýkri orðatiltæki, sem samþýðzt gátu trúarfræði reformertra. Lærisveinar Melanchthons fóru enn þá lengra, og gjörðu tilraun til, að smeygja reformertri trú inn í Saxland. Þetta gjörði lærisveina Lúters óvæga, sem fastheldnir voru við kenningu hans, og kölluðu þeir slíkar tilraunir svikráð við hina hreinu evangelisku kenningu og kristilega kirkju; þetta vakti mikla hreifingu í lútersku kirkjunni. Með ráði Augusts, kjörfursta í Saxlandi, kom mönnum loksins saman um, að nauðsynlegt væri, að taka saman nýja trúarjátningu, sem tæki fram eins skýrt og skilmerkilega, og unnt væri, mismuninn á kenningu Lúters og reformertu kirkjunnar. Í þessu skyni voru fyrst samin 2 ágrip, og þau látin ganga milli guðfræðinganna til athugasemda og umbóta. Að því búnu tóku sig saman helztu guðfræðingar meðal lærisveina Lúters, áttu fund með sjer 1577 í klaustrinu Bergen hjá Magdeburg, og sömdu úr þessum ágripum, og athugasemdum þeim, sem fyrir hendi voru, nýja bók, svonefnda bergisku bók, eða öðru nafni „*formula concordiae*“. Þetta rit var síðan látið ganga um allt Þýzkaland og víðar til undirskriptar, og því næst opinberlega gefið út 1580 sem trúarjátning lútersku kirkjunnar. Ritið

er í 2 aðalköflum; fyrri kaflinn, „*epitome*“, er ágrip af öllum ágreiningsatriðum, sem viku frá Augsborgarjátningunni, og síðari kaflinn, „*solida declaratio*“, er löng og skilmerkileg útskýring yfir einstakar greinir játningarinnar frá Augsborg. Eins og við var að búast, herti þetta rit á trúarágreiningnum milli lútersku og reformertu kirkjunnar, og lagði síðustu hönd á sundrungu kirknanna, en náði ekki tilgangi sínum, að koma samlyndi á í prótestantisku kirkjunni; þess vegna kölluðu katólskir menn ritið í skopi „*formula discordiae*“ (reglu sundurlyndisins). Og þó bókin ynni að því, að binda fastar saman lærisveina Lúters, þá styggði hún aptur marga lúterska guðfræðinga, sem í anda Melanchthons höfðu þokka á lærdómi reformertu kirkjunnar um kveldmáltíðarsakramentið, þar eð þeir sáu, að skoðun þeirra var talin villutrú, og varð það tilefni til þess, að ekki allfáir þeirra tóku trúarjátningu reformertra. Þar að auki veitti engan veginn öll lúterska kirkjan þessari bók viðtöku sem trúarjátningu. Ýms ríki á Þýzkalandi færðust undan, að veita henni samþykki sitt og viðtökur, sömuleiðis norðurlönd, Svíþjóð og Danmörk. Allar þessar trúarjátningar lútersku kirkjunnar ljet síðan August kjörfursti í Saxlandi opinberlega gefa út ásamt trúarjátningum hinnar elztu kirkju í einu safni 1580, ásamt formála fyrir, og heitir það safn „*concordiu*-bók“. Bezta útgáfa af trúarjátningum lútersku kirkjunnar er eptir Hase: „*Libri symbolici ecclesiae evangelicae*“. Leipzig 1847.

Af trúarjátningum reformertu kirkjunnar eru

þessar helztar: 1. *Confessio tetrapolitana;* það var trúarjátning borganna Straszburg, Constanz, Memmingen og Lindau, og var lögð fram á ríkisdeginum í Augsborg 1530, en ekki lesin upp. Nokkru síðar fjellust þessar 4 borgir á Augsborgarjátninguna, og upp frá því missti þetta rit gildi sitt sem trúarjátning. 2. *Confessio Helvetica* kom fyrst út 1536, samin af lærðum guðfræðingum í Schweiz; síðan var henni steypt um 1566, og löguð eptir lærdómi Kalvíns, og varð trúarjátning reformertu kirkjunnar í Schweiz. 3. *Articuli Anglicani,* trúarjátning ensku kirkjunnar. Þessar greinir voru upphaflega 42 að tölu, samdar 1553 undir stjórn Eðvarðs 6., líklega af Cramner erkibiskupi. Undir stjórn Elísabetar drottningar var þeim fækkað til 39, og samþykktar á kirkjufundi í Lundúnum 1562. 4. *Confessio Gallicana,* trúarjátning reformertu kirkjunnar í Frakklandi, samin 1559 á kirkjufundi í París í trúarfræðisanda Kalvíns. 5. *Confessio Belgica,* samin 1569, og viðurkennd sem trúarjátning Hollands; hún er að sönnu samin eptir trúarfræði Kalvíns, en í mýkri orðum, heldur en hin fyr nefnda. 6. *Decreta synodi Dordracenae,* ákvarðanir kirkjufundarins í Dortrect 1618—19, sem staðfesti hinn stranga lærdóm Kalvíns um náðarvalið. 7. *Catechismus Heidelbergensis,* saminn 1562 að tilhlutun Friðriks 3. kjörfursta í Pfalz, sem verið hafði lúterskrar trúarjátningar upphaflega, en tekið síðar reformerta. Þessi bók var staðfest af fundinum í Dortrect, og viðurkennd sem trúarjátning reformertu kirkjunnar, jafnvel þó hún flytji kenn-

ingu Kalvíns í vægum orðatiltœkjum. 8. *Confessio Marchica*, samin 1613 að tilhlutun Jóhanns Sigmundar, kjörfursta í Brandinaborg, þegar hann tók reformerta trúarjátningu, og upphaflega fyrir hann sjálfan, en fjekk gildi sem opinber trúarjátning undir stjórn Fr. Vilhjálms kjörfursta 1662, ekki einungis hjá reformertum þegnum hans, heldur víðar í Þýzkalandi. Fullkomnasta safn af trúarjátningum reformertu kirkjunnar er eptir Niemeyer, Leipzig 1840.

## III.

## Um hinn sameiginlega grundvöll kirknanna; stefna ritsins.

Þrátt fyrir allan þann mikla ágreining, sem á sjer stað um lærdóm kristilegrar trúar milli katólsku og prótestantisku kirkjunnar, mega menn ekki gleyma hinum sameiginlega grundvelli, sem trúarfrœði beggja kirkna styðst á; því missi menn sjónar á honum, er hætt við, að mönnum gleymist sannleikurinn og sanngirnin, og að menn þykist finna þar ágreining, sem hann í rauninni enginn er. Ágreiningur og meiningamunur getur því að eins hugsazt og átt sjer stað milli manna, að þeir sjeu í einhverju samdóma, að einhver undirstaða sje, sem mönnum komi saman um, en sem menn líta misjafnt á, og sem þess vegna spinnst út úr ýmislegur skilningur. Sjeu menn um ekkert ásáttir, geta menn ekki átt tal saman, og þá á sjer ekki ágreiningur stað, heldur fullur aðskilnaður. Sú undirstaða, sem báðar kirkjur sameiginlega byggja

á, er grundvallarlærdómur kristindómsins, trúin á guð föður, son, og heilagan anda. Vegna sameiginlegrar játningar þessarar trúar eru báðar kirkjur kristilegar kirkjur. Með því elzta játning lútersku kirkjunnar, Augsborgarjátningin, byrjar á játningu þrenningarlærdómsins, sem öll kristileg kirkja hafði viðurkennt sem grundvallarlærdóm sinn, sýndi hún, að það var ekki áform höfunda siðabótarinnar, að slíta sig úr sambandi við kristilega kirkju, heldur halda samfjelagi við hinn upphaflega postullega kristindóm. Þess vegna játar prótestantiska kirkjan hinar 3 almennu elztu trúarjátningar kirkjunnar, af því hún var sannfærð um, að þær flyttu hreinan kristilegan lærdóm, og að þeim bæri saman við guðsorð í ritningunni; því þó katólska kirkjan hefði aflagað marga trúarlærdóma á miðöldunum, þá stóð þó þessi grundvallarlærdómur óhaggaður frá hinum elztu tímum í sinni upphaflegu lögun. Þegar höfundar siðabótarinnar risu upp á 16. öld móti trú rómversku kirkjunnar, þá var það ekki til að segja skilið við kristilega kirkju og kenningu hennar, heldur miðaði allt siðabótarverk þeirra til þess, að endurnýja aptur sambandið við hina sönnu upphaflegu kirkju, rjetta við aptur hinn hreina postullega kristindóm, og einmitt þess vegna rjeðust þeir á trúarfræði rómversku kirkjunnar, að hún hafði afbakað svo og aflagað hina upprunalegu trú með einberum mannasetningum, að kristindómurinn var orðinn óþekkjanlegur. Af þessu liggur það í augum uppi, hversu átyllulaust það er, þegar katólskir guðfræðingar, bæði á fyrri og síðari

tímum, grípa til þeirra úrræða, auðsjáanlega til að beita öllum vopnum móti prótestöntum, og villa sjónir fyrir ókunnugum, að bregða höfundum siðabótarinnar um það, að kenning þeirra hafi verið þeirra eigin lærdómur, einber nýmæli, sem þeir hafi sjálfir til búið, og aldrei hafi áður heyrzt. Höfundar siðabótarinnar fluttu engin nýmæli; þvert á móti börðust þeir á móti og brutu niður nýmæli og mannasetningar rómversku kirkjunnar, en boðuðu í þess stað hina upphaflegu hreinu trú; á hverri opnu, bæði í trúarjátningunum og öðrum ritum sínum, gjöra þeir ljóslega grein fyrir því, að sá lærdómur, sem þeir flytji, sje ritningarinnar lærdómur, og kenning hinnar elztu kirkju, og sanna eins ljóslega, að trúarfræði rómversku kirkjunnar hafi afbakað orð Krists og postula hans, og villzt frá kenningu fornkirkjunnar. Þess vegna aðhylltust þeir og ítrekuðu aptur kristilega trúarlærdóma, eins og þeir höfðu verið samþykktir af kirkjunni á hinum elztu kirkjufundum, og gjörðu enga breytingu við hinar elztu trúarjátningar, að vísu ekki af sömu ástœðum sem rómverska kirkjan, ekki vegna þess, að lærdómarnir höfðu verið settir af biskupunum á kirkjufundunum, ekki vegna þess, að þeir voru byggðir á áliti manna, heldur af því, að þeir voru byggðir á guðsorði í ritningunni, og inntak þeirra var hreinn biflíulegur kristindómur. Þær trúarjátningar, sem katólska og prótestantiska kirkjan viðurkenna báðar sameiginlega, eru hinar svo nefndu almennu trúarjátningar *(symbola oecumenica)*, eða 3 elztu trúarjátningar kristilegrar kirkju, og eru

þær þessar: 1. Hin postullega trúarjátning (*symbolum apostolicum*) er eptir lögun sinni og inntaki hin upphaflegasta trúarregla kirkjunnar, og stendur næst heilagri ritningu af öllum trúarjátningum, með því hún innibindur í sjer ágrip kristilegra lærdóma næstum því með ritningarinnar eigin orðum. Eptir inntaki sínu má hún vel heita postulleg, því hún flytur ágrip af hreinum postullegum lærdómi. Þar á móti verður ekki sannað, að postularnir hafi átt nokkurn þátt í, að koma henni í þá lögun, sem hún nú er í, eða að þeir hafi sett hana saman, og orðfært hana, eins og hún nú er. Þetta er almennt álit í katólsku kirkjunni, að hún sje kölluð postulleg, af því allir postularnir hafi unnið að henni, að hver þeirra hafi lagt sitt til, og þannig sett hana í þá lögun, sem hún nú er í. En þessu er ekki svo háttað. Þessi trúarjátning varð til smátt og smátt í hinni munnlegu sögusögn kirkjunnar, en var ekki upphaflega færð í letur. Hún myndaðist í fyrstu kristni af hinni munnlegu fræðslu, sem þeir nutu, er taka ætluðu skírn, og undirbúnir voru í kristilegum fræðum. Þeir voru fræddir í aðalatriðum kristilegrar trúar, og í skírninni hlutu þeir að játast undir þessa aðallærdóma. Þannig varð þessi trúarjátning til mjög snemma sem játningarform fyrir þá, sem skírðir voru, og inntak hennar var kallað postullegt (κήρυγμα ἀποστολικόν), af því menn voru sannfærðir um, að inntakið var hreinn postullegur lærdómur, en ekki af því, að menn ímynduðu sjer, að postularnir hefðu orðfært játninguna. Kirkjufeðurnir t. a.

m. Írenæus, † 202, Tertúllíanus, † 220, og Orígenes, † 254, tilfœra í ritum sínum ýmsar þvílíkar játningar (*regulae fidei, symbola*), ekki allar eins hljóðandi, eða fullkomlega í sömu mynd, og sannar það, að á þeirra dögum hefur þessi trúarjátning ekki verið komin í fasta einskorðaða lögun. Menn geta því ekki tilgreint neinn vissan höfund að hinni postullegu trúarjátningu; hún hefur smásaman myndazt í fornkirkjunni frá 2. öld, og komizt í þá lögun, sem vjer nú höfum hana í, ekki fyr en á 4. öld. 2. Nícænska trúarjátningin (*symbolum Nicaenum*, eða *Nicaeno-constantinopolitanum*) er orðin til á hinum 2 fyrstu almennu kirkjufundum í Nícæu 325 og Constantinópel 381. Þessi trúarjátning ákveður hinn kristilega lærdóm um guðdóm Krists og þrenningarlærdóm kirkjunnar á móti villutrú þeirri, sem komin var upp í þessum trúargreinum. Ekki geta menn með vissu tilgreint höfund þessarar trúarjátningar; það eitt er víst, að hún er ávöxtur þessara tveggja kirkjufunda. 3. Trúarjátning Athanasíusar (*symbolum Athanasianum*); þessi trúarjátning heitir öðru nafni „*quicunque*“, eptir upphafsorðum hennar. Hún hefur stundum verið eignuð Athanasíusi, hinum nafnfræga biskupi í Alexandríu, † 373, af því hún inniheldur hinn hreina kirkjulega lærdóm, sem hann lengst barðist fyrir móti ýmislegum villulærdómi; en samt sem áður er hún ekki eptir hann; það sannast bæði af því, að hún er samin á latínska

tungu, og er stýluð á móti villu Nestoríusar[1] og Evtýchesar[2], sem lifðu eptir daga Athanasíusar; en að öllum líkindum er hún orðin til á 7. öld, eptir að ágreiningurinn kom upp um það í kirkjunni, hvort andinn fram gengi af föður og syni, eða föðurnum einum, því þessi trúarjátning ákveður þann lærdóm, eptir því sem hann var játaður í rómversku kirkjunni[3].

Þetta almennasta og yfirgripsmesta inntak kristilegrar trúar, sem þessar 3 almennu trúarjátningar kirkjunnar taka fram, er sá grundvöllur, sem báðar kirkjur byggja á. Þennan grundvöll verða menn því að hafa sjer hugfastan og stöðuglega fyrir augum, þegar lýsa á hinum trúarfræðislega ágreiningi milli katólsku og prótestantisku kirkjunnar; að öðrum kosti má búast við, að mönnum missýnist mikillega, og málinu verði hallað órjettvíslega. Það var einmitt yfirsjón hinnar fornu prótestantisku guðfræði á 17.öld, sem kölluð var ágreiningsguðfræði (*theologia polemica*), að hún hafði eingöngu augastað á ágreiningnum milli hinnar katólsku og prótestantisku trúarfræði, og missti með því sjónar á hinum sameiginlega kristilega grundvelli, sem báðar kirkjur styðjast á. Katólskir menn og trúarjátning þeirra voru optast settir í röð með

[1]) Villutrú sú, sem kennd er við Nestoríus, var fólgin í því, að greina svo að guðdómlegt eðli Krists og manndómlegt, að úr því urðu 2 persónur, en ekki ein.

[2]) Evtýches kenndi, að eigna mætti Kristi 2 eðli á undan holdtekju hans, en eptir holdtekjuna mætti ekki eigna honum nema eitt eðli.

[3]) Sbr. *Hase: Libri symbolici ecclesiae Lutheranae prolegomena.*

Gyðingum og Tyrkjum, heiðingjum og guðleysingjum, og menn vildu engan sannleika játa hjá öðrum, ef þeim kom ekki saman við trúarjátningu prótestanta. Þessi ósanngirni villti mjög sjónir fyrir mönnum, og gjörði þá óhœfilega til, að meta meiningar annnara rjettvíslega. Öll guðfrœði og boðun guðsorða varð að þrætulist; ágreiningsguðfrœðin geisaði ekki einungis í vísindalegum ritum guðfrœðinganna, og á háskólunum í fyrirlestrum kennaranna, heldur og á prjedikunarstólum, á mannfundum, og á heimilum manna. Á þeim tímum voru trúarlærdómarnir og trúarmálefni aðalumhugsunar- og umtals-efni manna, eins og á þessum tíma má fullyrða að allur áhugi manna snúist um stjórnarmál og veraldleg efni. Þegar menn hugleiða trúarástand þeirra tíma og lesa rit eptir guðfrœðingana á þeim dögum, jafnvel þau, sem áköfust eru í þrætulist, geta menn að vísu ekki annað en virt hina miklu trúaralvöru og trúarhita, sem lýsir sjer í þeim, í samanburði við kulda og hálfvelgju í trúarefnum á síðari tímum. Því öll hin mikla trúarhreifing, sem var einkenni þeirra tíma, var í innsta eðli sínu sprottin af sannkirkjulegum anda, af lifandi áhuga tímans á hreinum kristindómi og sannri prótestantiskri trú. En hins vegar verða menn að játa það, að þessi mikli trúaráhugi tók hjá mörgum ranga stefnu, snerist upp í óstjórnlegan trúarákafa, og barðist opt fremur fyrir bókstaf prótestantiskrar trúarjátningar, heldur en anda sannrar evangeliskrar trúar.

Eins og ágreiningsguðfrœðin gjörði sig seka í talsverðri ósanngirni við aðrar trúarjátningar, eins

missást hinni svonefndu miðlunarguðfræði (*theologia Irenica*) í því, að sýna ofmikla tillhliðrun og vægð í dómum sínum við frábrugðnar trúarjátningar. Það var eðlilegt, að menn þegar frá öndverðu gjörðu margar tilraunir til sátta og sameiningar milli katólskra og prótestanta. Í því skyni voru opt fundir haldnir og trúarsamtöl milli guðfræðinga beggja kirkna. En afdrifin urðu jafnan hin sömu. Þvílíkar tilraunir urðu einungis til þess, að herða fastar ágreininginn, og espa sundurlyndið; því hin ákafari sveit prótestantiskra guðfræðinga, sem hræddist vjelabrögð katólskra, lagði óvild og óþokka á þá trúarbræður sína, sem leituðu friðarins, og vildu stuðla að sáttum og sameiningu. Þessum síðara flokki, friðarmönnunum, yfirsást líka, ekki síður en hinum. Af því þeir höfðu einungis hinn ytri frið og sameiningu fyrir augum, varð þeim almennt hætt við, að hafa svo fastan augastað á hinum sameiginloga trúargrundvelli beggja kirkna, að þeim gleymdist ágreiningurinn, eða þeir gjörðu sem minnst úr honum, sem þeir gátu, töldu hann annaðhvort hjegómlegt orðastríð, eða þá missýning, sem ekkert yrði úr, þegar litið væri á málið fylgislaust og með rósemi. Þessir menn voru því opt fúsir á, að slaka til við katólska menn meir en góðu hófi gegndi, og með því móti láta ganga á hina prótestantisku trúarjátningu, í því skyni, að koma á trúarfriði og ytri kirkjulegri einingu. En slík friðsemi gat ekki orðið affarasæl, og reynslan sýndi, að hún í rauninni, þvert á móti ætlun sinni, vann einmitt að því sama miði, sem ágreiningsguðfræðin, það er

að skilja: œsti ágreininginn og ófriðinn milli katólskra og prótestanta. Trúarsamkomur og trúarviðrœður milli guðfrœðinganna urðu ekki til annars, en að fjarlægja kirkjurnar meir og meir sín á milli, og herða á sundurlyndinu, því þó þeir yfir höfuð kœmu sjer saman um hina fyrstu undirstöðu trúarlærdómanna, þá kom jafnan í ljós, þegar lengra var farið út í lærdómana, svo mikill meiningamunur, að ekki var að hugsa til sátta, og niðurstaðan varð sú, að þeir skildu við hvern fund ósáttari en áður. Miðlunarguðfrœðingarnir gættu ekki að því, að varanleg eining og sannur ytri friður getur ekki hugsazt, nema hann sje byggður á innri einingu í anda og sannfœringu, og eins gleymdist þeim það, að friðurinn verður of dýrkeyptur, ef hann á að kaupa með því, að menn láti fyrir hann sannleikann og trúarsannfœringu sína.

Í samanburði milli katólskrar og prótestantiskrar trúarfrœði verða menn að varast báða þessa afvegi. Það væri rangt og tilgangslaust, að vilja við enga sameiginlega undirstöðu kannast í trúarjátningum beggja kirkna, og skapa sjer ágreining, þar sem hann ekki er; en hitt væri ekki síður gagnstœtt sannleika og stoðaði ekki, að vilja draga dulur á þann verulega ágreining, sem er á milli trúarjátninga beggja kirkna. Ætlunarverk vort verður því hjer það, að leitast við að taka fram í hverjum lærdómi, sem ágreiningur er um milli kirknanna, hinn sameiginlega grundvöll í báðum trúarjátningum, og láta þær fylgjast að, á meðan þær eiga leið saman, en hins vegar

líka sýna, hvar leið þeirra skilur, og eptir megni taka skýrt fram ágreininginn milli þeirra í hverjum lærdómi, og bera saman kenningu beggja kirkna þannig, að sjá megi, í hverju sambandi að trúarjátning hvorrar fyrir sig stendur við heilaga ritningu, eða með öðrum orðum, hvor þeirra muni í trúarfræði sinni vera samkvæmari hinum hreina kristilega lærdómi.

---

# 1. kapítuli.

## Um ágreininginn milli rómversku katólsku og prótestantisku kirkjunnar í lærdómunum um kirkjuna og reglu trúarinnar.

---

### 1. grein.

### Um kirkjuna.

Í fyrstu 2 greinum hinnar postullegu trúarjátningar er enginn ágreiningur milli kirknanna. Hann kemur fyrst fram í 3. greininni, í lærdóminum um andann og verkanir hans, eða í lærdóminum um frelsis- og sáluhjálpar-veg mannsins, sem talar um það, hvernig maðurinn verður náðarinnar aðnjótandi. Ágreiningurinn byrjar því í lærdóminum um kirkjuna, sem er náðargáfnanna og náðarmeðalanna ríki. Í þessum lærdómi er fólginn grundvallarágreiningurinn milli kirknanna, og frá honum hefur í rauninni upptök sín ágreiningurinn milli þeirra í öllum öðrum trúarlærdómum. Báðum kirkjum kemur nú yfir höfuð saman í hinni yfirgripsmestu þýðingu á kirkju, að hún sje samfjelag trúaðra, sem tengjast sín á milli andlegri trúareiningu, og lýsa henni á ytri hátt í trúarjátningu; því báðar játa, að kristindómurinn, sem alheimstrú, hafi ekki birzt, til að vera eign að eins einstakra manna eða fjelaga, ekki til þess að stofna

trúarflokka, heldur til þess, að tengja alla menn saman í andlegan fjelagsskap trúar og kærleika, og ytri fjelagsskap sameiginlegrar trúarjátningar, eða til þess að stofna kirkju. Báðar kenna því, að kirkjan eptir eðli sínu sje sýnileg og ósýnileg. Katólska kirkjan játar, eins og hin prótestantiska, að með stofnun kirkjunnar hafi það orðið sýnilegt, sem áður var ósýnilegt, því þá hafi fyrst hið ósýnilega líf trúarinnar birzt í tímanum. Báðar kenna enn fremur, að kirkjan sje guðleg stofnun; því guðs sonur, Jesús Kristur, hafi orðið hold, til að birta hinn guðlega kærleika og heilagleika á mannlegan hátt, og flytja guðsríki niður á jörðina. Báðum kemur saman í því, að guðs kraptur við haldi kirkjunni; því báðar eru ásáttar í því, að heilagur andi, andi föður og sonar, sje hið guðlega vald, sem við haldi sönnu lífi trúarinnar meðal Krists játanda, flytji blessun náðarboðskaparins í kirkjunni frá einni kynslóð til annarar, og gjöri Krists evangelíum ávaxtarsamt í hjörtunum, svo að líf trúar og kærleika gangi í arf frá einni kynslóð til annarar.

En leið kirknanna skilur, og ágreiningurinn byrjar á milli þeirra í þessum lærdómi, þegar nákvæmar á að ákveða sambandið milli hins guðdómlega og mannlega í kirkjunni. Þeim kemur ekki saman um það, hvað sje hin s a n n a kirkja; en hvor þeirra skilur á sinn hátt sambandið milli hinnar ytri opinberunar kirkjunnar, og hins innra ósýnilega eðlis hennar, eða með öðrum orðum: þær líta sínum augum hvor á sambandið milli þessarar sýnilegu

jarðnesku kirkju og hins ósýnilega guðsríkis. Rómverska katólska kirkjan kennir, að fullkomin eining sje á milli hvorstveggja, að eptir stofnun kirkjunnar verði ekki talað um ósýnilega kirkju[1], því öll fylling guðlegs sannleika hafi gengið uppí hið sýnilega jarðneska kirkjufjelag, og tekið sjer þar aðsetur; guðsríki hafi með allri dýrð sinni íklætt sig þessu sýnilega jarðneska fjelagi, svo að hvorttveggja sje hið sama og fallist í faðma. Kirkjan er þess vegna, eptir lærdómi katólskra, þegar hjer í tímanum algjör og fullkomin; það sem Krists er, það er hennar. Hún er algjör, hvað kenningu hennar snertir, algjör í tilskipunum sínum og setningum; hún þarf því engrar endurbótar við; allt er einungis undir því komið, að því sje haldið í hinum sömu skorðum, sem hún eitt sinn hefur tilsett. Þó hún kalli sig stríðandi kirkju, þá er það ekki svo að skilja, að hún eigi í orustu við eigin ófullkomlegleika, heldur við óvini sína fyrir utan hana, sem hún enn þá á eptir að leggja undir sig.

Þessari kenningu neitar prótestantiska kirkjan, og segir með fullum rökum, að katólska kirkjan slengi saman hinni sýnilegu og ósýnilegu kirkju, og gjöri sig með því seka í þeirri villu, að steypa saman því mannlega og guðlega, því ófullkomna og fullkomna.

---

[1]) *„Non solum falsa, sed etiam absurda est sententia Protestantium, qui sibi invisibilem confingunt ecclesiam“. Bellarm. de eccl. milit.*

Þ. e.: Lærdómur prótestanta um ósýnilega kirkju er rangur og fjarstæður heilaspuni.

Hin prótestantiska kirkja aðgreinir því ósýnilega og sýnilega kirkju. Hin fyrri er fjelag hinna sanntrúuðu og heilögu[1]; hún er í eiginlegum skilningi hin sanna kirkja, guðsríki, sem hvergi finnst í sinni fullu dýrð hjer á jörðu, en er fyrirmyndin, sem hið jarðneska fjelag á að keppa að. Hin sýnilega kirkja er samfjelag Krists jarðneska safnaðar. Þetta fjelag er ófullkomið, eptirmyndin, sem keppast á að hinni ósýnilegu fyrirmynd, en sýnir ætterni sitt og skyldugleika við hið ósýnilega fjelag með því, að það hefur sín ytri merki, sem það þekkist á, nl. guðsorð og sakramentin[2]. Hún hefur því hlutdeild í hinni

---

[1]) *„Est autem ecclesia congregatio sanctorum, in qua evangelium recte docetur et rite administrantur sacramenta“. Conf. Aug.*

Þ. e.: En kirkja er samfjelag hinna helgu, þar sem evangelíum er rjettilega boðað, og sakramentunum veitt rjettilega þjónusta.

[2]) *„Ecclesia non est tantum societas externarum rerum et rituum sicut aliae politiae, sed principaliter est societas fidei et spiritus sancti in cordibus, quae tamen habet externas notas, ut agnosci possit, videlicet puram evangelii doctrinam et administrationem sacramentorum consentaneam evangelio Christi“. Apol. conf.*

Þ. e.: Kirkjan er ekki einungis samfjelag ytri hluta og siða, eins og önnur borgaraleg fjelög; heldur er hún fyrst og fremst samfjelag trúar og heilags anda í hjörtunum, sem þó hefur sín ytri merki, sem hún geti þekkzt á, nl. hreina boðun fagnaðarboðskaparins, og þjónustu sakramentanna samkvæma evangelíó Krists.

ósýnilegu; því allir sanntrúaðir og guðhræddir meðlimir hinnar sýnilegu eru og meðlimir hinnar ósýnilegu, borgarar guðsríkis; þeir aptur á mót, sem ekki lifa í trú og helgun, eru ekki meðlimir hinnar sönnu kirkju; þeir eru falskristnir, dauðir limir á líkama Krists, kristnir að nafninu, en ekki í raun og veru; þeir eru að vísu í hinni sýnilegu kirkju, en ekki í hinni sönnu eða ósýnilegu[1]. Eptir lærdómi rómversku kirkjunnar lifa þar á móti eins vondir sem góðir í hinni sönnu kirkju, því hin sýnilega jarðneska kirkja er ekki aðgreind frá guðsríki á himnum. Eptir lærdómi rómversku kirkjunnar eru þeir menn einnig meðlimir hinnar sönnu kirkju, sem með játningu varanna og ytri hluttekningu í kirkjulegri guðsþjónustu og siðum lifa samkvæmt tilskipunum kirkjunnar, þó að þeir í hjarta sínu sjeu langt frá trú og guðsótta. Þannig er það einkennilegt rómversku kirkjunni, að slengja saman því mannlega og guðlega, því ófullkomna og fullkomna, þar sem prótestantiska kirkjan aðgreinir hvorttveggja vandlega. Báðar játa, eins og áður er sagt, að guðs kraptur við haldi kirkjunni; því Kristur hafi gefið það fyrirheiti, að vera með kirkju sinni alla daga, og stjórna henni með nálægð anda síns, og út býta blessun náðarboðskaparins játendum sínum á öllum tímum. En þetta skilja þær hvor á sinn hátt. Prótestantar skilja þetta um and-

---

[1]) *„Mali nomine tantum in ecclesia sunt, non re; boni vero re et nomine“. Apol. conf.*

þ. e.: Vondir menn eru að nafninu einu í kirkjunni, en ekki í raun og veru; góðir menn bæði í raun og veru og að nafni.

lega nálægð lausnarans fyrir heilagan anda í söfnuði hans. Rómverska kirkjan heimfærir þetta beinlínis upp á hið sýnilega kirkjufjelag, rómversku kirkjuna, það er að skilja: fulltrúa hennar, klerkdóminn. Prótestantiska kirkjan aðgreinir hjer aptur það mannlega og guðlega í kirkjunni, villu frá sannleika, það breytanlega frá því óumbreytanlega. Rómverska kirkjan heimfærir allt, sem Kristur segir um ríki sitt, beinlínis upp á rómversku kirkjuna án alls greinarmunar. Öll fyrirheiti hans um sendingu andans heimfæra katólskir menn til rómversku kirkjunnar, eða forstöðumanna hennar, klerkdómsins, sem þeir segja að stofnari kirkjunnar hafi aðgreint frá leikmönnum, og sett til þess, að vera óbrigðul verkfæri heilags anda. Prótestantar játa, að Kristur sje eilíflega með kirkju sinni, og að þar sem hans andi sje, þar sje sannleikans andi sjálfur. En þetta getur, eptir skoðun prótestanta, ekki beinlínis heimfærzt upp á þjóna kirkjunnar, því Kristur einn, en enginn maður, er vegurinn og sannleikurinn. Þvílík einkenni verða ekki eignuð nokkrum manni, eða nokkurri mannlegri stjett, því allir menn, og eins klerkdómur katólsku kirkjunnar, eru undirorpnir villu og hrösun. Með aðstoð sannleikans anda hlýtur kristin kirkja jafnan að berjast móti villunnar og lyginnar anda, sem opt tekur á sig svip sannleikans, og smeygir sjer í mynd ljóssengilsins. Hin sýnilega kirkja er því ekki það sama sem guðsríki, en menn verða vel að aðgreina það mannlega frá því guðlega í hinni sýnilegu kirkju.

Hin rómverska kirkja kennir þar á móti, eins og áður er ávikið, að Kristur, stofnari kirkjunnar, hafi sett sýnilegt mannlegt kirkjuvald *(auctoritas)*, en sem þó ekki geti skjátlazt í trúarlærdómum eða kirkjulegum ákvörðunum, og sem allir þess vegna skilyrðislaust eigi að hlýða og lúta, eins og Kristi sjálfum; þetta mannlega vald er klerkdómurinn, forstöðumenn kirkjunnar; samfjelag þeirra er hin sanna kirkja, og hinir almennu kirkjufundir, þar sem biskupar kirkjunnar eru saman komnir, eru því það sama sem kirkjan sjálf; þar er hún öll í einu lagi. Það, sem þetta sýnilega kirkjuvald þá talar eða gjörir, er það sama, sem hinn heilagi andi sjálfur talaði eða gjörði, því það er óbrigðult verkfœri andans; fylling heilags anda býr í þessum líkama kirkjunnar[1]. Þessari kenningu, sem beinlínis er sprottin af hinni katólsku kirkjuhugmynd, neitar prótestantiska kirkjan í skilningi rómversku kirkjunnar. Prótestantar neita að vísu ekki yfir höfuð, að kirkjan sje óbrigðul; en það er að skilja: um Krist og heilagan anda; þar sem hans andi er hreinn og ómeingaður, þar er sannleikans óbrigðuli andi; því verður kenning allra kennimanna, gjörðir og tilskipanir allra kirkjufunda að prófast eptir Krists anda, það er að skilja: eptir anda heilagrar ritningar. Því andinn er engan veginn bundinn við bisk-

---

[1]) *„Haec una ecclesia errare non potest in fidei et morum disciplina tradenda, quum a spiritu sancto gubernetur“. Cat. Rom.*

Þ. e.: þessi eina kirkja getur eigi farið villt í lærdóminum um trúna og siðafrœðina, þar eð hún stjórnast af heilögum anda.

upa kirkjunnar eða kirkjufundina, heldur verður þeirra andi, eins og allra annara, að upplýsast, endurfæðast og helgast af guðsorði. Þannig kemur það hjer einnig fram, að rómverska kirkjan steypir saman því ytra og því innra, gjörir það andlega líkamlegt, það ósýnilega sýnilegt, það mannlega guðlegt, og þessari kenningu fram fylgir kirkjan hvervetna í skoðun sinni, til að bregðast ekki grundvelli sínum. Í þessnm anda segir rómverska kirkjan, „að fyrir utan kirkjuna sje engin sæluvon“ (*extra ecclesiam nulla salus*). Þessari setningu neitar ekki prótestantiska kirkjan heldur; en ágreiningurinn kemur hjer fram, sem víðar, í ólíkum skilningi. Vjer prótestantar játum setningunni, þegar hún er rjett skilin, um hina ósýnilegu kirkju. Því hin sanna kirkja er sama sem Kristur, og hans ríki, og án samfjelagsins við Krist, og hlutdeildarinnar í hans ríki, getur enginn orðið sæll. En prótestantiska kirkjan bindur ekki sáluhjálpina við hið sýnilega kirkjufjelag, og því síður, eins og katólskir, við rómversku kirkjuna eina; hún lætur sjer ekki lynda, þó maðurinn með vörunum játist undir fjelag sýnilegrar kirkju, því hann getur allt fyrir það í hjartanu verið fjarlægur þeirri sönnu kirkju; eins og hins vegar vel getur verið, að þeir, sem á ytri hátt ekki eru bundnir hinni sýnilegu kirkju, vandaðir heiðingjar og Gyðingar, samkvæmt anda sínum hafi hlutdeild í hinni sönnu kirkju, eins og Abraham og hinir trúuðu í gamla testamentinu vegna guðhræðslu sinnar voru börn hinnar sönnu kirkju, og rjettlættust af trú

sinni[1]. Því ekki er líf trúar og helgunar bundið við ytri fjelagsskap einan eða tilskipanir, eða vissa tegund guðsdýrkunar, og því ekki við biskupssætið í Rómaborg, eða kirkjusiði páfamanna. Öðruvísi lítur rómverska kirkjan á þetta; hún kennir, að ekki að eins heiðnar þjóðir, sem eru án hlutdeildar í kristilegri kirkju, heldur og jafnvel allir kristnir, sem hafa aðra trúarjátningu heldur en rómverska katólska kirkjan, sjeu villutrúarmenn, gangi hinn breiða veg glötunarinnar, og lendi í eilífri fyrirdœmingu. Einungis gjörir hún mun á þeim, sem óafvitandi lifa í villu, eru fœddir og uppfrœddir í henni, en gjöra ekki harðsvíraða mótspyrnu; um þá er kirkjan ekki vonarlaus, að þeir geti orðið sáluhólpnir (*haeretici formales*). Þeir aptur á móti, sem fast og stöðugt veita mótstöðu trú og tilskipunum hinnar heilögu rómversku kirkju, verða óumflýjanlega börn glötunarinnar (*haeretici materiales*), ef þeir sættast ekki við kirkjuna. Af þessari trúargrein sprettur hinn mikli áhugi kirkjunnar á því, að breiða alstaðar út hina einu sáluhjálplegu trú, það er að skilja: trúarjátningu rómversku kirkjunnar, eins meðal kristinna trúarflokka, hverju nafni sem heita, eins og meðal heiðingja; því allir eru þeir, eptir skoðun kirkjunnar, jafnt blindir og fjarlægir frelsisins vegi. Kirkjan hlýtur að finna sig knúða til þess, að hafa öngul trúarinnar alstað-

[1]) *„Fide hujus promissionis sancti omnes justificati sunt". Apol. conf.*

Þ. e.: Fyrir trúna á þetta fyrirheiti rjettlættust allir hinir helgu menn, ɔ: í gamla testamentinu.

ar úti, til þess að geta frelsað sem flesta hún getur, með því að leiða þá aptur í móðurskaut heilagrar kirkju. Af þessu leiðir enn fremur, að kirkjan hlýtur að takmarka með ýmsu móti hugsunarfrelsi sinna eigin barna, svo þau villist ekki út á hinn breiða veg, með því að efast um alveldi kirkjunnar, og neita henni um blinda trú og hlýðni í trú og tilskipunum hennar. Þess vegna beitir rómverska kirkjan strangleika og harðstjórn, til þess að bœla niður allan trúarefa, jafnvel alla trúarrannsókn, hjá börnum sínum; hún vill sjálf vera svaramaður þeirra, og heimtar af öllum ótakmarkað traust og hlýðni, og hrífur sjer valdið til þess, að dœma hjörtun og nýrun. Í því skyni að þrýsta börnum sínum til trúarinnar, beitir kirkjan hegningum, bannfœringu og útilokun úr kirkjulegu fjelagi, við alla þá, sem óhlýðnir eru, ofsœkir þá þverbrotnu, og dœmir til dauða þá, sem stöðugir standa í óhlýðninni. Því hefur katólska kirkjan sett reglulegan rannsóknarrjett í trúarmálum, til að dœma villutrúarmenn (*inquisitio haereticae pravitatis*), og til að út rýma og brjóta niður villutrú í kirkjunni, og á 13. öld voru Dominikusmunkar kjörnir til þess starfa. Það er kunnugt, með hvílíkri grimmd kirkjan ofsótti á miðöldunum villutrúna, bæði með eldi og sverði, kallaði sjer til hjálpar veraldleg vopn og höfðingja móti villuflokkum kataranna og albígensanna; hinn helgi faðir í Rómaborg, Innócentíus 3., œsti krossherlið móti kristnum mönnum, og ljet höggva niður kristna söfnuði eins og óarga dýr. Grimmdarverk rannsókn-

arrjettarins eru orðrœmd orðin í árbókum kirkjunnar. Þó nærri megi geta, að margt af þeim muni felast í myrkrunum, þá er það, sem menn vita um athafnir hans, hin dœmalausa grimmd og blóðssekt, sem hann gjörði sig sekan í, og sem mannkynssagan ekki getur fœrt dœmi til á öðrum stöðum, talandi vottur þess, hve ógurlegar afleiðingar spretta af því, þegar mennirnir hrífa sjer það vald, sem guði einum ber, valdið yfir hjörtum og hugskoti annara. Því þó hin illskufullu ódæðisverk rannsóknarrjettarins verði ekki hvert um sig eignað kirkjunni sjálfri, en ábyrgðin fyrir þau hljóti að hvíla á hinum einstöku, sem gjörðu sig að verkfœrum kirkjunnar, þá var þó þessi aðferð öll beinlínis sprottin af stefnu rómversku kirkjunnar, og í anda hennar, sem hrífur sjer valdið, til að vera hjartnanna rannsakari, og ætlar sjer að gróðursetja trú og sannfœringu með ytri kúgunarmeðulum. Og þó menn að vísu geti sagt, að tímar miðaldanna sjeu liðnir, og þvílík óhœfa eigi sjer ekki lengur stað, þá má þó fullyrða um rómversku katólsku kirkjuna, að „andinn lifir æ hinn sami“. Rómverska kirkjan hefur ekki enn þá gleymt grundvelli sínum; hún hefur ekki aptur kallað eina af trúarsetningum sínum, og meðan þessi grundvöllur stendur, má búast við, að kirkjan byggi ofan á hann, hve nær sem fœri gefst; það er einungis kringumstœðanna vegna, að kirkjan verður að beita annari aðferð nú en fyrrum, því henni verður ekki lengur við komið. En rómverska kirkjan er, og hlýtur eptir grundvallarreglum sínum að vera, sí vakandi; hún

hefur aldrei misst sjónar á stefnu sinni, eða þreytzt í því, að sæta tækifæri, til að beita brögðum sínum inn á aðrar kirkjur; og eins og þessir tímar sýna mörg ljós merki upp á árvekni kirkjunnar í þessu efni, eins hefur reynsla allra tíma sannað, að rómverska kirkjan hefur hið glöggvasta auga, til að velja þau meðul og ráð, sem jafnan eiga bezt við tímana, til að koma fram ætlun sinni. Prótestantiska kirkjan neitar þessari aðferð sem ókristilegri; það andlega vill hún láta mæta andlegri meðferð. Hún lætur sjer ekki nægja játningu varanna, eða ytri gæzlu ýmissa tilskipana, eða blinda trú á nokkurt vald, heldur lifandi trú, byggða á rannsókn og sannfæringu. Hún neitar því gjörsamlega allri trúarkúgun, sem miðar til þess, að gjöra aðra að manna þrælum, því með slíku móti bryti trúin sig niður sjálfa[1]. Prótestantiska kirkjan forðast því, að binda samvizku kristinna manna, eða hugsunar- og trúar-frelsi þeirra; því sannfæring hennar er, að sannleikurinn eigi að vinna hjörtun og heiminn með sínum innra guðlega krapti, en ekki með ofbeldi, eldi og sverði[2]. Þvílík aðferð er ekki til annars, en koma upp og ala hræsni og villunnar anda, og er vottur um það, að andi sann-

---

[1]) „Enginn á eða má kúga til trúar, því guð sjálfur, sem er yfir öllu valdi, hefur aldrei viljað kúga nokkurn til trúarinnar“. Lúter.

[2]) „Villutrú verður aldrei afmáð með ofbeldi; guðsorð á að berjast móti henni; ef það fær engu áorkað, þá mun hinu veraldlega valdi ekki takast það, þó að það fyllti allan heiminn með blóði“. Lúter.

leikans ræður ekki hjá þeim, sem beita henni, heldur andi lyginnar[1].

Báðar kirkjur kalla sig sanna kirkju, en neita hvor um sig hinni um þetta nafn[2]. Í því skyni bera báðar fyrir sig vitnisburð sögunnar. Rómverska kirkjan hefur tilfœrt nokkur einkenni, sem þekkja megi á hina sönnu kirkju. Þessi einkenni eignar hún sjer einni, og eiga þau að sanna, að hún ein sje hin rjetta kirkja. Þessi einkenni eru: eining *(unitas)*, almennilegleiki (*universalitas*), og aldur (*antiquitas*). Prótestantiska kirkjan neitar ekki þessum einkennum, en eignar sjer þau líka. Ágreiningur er því enginn milli þeirra um það, hvort þessi einkenni sjeu rjett, eða um það, hvort hin sanna kirkja eigi að styðjast við vitnisburð sögunnar, heldur kemur hann fram í því, að hvor þeirra fyrir sig gjörir tilkall til þessara einkenna, og skilur þau hvor á sinn hátt; og þessi ólíki skilningur hefur aptur rót sína í hinni ólíku skoðun á kirkju. Rómverska kirkjan leggur, eins og alstaðar endrarnær, áherzluna á kirkjuna, sem ytra og sýnilegt fjelag, en prótestantiska kirkjan hefur eink-

---

[1]) „Menn ættu líka að afmá ýmsar hegningar hins geistlega rjettar, einkanlega bannið meira (Interdict), sem án alls efa hinn vondi andi hefur upp hugsað. Er það ekki djöfullegt verk, að vilja ráða bót á einni synd með mörgum og meiri syndum". Lúter.

[2]) „*Nequaquam largimur ipsis, quod sint ecclesia, quia re vera non sunt ecclesia*". *Art. Smalc.*

Þ. e.: Vjer játum þeim, ɔ: katólskum, engan veginn, að þeir sjeu kirkja, með því þeir ekki eru það í raun og veru".

anlega fyrir augum kirkjuna sem ósýnilegt fjelag í trú og kærleika. Hvað eininguna snertir, þá segja katólskir, að hún sje hvergi í sannleika, nema hjá þeim, þar sem allir meðlimir bindist hinni sömu útvortis játningu sáluhjálplegrar trúar, og engin mótmæli eigi sjer stað gegn lærdómi kirkjunnar, en eining trúarinnar gangi óraskanlega að erfðum og óhögguð frá einni kynslóð til annarar. Þvílíka einingu eignar rómverska kirkjan sjer einni, en bregður prótestantisku kirkjunni um breytilegleika í trú sinni, ýmislegan skilning á lærdómum trúarinnar, sundurlyndi í kirkjulegum efnum, margbreytni í trúar- og kirkju-tilhögun, í einu orði, um einingarleysi, og þess vegna kirkjuleysi.

Prótestantiska kirkjan svarar: „Það er satt; þvílíka einingu, sem rómverska kirkjan, eigum vjer ekki; en vjer neitum því, að hennar eining sje hin sanna eining, og viljum því ekki eiga hana; því hún er eining ófrelsis, en ekki frelsis, og þá ekki sú eining, sem sprottin er af anda kristindómsins“. Í rómversku kirkjunni eru nl. lögð bönd á hugsunar- og rannsóknar-frelsi hjá börnum kirkjunnar, og með því móti að vísu kúguð upp ytri eining með járnvaldi kirkjulegrar harðstjórnar; einingin er þannig sprottin af þrældómsótta, en ekki af frjálsri innri sannfæringu. Eining rómversku kirkjunnar er þannig að eins ytri, andalaus eining, að nafninu til, en ekki í raun og veru; það er dauð eining, „því bókstafurinn deyðir, en andinn er það, sem lífgar“. Prótestantiska kirkjan segir: „Hin sanna eining trúar er ekki fólgin í ytri

játningu sömu lærdóma, eða ytri gæzlu sömu siða og kirkjuvenju, heldur í lifandi innri sannfæringu, í einingu andans, hvað aðalefnið snertir og grundvallarlærdóma kristindómsins"[1]. Prótestantiska kirkjan út byggir allri trúarkúgun, en leyfir frjálsa rannsókn og yfirvegun í trúarefnum; því hlýtur þar að koma upp ýmisleg skoðun, frábrugðnar meiningar, og mikil margbreytni í útlistun kristilegra lærdóma. En af þessari frjálsu rannsókn og margbreytni getur fyrst sprottið hin sanna andlega eining; því kristileg trú getur tekið á móti ýmislegri lögun, ífært sig margbreyttum ytri hjúp í útlistuninni; en þetta ytra snið, þessi sýnilegi búningur, sem er breytanlegur, er ekki aðalefnið, ekki kjarninn sjálfur, eða kraptur evangelíí; heldur er það andinn, sem skapar sjer þennan búning; hann er óumbreytanlegur, og hann getur verið sá sami, þó hin ytri mynd sje ýmisleg. Þess vegna segja prótestantar: „Þrátt fyrir allan breytilegleika, sem sýnist vera hjá oss, höfum vjer þá sönnu einingu, ekki ytri, bókstaflega eða dauða, heldur innri, andlega og lifandi; og þrátt fyrir allan breytilegleika

---

[1]) *„Ad veram unitatem ecclesiae satis est consentire de doctrina evangelii et administratione sacramentorum. Nec necesse est, ubique esse similes traditiones humanas, sive ritus et caeremonias ab hominibus institutas". Conf. Aug.*

þ. e.: Til sannrar kirkjueiningar er það nóg, að vera samhuga um lærdóm evangelíí og úthlutun sakramentanna. En það er ekki nauðsynlegt, að alstaðar sjeu sömu mannasetningar, eða sömu kirkjusiðir og kirkjuvenjur af mönnum tilsettar.

í meiningum meðal prótestanta um trúarefni stendur hinn kirkjulegi fjelagsskapur óhaggaður meðal þeirra, meðan einingin í anda og sannleika er sá grundvöllur, sem kirkja þeirra og kirkjusiðir byggjast á". Rómversku kirkjunni nægir ekki eining í anda, en telur aðalefnið eininguna í ytri háttsemi og siðum; fastheldni við orð og bókstaf trúarjátninganna, vandleg gæzla ytri kirkjusiða er í augum hennar órækt merki um hreinskilna trú og sannkirkjulegan anda, og er af því auðsjeð, hversu katólskir menn snúa því upp, sem niður á að vera, taka hið ytra sem aðalefnið, og láta hið innra rjettlætast af því ytra. Prótestantar þar á mót leggja áherzluna á andann sem aðalefnið, og láta það ytra helgast af því innra, samkvæmt lærdómi Krists.

Annað einkenni kirkjunnar er, að hún er almenn; því kristin trú er alheimstrú, og hefur það mið, að frelsa alla, og ætlar sjer því, að koma öllu jarðríki undir sín merki, gjöra alla að borgurum guðsríkis, svo að allir verði ein hjörð, eins og hirðirinn er einn. Þetta er lærdómur kristindómsins, og í þessu kemur báðum kirkjum saman. En mismunurinn kemur einnig hjer bráðum í ljós; því, eins og áður er sagt, fellur eptir skoðun rómversku kirkjunnar kristin kirkja saman við rómversku kirkjuna, og þar af leiðir þá, að hún ein þykist hafa tilkall til heimsins, og kallar sig eina almennilega kirkju, og þessa kröfu sína lætur kirkjan í ljósi með því, að til nefna biskupa í þeim löndum, sem ekki eru rómverskrar trúarjátningar (*episcopi in partibus infidelium*), og þess

vegna segir hún, að frelsið sje bundið við rómversku kirkjuna eina og trúarjátningu hennar. Prótestantiska kirkjan játar líka fullkomlega, að kristin kirkja sje almennileg, þar eð hinn hreini lærdómur Krists eigi að verða drottnandi í heiminum[1]. En þar eð hún er sjer þess meðvitandi, að flytja hreinni kristilegan lærdóm, heldur en rómverska kirkjan, er langt frá því, að hún eigni henni þetta einkenni, og játi, að rómverska kirkjan sje almennileg kirkja; hún eignar sjer miklu fremur þetta einkenni af sannfæringunni um, að hún hafi í höndum sjer hreinan og ómeingaðan lærdóm Krists og tilskipanir, en ekki aflagaðan og brjálaðan af mannasetningum, eins og rómverska kirkjan; og prótestantiska kirkjan hefur þá öruggu von, að ljós fagnaðarboðskaparins muni smátt og smátt ryðja sjer braut, og dreifa villunnar og vantrúarinnar myrkri, eins í rómversku kirkjunni, eins og annarstaðar í heiminum. Þess vegna vinnur prótestantiska kirkjan

---

[1]) *„Catholicam ecclesiam dicimus, ne intelligamus ecclesiam esse politiam externam certarum gentium, sed magis homines sparsos per totum orbem, qui de evangelio consentiunt, et habent eundem Christum, eundem spiritum sanctum, et eadem sacramenta, sive habeant easdem traditiones humanas, sive dissimiles". Apol. conf.*

Þ. e.: Almenna köllum vjer kirkjuna, svo að vjer ekki ætlum, að kirkjan sje ytra fjelag vissra þjóða, heldur allra manna víðs vegar um heiminn, sem hafa hinn sama Krist, sama heilaga anda, og sömu sakramenti, hvort sem þeir hafa sömu mannasetningar eða frábrugðnar.

ekki síður en hin að kristniboðsverkinu, og biflíufjelög prótestanta sýna, að kirkjan lætur sjer einkum annt um, að breiða heilaga ritningu út meðal þjóðanna, svo þeim flytjist í hendur hið upphaflega guðsorð hreint og ómeingað af mannalærdómi. Eins sýnir kirkjan, að hún heimfærir til sín nafnið „almenn kirkja“, með því að hún játar og hefur í hávegum hina postullegu trúarjátningu, sem segir í 3. grein: „Jeg trúi á eina almennilega kirkju,“ sem er í rauninni það sama sem: evangelisk kirkja. Því ef litið er til upprunans að orðinu „almenn“, þá er það útlegging af gríska orðinu: καθολική. Á fyrstu öldum kristninnar merkti orðið: καθολική πίστις (almenn trú), hinn hreina evangeliska kristindóm kirkjunnar, til aðgreiningar frá hinni ókristilegu og ókirkjulegu kenningu, sem víðs vegar kom upp hjá villutrúarflokkunum, sem slitu sig úr fjelagi kirkjunnar, og vildu skapa sjer trú eptir eigin geðþótta, aðra en þá, sem guðspjöllin og kirkjan kenndi. Til aðgreiningar frá þessum flokkum og trú þeirra boðaði kirkjan trú sína sem „katólska trú“, það er að skilja: sem sameiginlega eign allra sanntrúaðra kristinna manna, og sem gengið hafði í arf frá hinum sönnu upptökum, frá Kristi og postulunum. Það er því svo langt frá, að prótestantar hafi afsalað sjer þetta nafn: „katólsk kirkja“, að þeir miklu fremur fram eptir öllu vildu ekki kalla rómversku kirkjuna „katólska kirkju“, heldur kölluðu þeir hana „páfakirkju“, „páfatrú“, og katólska menn „pápista“, af því rómverska kirkjan væri villt orðin frá grundvelli sannleikans, og hefði

rangfœrt og afbakað hinn hreina postullega kristindóm með mannasetningum. Það var ekki fyr en eptir midja 17. öld, að prótestantar lögðu niður um sig nafnið „katólskir“, án efa af óþörfum beig, sem þeim stóð af þessu orði „katólskur“, af því það hafði fest sig við rómversku kirkjuna, og upp frá því er nafnið: „evangelisk-prótestantisk kirkja“, orðið almennt.

Aldurinn er þriðja einkennið, sem báðar kirkjur játa; því kirkjan á jafnan að geta sýnt það, að hún sje í sannleika áframhald af hinni postullegu kirkju, að hún hafi verið í stöðugu samfjelagi við Krists lærdóm og anda; því geti hún ekki sannað það, þá má efast um kristilegleika hennar, og hún verður vefengd, eins og einhver mannleg stofnun. Báðar játa því gildi þessa einkennis, og eigna sjer það hvor um sig, en neita hinni um það. Rómverska kirkjan ber prótestantisku kirkjunni á brýn, að hana vanti þetta aðaleinkenni sannrar kirkju, þroska-aldurinn; hún sje ný stofnun, orðin til á 16. öld, vanti því hinn kristilega grundvöll, og sje, samkvæmt þessu bernskuástandi sínu, á sífelldu reiki. Þessu neita prótestantar gjörsamlega, og segja með fullum rjetti, að þegar saga kirkjunnar sje lesin og skoðuð hlutdrœgnislaust, þá sýni hún, að hin postullega kirkja, jafnvel 3 fyrstu aldir kristninnar, hafi ekkert þekkt til margra þeirra lærdóma og setninga, sem rómverska kirkjan flytur og boðar, heldur sjeu það nýmæli og mannasetningar, sem löngu síðar hafi komið upp, sumar jafnvel á miðöldunum; því kirkjusagan sanni ljóslega, að rómverska

kirkjan hafi smásaman, einkanlega á miðöldunum, þegar pápiskan stóð í blóma, villzt frá hinum upphaflega hreina kristindómi, og aflagazt í öllu tilliti, bæði í trúarlærdómum, kirkjusiðum og kirkjustjórn; því hafi siðabótin á 16. öld verið nauðsynleg, til að leiða kirkjuna aptur á hinn upphaflega grundvöll, til guðsorðs í heilagri ritningu, svo að kirkjan endurfæddist, bæði í trú, siðferði, kirkjusiðum og kirkjustjórn. Þess vegna er langt frá því, að prótestantiska kirkjan játi því um lærdóm sinn, að hann sje nýr lærdómur; miklu fremur sannar hún með ljósum og órækum rökum sögunnar, að hinn hreini lærdómur fagnaðarerindisins hafi fyrir handleiðslu guðlegrar forsjónar jafnan átt sjer játendur og talsmenn, og ljós kristilegrar trúar og sannleika hafi aldrei slokknað út í kirkjunni, jafnvel ekki í hinu svartasta myrkri pápiskunnar, þó sannleikanum væri þar snemma haggað og brjálað; og þannig hafi frá byrjun kristindómsins hið hreina evangelíum gengið í arf frá einni kynslóð til annarar fram að dögum siðabótarinnar, og frá henni til vor.

## 2. grein.

### Um embætti kirkjunnar.

Kristileg kirkja er í þessum heimi, þó hún sje ekki af þessum heimi; hún er sýnileg kirkja, og hlýtur að komast í samband við heiminn, til að boða sjálfa sig, og veita heiminum guðlega fyllingu sína. Í því lýsir sjer hin guðlega stofnun kirkjunnar, að guðs sonur, konungur kirkjunnar, ber jafnan umhyggju

fyrir, að við halda ríki sínu í heiminum, og hefur þegar frá öndverðu sett tilskipanir, nægar til þess. Með köllun postulanna stofnsetti Kristur kirkju sína; í hinum fámenna söfnuði postulanna kom fyrst hjer á jörðu fram í sýnilegri mynd trúarinnar og kærleikans samfjelag. Þessir fáu menn urðu, eptir boði Krists, flutningsmenn náðarboðskaparins út um heiminn, og gróðursettu Krists ríki, kristilega kirkju, í heiminum. Þannig varð til þegar með stofnun kirkjunnar kirkjulegt embætti, hið kristilega kennimannsembætti. Í þessum almennu setningum kemur báðum kirkjum saman. En samleið þeirra skilur bráðum. Því bæði er það, að rómverska katólska kirkjan leggur allt aðra þýðingu inn í stofnun hins kirkjulega embættis, og þar að auki dregur hún allt aðrar ályktanir út af skilningi sínum, heldur en prótestantiska kirkjan, og spinnur út úr þeim allan hinn margflókna vef lærdómsbyggingar sinnar, sem prótestantiska kirkjan neitar eins og afbökun kristindómsins, eða einberum mannasetningum og mannlegum heilaspuna. Af því grundvallarlærdómurinn um kirkju, og stofnun og eðli hins kirkjulega embættis er ólíkur hjá báðum kirkjum, verða líka lærdómarnir um kirkjuaga, kirkjustjórn, og allt kirkjufyrirkomulag frábrugðnir í báðum kirkjum. Eins og áður er ávikið, er það aðaleinkenni í lærdómi katólskra manna um kirkjuna, að þeir leggja alla áherzluna á það, að kirkjan sje sýnileg kirkja, en ekkert verður úr hinni ósýnilegu, og það lítur svo út, sem hin rómverska trúarfræði hugsi sjer, að kirkjan hafi hætt að vera ósýnileg,

jafnskjótt og hún varð sýnileg, eða að guðsríki sje ekki til á himnum, eptir að það birtist á jörðinni, og að hin ósýnilega kirkja geti ekki hugsazt nema eins og eptirmynd hinnar sýnilegu, þar sem prótestantar þvert á móti skoða hina sýnilegu kirkju eins og eptirmynd hinnar ósýnilegu. Þess vegna ber opt við, að guðfræðingar rómversku kirkjunnar gjöra gys að lærdómi prótestanta um ósýnilega kirkju, eins og draumórum, og eins og þeir hugsuðu sjer enga sýnilega kirkju. Það þarf ekki að taka það fram, að þetta er einber rangfærsla eða misskilningur rómversku kirkjunnar; því trúarjátningar vorrar kirkju taka ljóslega fram, að þær ekki kenni ímyndaða kirkju[1], heldur sýnilega hjer á jörðu, sem sje eptirmynd hinnar ósýnilegu.

Hvað nú snertir hið kirkjulega embætti, kennir rómverska kirkjan, að stofnari kirkjunnar hafi sett fastar tilskipanir til kennarastarfa, til þjónustu helgra athafna, og til stjórnar kirkjunnar í öllu tilliti, og

---

[1]) *„Neque vero nos somniamus platonicam civitatem, ut quidam impie cavillantur, sed dicimus existere hanc ecclesiam, videlicet vere credentes ac justos sparsos per totum orbem. Et addimus notas: puram doctrinam evangelii et sacramenta“. Apol. conf.*

Þ. e.: Oss dreymir ekki um platónskt ríki, eins og sumir af illum hug bregða oss um; en vjer segjum, að þessi kirkja sje til, nl. þar sem eru allir sanntrúaðir og rjettlátir víðs vegar um heiminn. Og vjer bætum við einkennum hennar, sem eru: hrein boðun fagnaðarboðskaparins og sakramentin.

með þessari tilhögun hafi hann fyrst lokið stofnun kirkjunnar. Það embætti, sem innibindur þetta allt í sjer, og þannig fellur saman við stofnun kirkjunnar, og er eins gamalt og hún, er biskupsembættið *(episcopatus)*. Það er því 1. guðleg stofnun. Hið kristilega kennimannsembætti er guðleg stofnun, því Kristur bauð lærisveinum sínum, „að kenna öllum þjóðum, og gjöra alla að sínum lærisveinum". Myndugleiki kennimannsembættisins er því byggður á orði Krists og fyrirheiti. Þessu játar prótestantiska kirkjan, að o r ð s i n s þ j ó n u s t a *(ministerium verbi)* sje guðleg stofnun. En rómverska kirkjan nemur ekki staðar við þetta. Hún segir: „Biskupsembættið er guðleg stofnun, sett af Kristi til s t j ó r n a r o g y f i r r á ð a í k i r k j u n n i"[1] *(regimen ecclesiae)*. Röksemdafærsla kirkjunnar er þessi: postularnir voru fulltrúar Krists; þeir voru kennimenn, hirðar og forstöðumenn safnaðanna, og höfðu þannig yfirstjórn yfir öllu safnaðarlífinu í öllum greinum; fastar reglur hafa því verið settar þegar í öndverðu, um leið og kirkjan var stofnuð, um alla ytri tilhögun og stjórn henn-

---

[1]) *„Praeter ceteros ecclesiasticos gradus episcopos, qui in locum apostolorum successerunt, ad hunc hierarchicum ordinem praecipue pertinere, et positos esse a spiritu sancto, regere ecclesiam dei, eosque presbyteris superiores esse". Syn. Trid.*

þ. e.: Auk annara kirkjulegra stiga, sem til eru, eru biskuparnir, eptirmenn postulanna, helztir í klerkvaldsstjettinni, og settir af heilögum anda, til að stýra kirkju guðs, og þeir eru yfirmenn prestanna.

ar, svo að þetta ytra stjórnarvald er líka beinlínis guðleg tilskipun.

Þessu neitar prótestantiska kirkjan, og kennir, að um hina ytri tilhögun, t. a. m. kirkjustjórn og aðra þess konar útvortis hluti, hafi sjerstaklegar guðlegar reglur ekki verið nauðsynlegar, og þess vegna finnist ekki heldur í nýja testamentinu nein guðleg tilskipun um það. Rómverska kirkjan getur heldur ekki borið fyrir sig í þessu ritningarinnar orð, en leitast við að byggja lærdóm sinn á þörfinni. „Þetta hlaut að vera“, segir kirkjan, „því annars hefði kristileg kirkja enga festu fengið í heiminum“. Prótestantar svara því: „Fyrir hinni ytri tilhögun í einstökum efnum og ytri hlutum þurfti ekki beinlínis guðlegar reglur, og þess vegna gaf Kristur þær ekki; hann ætlaði andanum, sem hann sendi lærisveinum sínum, að leiðbeina kirkju sinni í því, að við halda reglu og stjórn í öllu kirkjulegu lífi, samkvæmt anda lærdómsins, eptir því sem hver tími og hverjar kringumstæður útheimtuðu“.

Rómverska kirkjan kennir enn fremur, að biskupsembættið, samkvæmt guðlegri stofnun sinni, sje 2. stöðugt áframhald postulaembættisins (*successio continua*). Útlistun kirkjunnar er þessi: Kristur stofnaði hið kennimannlega embætti, til þess að tryggja hina guðlegu opinberun gegn misskilningi, afbökun og aflögun, til þess að út býta hinum yfirnáttúrlegu hæfilegleikum, sem útheimtast í þjónustu heilagrar kirkju, og til að við halda hinni ytri tilhögun, sem eitt sinn var sett, bæði í kirkjustjórn og allri

kirkjuskipun. Til þessa nægir ekki mannlegt hyggjuvit; því út bjó Kristur postula sína heilögum anda. Á líkan hátt og Kristur hafði sent út postula sína, og út búið þá æðri náðargáfum andans, skipuðu postularnir aptur biskupa víðs vegar um löndin, fengu þeim í hendur hinar æðri náðargáfur, og út bjuggu þá heilögum anda. Þannig hefur þá heilagur andi, hið heilaga postullega kennimannsembætti, allt frá dögum postulanna, gengið eins og erfðafje í kirkjunni til biskupanna, sem eptirmanna postulannna. Í óslítanlegri sífellu hefur hin hreina kristilega kenning, hæfilegleikinn og rjetturinn til kirkjulegrar þjónustu, og valdið til að stjórna kirkjunni verið bundið við hið kirkjulega kennimannsembætti. Andi Krists hefur ekki staðnæmzt á postulunum, heldur um allar aldir gengið frá þeim að arftöku til biskupanna; þeir eru vegna þessarar niðurstígandi arfleifðar tengdir Kristi, því röð biskupanna er óslitinn samanhangandi keðja allt upp að stofnara kirkjunnar. Hið helga kirkjuvald (*hierarchia)* er stofnað af Kristi, með því að hann kaus sjer 12 postula, og eptirmenn þeirra eru biskuparnir[1]. Biskupsembættið er þannig óslitið áframhald postula-

---

[1]) *„Si quis dixerit in ecclesia catholica non esse hierarchiam divina ordinatione institutam, quae constet ex episcopis, presbyteris et diaconis, anathema sit". Syn. Trid.*

Þ. e.: Ef nokkur segir, að í katólsku kirkjunni sje ekki heilagt kirkjuvald stofnað af guðlegri tilskipun, sem innibindi biskupa, presta og djákna, sá sje bölvaður.

embættisins. Þetta kirkjuvald veitist hverjum í vígslunni *(ordinatio)*. Vígslan merkir hvern vígðan mann andlegu, óafmáanlegu merki *(caracter indelebilis)*, sem að greinir klerkinn um aldur og æfi að andlegum, ósýnilegum kostum og yfirburðum frá leikmanninum. Þannig verður kennilýðurinn, klerkdómurinn, að helgu kirkjuvaldi, æðra eðlis en leikmenn; því klerkdómurinn verður í Krists stað meðalgangari milli guðs og manna, ekki einungis settur til að uppfræða í guðsorði, heldur til að bjóða, stjórna og drottna yfir kirkjunni, sem fulltrúar guðs[1]. Allar aðrar stjettir eiga því að hlýða þeim eins og Kristi sjálfum, samkvæmt boðinu: „Sá, sem yður hlýðir, hlýðir mjer; sá, sem yður lítilsvirðir, lítilsvirðir mig;“ Lúk. 10, 16.

Prótestantiska kirkjan játar, að þessi staður og aðrir samkynja í nýja testamentinu hljóði upp á hið kristilega kennimannsembætti sem guðlega stofnun; en hún neitar beinlínis hinni katólsku útleggingu á þessum stöðum; því hvorki verði sannað af nýja testamentinu, að það, sem postulum Krists hafi verið gefið fyrirheiti um, hafi sjálfsagt átt að ganga í arf til allra eptirmanna þeirra í kennaraembættinu, og ekki verði heldur nokkurstaðar sýnt af nýja testamentinu, að heilagur andi og náðargáfur hans skyldu einungis verða bundnar og einskorðaðar við eina vissa stjett, eða ytri kirkjusiði, til að mynda kirkjulega

---

[1]) *„Dei interpretes et nuntii, ipsius dei in terris personam gerentes“. Cat. Rom.*

Þ. e.: Túlkar og sendiboðar guðs, berendur persónu sjálfs guðs á jörðu.

vígslu. Eptir prótestantisku kirkjunni hljóðar þetta fyrirheiti þar á móti, eins og öll samkynja í nýja testamentinu, ekki um vissa stjett, heldur um kirkjuna yfir höfuð, það er að skilja: um alla trúaða Krists lærisveina, eins og segir í Matt. 18, 20.: „Þar sem 2 eða 3 eru samankomnir í mínu nafni, þar er jeg mitt á meðal þeirra“; og 1. Pjet. 2, 9.: „Þjer eruð konunglegt prestsdœmi“; þessi orð líta til allra sanntrúaðra, hinnar sönnu kirkju, sem er œðri en þjónar kirkjunnar[1]. Prótestantiska kirkjan neitar því þessari lærdómsgrein rómversku kirkjunnar um óslitna biskuparöð, eins og hjegómlegum heilaspuna pápiskunnar, til að hefja kennilýðinn til veraldlegra yfirráða, eða til að koma upp klerkavaldi; því hvorki hafi þessi lærdómur rót sína í nýja testamentinu, nje verði sannaður af sögu kirkjunnar. Eptir lærdómi prótestantisku kirkjunnar er hvergi bending í nýja testamentinu um það, að hin hreina kristilega kenning, eða gjöf heilags anda, sje bundin og takmörkuð við stað eða stjett; því eins og guðsorð verður ekki bundið, eins verða guðs anda heldur engin takmörk sett. Rómverska katólska kirkjan fer þar á móti ekki fram

---

[1]) *„Ubi est vera ecclesia, ibi necesse est esse jus eligendi et ordinandi ministros. Qvae cum sola habeat sacerdotium, certe habet jus eligendi et ordinandi ministros“. Artic. Smal.*

Þ. e.: Þar sem er sönn kirkja, þar hlýtur að vera rjettur til að kjósa og vígja þjóna hennar. Því þar eð hún ein, ɔ: kirkjan, hefur prestsembættið, hefur hún líka vissulega rjett til, að kjósa og vígja þjóna sína.

andlegri skoðun á fagnaðarerindinu, náðargáfunum og verkunum heilags anda, því hún skoðar þetta allt eins og líkamlegan fjársjóð, eins og geymslufje, sem fengið sje í hendur vissum mönnum til varðveizlu, þegar hún kennir, að náðargáfurnar sjeu eingöngu eign kennilýðsins; og á þessari grundvallarvillu byggir hún þann lærdóm, að algjör mismunur sje á, og ó-endanlegt djúp staðfest á milli klerka og leikmanna; hinir fyr nefndu eru stjórnendurnir, kirkjan sjálf, hinir síðari þegnarnir, sem hlýða eiga og lúta kennilýðnum með barnlegri auðsveipni[1]. Þannig verður hið kristilega kennimannsembætti í rómversku katólsku kirkjunni 3. að klerkavaldi *(hierarchia)*. Kennilýðurinn er eptir þessari skoðun líkami kirkjunnar; allt það, sem á heima hjá henni, á einnig heima hjá klerkunum, fulltrúum hennar. Þess vegna hefur og eptir guðlegri stofnun og samkvæmt hinni sífelldu biskuparöð öll sú fylling valdsins, sem Kristur hjet kirkju sinni, gengið að arftöku í hendur kennilýðsins eins og klerkavalds. Kristur hefur innsett þessa stjett *(ordo)*, ekki einungis sem kirkjuþjónustu *(ministerium ecclesiasticum)*, heldur einnig sem kirkjuvaldstjórn

---

[1]) *„Ecclesiae nomine quoque eius praesides et pastores significantur. Si te non audierit, inquit Christus, dic ecclesiae; quo in loco praepositi ecclesiae designantur“. Cat. Rom.*

Þ. e.: Með nafninu kirkja táknast einnig forstöðumenn hennar og hirðar. Kristur segir: „Ef einhver hlýðir þjer ekki, þá seg þú það kirkjunni“, og táknast á þeim stað með því formenn kirkjunnar.

(*regimen ecclesiasticum*), til þess að vera verkfæri sín til stjórnar kirkjunnar, og til þess hlaut hann þá að út búa þessa fulltrúa sína með gildum hæfilegleikum, nægu valdi og myndugleika. En sönnunina fyrir þessari nauðsyn vantar hjá kirkjunni. Allt það vald, sem Kristur hefur fengið klerkdóminum í hendur, innibinzt í lyklavaldinu (*potestas clavium*); Matt. 16, 18. Eptir trúarfræði rómversku kirkjunnar innibindur það í sjer ótakmarkað löggjafarvald, framkvæmdarvald og dómsvald. Í þessu öllu er hið kirkjulega vald (*potestas ecclesiastica*) fólgið. Eptir þessum lærdómi verður kirkjuvald rómversku kirkjunnar í eðli sínu guðsstjórn (*theocratia*). Trúarfræði kirkjunnar eignar biskupsembættinu sama álit og vald sem Kristi sjálfum; þeir eru eins áreiðanleg uppspretta sannleikans eins og hann, vegna hinnar guðlegu stofnunar embættisins, og hins óslítanlega sambands þeirra við hann í sífelldri röð allt frá dögum postulanna. Klerkdómurinn er þannig stöðug opinberunarstofnun, sem í gegnum biskupana, hið æðsta vígslustig kirkjunnar, birtir hinn guðlega vilja í löggjöf, tilskipunum og dómum sínum með sama myndugleika, eins og Kristur gjörði það sjálfur. Kristur er hinn ósýnilegi stjórnari, en klerkdómurinn er hið sýnilega kirkjuvald, en í raun og veru er hvorttveggja það sama. Þessi lærdómur um kirkjuvaldið sem klerkavald er hyrningarsteinninn undir hinni katólsku trúarfræði, og innibindur í rauninni allt það, sem einkennilegt er fyrir rómversku kirkjuna í lærdóminum um embætti kirkjunnar.

Prótestantiska kirkjan neitar beinlínis allri þessari klerkavaldsbyggingu sem gagnstæðilegri Krists lærdómi, og sem slœgri tilraun mannlegs hyggjuvits, til að gjöra kirkjuna, Krists ríki, að ríki af þessum heimi, hefja hina geistlegu stjett til veraldlegra valda og yfirráða, og reisa á legg kirkjulegt harðstjórnarvald, til kúgunar og ánauðar bæði kirkjulegu og borgaralegu fjelagi. Prótestantiska kirkjan neitar því alveg hinum katólska skilningi á kirkjuvaldinu eða lyklavaldinu. Biskuparnir hafa að guðlegum rjetti[1], það er að skilja: eptir lærdómi Krists, ekkert annað vald heldur en það, sem guðsorð heimilar þeim, nl. vald til að boða guðsorð og úthluta sakramentin, og til að binda og leysa syndirnar eptir anda evangelíí. Hið kirkjulega vald er því þjónusta orðsins; með orðinu, hinu andlega sverði, eiga kristnir kennimenn að vinna í Krists kirkju. En lyklavaldið er ekki fólgið í ytra valdi, yfirráðum eða drottnun, því þess konar á heima í hinni borgaralegu stjórn, en ekki í ríki Krists. Rómverska kirkjan hefur því hrifið sjer

[1]) *„Secundum evangelium, seu, ut loquuntur, de jure divino nulla jurisdictio competit episcopis, ut episcopis, hoc est, his, quibus est commissum ministerium verbi et sacramentorum, nisi remittere peccata“. Conf. Aug.*

þ. e.: Samkvæmt evangelíó Krists, eða, eins og þeir komast að orði, að guðlegum rjetti, eiga biskuparnir ekkert dómsvald, sem biskupar, það er: sem þeir, hverjum falin er þjónusta orðsins og sakramentanna, nema að boða fyrirgefningu syndanna.

það vald, sem guðsorð ekki heimilar henni, hrifið sjer valdið til að bera og beita hinu líkamlega sverði, sem hin veraldlega stjórn ein á að bera. Kirkjunni ber einungis hið andlega sverð, nl. orðið, í kenningu og áminningum[1]. Kirkjan á því engan sýnilegan yfirboðara yfir sjer; hún á engan löggjafa, engan dómara, engan stjórnara, nema hið ósýnilega höfuð, konung kirkjunnar, Krist, sem stjórnar kirkju sinni, ekki á harðstjórnarlegan hátt, heldur andlega, með náðarverkunum anda síns, sem veitast í gegnum náðarmeðulin, orð Krists og sakramentin[2]. Kirkjan, sem andlegt ríki Krists, á sjer því ekkert ytra dómsvald í efnum trúarinnar eða borgaralegum hlutum; kennimenn kirkjunnar eru þjónar orðsins, vinnumenn í Krists andlega ríki, söfnuðunum til uppbygg-

---

1) *„Potestas clavium seu potestas episcoporum juxta evangelium est potestas seu mandatum dei praedicandi evangelium, remittendi et retinendi peccata et administrandi sacramenta. Nam cum hoc mandato Christus mittit apostolos. Joh. 20, 21.“ Conf. Aug.*

þ. e.: Lyklavaldið, eða vald biskupanna samkvæmt evangelíó, er valdið eða skipun frá guði, til að boða fagnaðarlærdóminn, leysa og binda syndirnar, og þjóna sakramentunum. Því með þessari skipun sendir Kristur postulana hjá Jóh. 20, 21.

2) *„Quapropter ecclesia nunquam melius gubernari et conservari potest, quam si omnes sub uno capite, quod est Christus, vivamus“. Artic. Smal.*

þ. e.: þess vegna getur kirkjan aldrei hlotið betri stjórn og viðhald, heldur en ef vjer allir lifum undir einu höfði, sem er Kristur.

ingar, en ekki drottnar eða harðstjórar, fyrirmynd hjarðarinnar, en ekki sem þeir, er harðlega stjórni henni; 1. Pjet. 5, 3. Kennimenn kirkjunnar eru því, sem þjónar orðsins og safnaðanna, í engum yfirnáttúrlegum hœfilegleikum œðri leikmönnum, eða í nánara sambandi við guð heldur en leikmenn, því lyklavaldið er ekki gefið nokkurri vissri stjett, heldur kirkjunni allri, þ. e. öllum sannkristnum. Kennimennirnir eru einungis frábrugðnir leikmönnum að kölluninni til *(munere, non re)*, því þeir hafa þá köllun, það embætti, að boða orðið, og vera fyrirmynd í kenningu og eptirdœmi. Og hvað geistlega sjálfa snertir, þá eru þeir eptir lærdómi Krists *(jure divino)* allir jafnir. Þess vegna neitar prótestantiska kirkjan hinum ýmislegu vígslustigum hins rómverska klerkavalds sem gagnstœðilegum lærdómi Krists. Í hinu borgaralega fjelagi á sjer stað metorðamismunur, en ekki í Krists ríki, samkvæmt orðum lausnarans sjálfs: „Einn er yðar kennari, en þjer eruð allir brœður"; Matt. 23, 8. Hið kristilega kennimannsembætti er einungis eitt, án stiga í metorðum; biskupar og prestar hafa eptir evangelíó hið sama vald, einungis hið andlega vald orðsins; upphaflega er hvorttveggja hið sama embætti, eins og sjest af nýja testamentinu, að þeir sömu menn eru ýmist kallaðir biskupar eða prestar; Post.gjörn. 20, 17., 28.; Tít. 1, 5., 7. Þó að því prótestantiska, eða lúterska kirkjan telji œðri og lægri geistlega, biskupa og presta, og ætli hverjum þeirra sín kirkjustörf, þá er það ekki af því, að prótestantar, eins og katólskir, álíti þessa aðgreiningu tilsetta að guðs lögum

*(jure divino)*, eða byggða á innri nauðsyn, af því biskuparnir sjeu útbúnir æðri náðargáfum, heldur en prestarnir[1]; heldur er þessi aðgreining byggð á ytri tilhögun fjelagsins, sett að mannlegum lögum reglunnar og stjórnseminnar vegna, því kirkjan, sem sýnilegt fjelag, þarf sitt ytra fyrirkomulag, ýmislega þjónustu, æðri og lægri umsjón, og því má það álítast nauðsynlegt og í alla staði eiga vel við, að hinum æðri og lægri umsjónarmönnum kirkjunnar sjeu, hverjum fyrir sig, ætluð sín samsvarandi æðri og lægri prestlegu embættisverk. Þar á móti eignar prótestantiska kirkjan sjer ekkert vald eða yfirráð í ytri borgaralegum efnum; hún að greinir hvorttveggja valdið, kirkjuvaldið (*potestas ecclesiastica*) og veraldlega valdið (*potestas gladii*); hið síðara á heima hjá hinni veraldlegu valdstjórn, en þvílíkt vald hefur Kristur hvergi heimilað kirkju sinni í orði sínu[2].

---

[1]) *„Cum jure divino non sint diversi gradus episcopi et pastoris, manifestum est, ordinationem a pastore in sua ecclesia factam jure divino ratam esse“. Art. Smal.*

þ. e.: þar eð biskups- og prests-embættið ekki eru að guðs lögum frábrugðin stig, liggur í augum uppi, að vígsla, sem prestur vígir í söfnuði sínum, er fullgild að guðs lögum.

[2]) *„Itaque cum potestas ecclesiastica tantum exercetur per ministerium verbi, non impedit politicam administrationem, sicut ars canendi non impedit politicam administrationem. Nam politica administratio versatur circa alias res, quam evangelium. Magistratus defendit non mentes, sed corpora et res*

Af lærdómi rómversku kirkjunnar um kirkjuvaldið sem klerkavald myndast eðlilega samband kirkjunnar við hina veraldlegu stjórn. Fyrst er það eptirtektavert, að samkvæmt hinum trúarfræðislega grundvelli um klerkavaldið myndar rómverska kirkjan alla stjórn sína og ytra fyrirkomulag eptir fyrirmynd veraldlegrar stjórnar. Stofnari kirkjunnar á að hafa tilsett þessa tilhögun, með því að skipta játendum sínum í yfirboðna og undirgefna. Þeir fyrri, sem er klerkdómurinn, eru í rauninni kirkjan; hinir síðari eru einungis í óeiginlegum skilningi meðlimir kirkjunnar; þeir eru þegnar, klerkdómurinn drottnar. Eptir þessari grundvallarreglu lagar kirkjan stjórn sína alla, eins og hin veraldlega stjórn, eins og ríki af þessum heimi. Kirkjan hefur eins og hvert veraldlegt ríki sinn stjórnara, klerkavaldið, með páfanum í broddi fylkingar eins og ótakmörkuðum konungi, sem hefur biskupana eins og embættismenn sína, hefur stjórnarráð sitt, þar sem kardínálarnir eru, legáta sína við hirðir annara konunga og höfðingja. Bisk-

---

*corporales adversus manifestas injurias, et coercet homines gladio et corporalibus poenis, ut justitiam civilem et pacem retineat". Conf. Aug.*

Þ. e.: Þar eð hinu kirkjulega valdi einungis verður fylgt fram með þjónustu orðsins, bannar það ekki hina veraldlegu stjórn, eins og sönglistin enga tálman gjörir veraldlegu valdi. Því hin veraldlega stjórn fæst við aðra hluti heldur en evangelíum. Valdstjórnin ver ekki sálirnar, heldur líkami manna og líkamleg efni gegn opinberu ofríki, og heldur mönnum í skefjum með sverðinu og líkamlegum hegningum, til að halda frið uppi og borgaralegu rjettlæti.

uparnir aptur, sem jarlar páfans, hafa aðra lægri embættismenn undir sjer; þeir hafa sömuleiðis hver við sinn biskupsstól sín ráð (*capitula;* kórsbræður), eins og nokkurs konar smákonungar. Kirkjan hefur enn fremur eins og hið veraldlega ríki, sitt dóms- og framkvæmdar-vald, beitir útvortis valdi eins og borgaraleg stjórn, og gjörir sig þannig að kúgunarstofnun; hún hefur hegningarlögbók fyrir sig, dómendur og hegningarstofnanir. Rannsóknarrjetturinn og aðfarir hans eru ógurlegt dæmi upp á það; og öll þessi verkfæri sín getur kirkjan sett í hreifingu með hægu móti, svo að þau verða öll samtaka og samvinnandi að einu miði. Hin katólska klerkastjórnarbygging er þannig svo haglega samsett vjelasmíð, og þessari byggingu er stýrt og stjórnað svo kænlega, og þvílíkri festu og framkvæmd hefur hún náð, að engin veraldleg stjórn getur í því tilliti jafnazt við hina katólsku kirkjustjórn. Kirkjulöggjöfin (*jus canonicum*) myndaðist fyrst fullkomlega á miðöldunum af venjum og siðum, sem urðu að hefð, eins og vant er að vera. Þessar venjur urðu að rjetti, hversu fjarlægar sem þær kunnu að vera anda kristinnar trúar, og frá dögum Gregoríusar páfa 7. festist þessi kristinrjettur í kirkjunni, einkum á 12. og 13. öld, í höndum hinna kænu og þrekmiklu páfa, Innócentíusar 3., Gregoríusar 9. og Alexanders 3., sem langskyggnastir voru inn í anda rómversku kirkjunnar.

En þó rómverska kirkjan þannig lagi alla stjórn sína eptir stjórnarlögun veraldlegra ríkja, að greinir hún sig þó algjörlega frá öllum öðrum veraldlegum

ríkjum, og telur öll afskipti veraldlegra höfðingja af kirkjustjórninni ranglát og óguðleg. Hún skiptir heiminum í 2 hluta, kirkju og veraldleg ríki, sem hún segir að ekkert eigi skylt sín á milli. Kirkjan hefur sitt vald beinlínis frá guði, og er hið stöðuga og sýnilega aðsetur hinnar guðlegu valdsfyllingar. Því hlýtur og kirkjan sjálfsagt að vera óháð öllu veraldlegu valdi. Af tryggð við þessa grundvallarreglu sína veitir kirkjan jafnan mótspyrnu hvers konar afskiptum veraldlegrar stjórnar af guðlegum lögum kirkjunnar, og telur þau óhœfu og guðleysi, því manna lög eigi jafnan að víkja fyrir guðs lögum, það er: lögum rómversku kirkjunnar. Af þessu sprettur hinn stöðugi ágreiningur eða heldur ófriður milli kirkjunnar og veraldlegrar stjórnar, sem einkum geisaði alla miðöldina. Hin guðstjórnarlega hugmynd katólsku kirkjunnar, sem er undirstaða klerkastjórnarinnar, hlýtur að ala í sjer ælifandi vísi til úlfúðar, rígs og haturs milli kirkjulegrar og veraldlegrar stjórnar, svo að hin rómverska kirkja hlýtur eptir eðli sínu að liggja í sífelldu stríði við allar stjórnir, jafnvel þær, sem játa trú kirkjunnar. Og þó þessi ófriður sýnist ekki að vera svo mikill nú á dögum, það er að skilja: þó kirkjan rómverska gangi ekki lengur berserksgang, eins og á miðöldunum, þá er það víst, að þessi kyrrð er enginn fullkominn friðarsamningur frá hendi kirkjunnar, heldur einungis vopnahlje. Því efnið til ágreinings og fjandskapar liggur stöðugt eins og falinn eldur; og þó samningar komist á milli kirkju og stjórnar, eins og rómverska kirkj-

an hefur samið við flesta stjórnendur, er kirkjan samt sívakandi og viðbúin að brjóta aptur þessa samninga, hve nær sem færi gefst, og ganga á rjettindi veraldlegrar stjórnar, ef hún er ekki einbeitt í að verja þau með einurð og fylgi. Það hefur ekki tekizt til þessa dags í katólskum ríkjum, að setja takmörkin milli hins kirkjulega og veraldlega valds með samningum, og getur aldrei tekizt, á meðan rómverska kirkjan er rómversk kirkja, það er að skilja: á meðan þessi grundvallarvilla er drottnandi, að kirkjan sje og eigi að vera ríki af þessum heimi; því samkvæmt þeirri stefnu sinni hlýtur hún að vera óstöðvandi í ágangi sínum, og finna hjá sjer sífellda hvöt til þess, að draga sem flest mál undir sitt dómsvald, og stjórnendur, sem ekki hlýða í blindni, hlýtur hún að álíta svarna fjandmenn; í stuttu máli: eptir allri stefnu sinni og eðli hlýtur rómverska kirkjan að lifa í eilífum ófriði við öll ríki heimsins. Einkanlega hlýtur þessi ófriður að vera óumflýjanlegur, og sífellt eldkveykjuefni að vera fyrir höndum í þeim löndum, þar sem katólskir þegnar lifa undir prótestantiskri stjórn. Hin prótestantiska stjórn er eptir skoðun katólsku kirkjunnar villutrúarstjórn, og þó hún heiti stjórn, hlýtur hver sanntrúaður katólskur maður, eptir skoðun sinnar kirkju, að álíta þvílíka stjórn ólögmæta og heimildarlausa, og með sjálfum sjer álíta sig enga siðferðislega skuldbindingu hafa, að sýna slíkri stjórn þegnlega hlýðni. Allir biskupar vinna eið að því, þegar þeir vígjast, að ofsækja og bæla niður eptir megni alla villumenn, ó-

friðarmenn og upphlaupsmenn móti páfanum. Það er því eðlilegt, að hver sá biskup, sem settur er í prótestantisku landi, finni það helga skyldu sína, að reisa skorður við ólyfjan villutrúarinnar, og veita mótspyrnu tilskipunum og margri tilhögun frá hendi villutrúarstjórnar. Af mörgum dœmum vil jeg til fœra hjúskaparmál, sem einkanlega hafa verið stöðugt ágreinings- og ófriðar-efni. Hafi katólskir og prótestantar viljað giptast saman, þá hefur katólska kirkjan ekki viljað leyfa þess konar hjónaband, nema með því skilyrði, að öll börn, sem þau hjón kynnu að eiga, yrðu uppfóstruð í katólskri trú, þó annað foreldranna væri prótestantiskrar trúarjátningar. Ut af þessu hafa risið miklar þrætur, svo að prótestantiskir stjórnendur hafa orðið að skerast í leikinn, og fela prótestantiskum prestum að vígja hjónin saman, þegar katólskir prestar hafa þverskallazt.

En rómverska kirkjan nemur ekki staðar við það, að standa streitt, og ota fram valdi sínu móti hinni veraldlegu stjórn. Hún hlýtur samkvæmt eðli sínu og allri stefnu að gjöra tilkall til yfirstjórnar yfir öllum ríkjum heimsins, og það gjörir hún einnig. Þar eð rómverska kirkjan í öllum sínum athöfnum álítur sig sýnilegt verkfœri heilags anda, talar og gjörir allt í guðs nafni, og af fyllingu guðlegs valds, hlýtur það sjálfsagt að vera, að vald hennar sje yfir öllu öðru sýnilegu valdi. Eins og það guðlega er œðra og yfir því mannlega, eins er þá rómverska kirkjan yfir öllum veraldlegum stjórnum. Hin veraldlegu ríki eiga að lifa í stöðugri barna-auðsveipni og

undirgefni undir hið heilaga móðurvald rómversku kirkjunnar, og lúta henni, sem hinu æðsta höfði, sem guð hefur sett yfir þau. Hið veraldlega vald er ekki sjálfbjarga; það er eins og óvitinn ekki sjálfu sjer ráðandi, og því er hið andlega vald kirkjunnar kallað til þess, að hafa ráðin fyrir því, kirkjunni ætlað að vera um aldur og æfi svaramaður og herra allra veraldlegra ríkja. Þannig er kirkjan ekki einungis aðgreind frá veraldlegri stjórn, ekki einungis fjelag sjer í borgaralegu fjelagi, heldur ríki yfir því, tilsett af guði til að drottna yfir öllum ríkjum heimsins. Rómverska kirkjan býður og prjedikar að vísu hlýðni við landstjórana, konunga og stjórnendur, en í rauninni eru þó klerkar rómversku kirkjunnar eptir hennar skoðun engum vanda bundnir við veraldlega stjórnendur. Því klerkdómurinn katólski, í hverju landi sem hann er, á sinn konung og yfirboðara yfir sjer í Rómaborg, þar sem páfinn er; honum, en engum jarðneskum konungi, er kennilýðurinn í rauninni háður; og komist hinn katólski kennimaður í nokkurn vanda, þá á sjálfsagt hlýðnin við rómversku kirkjuna, sem æðri, að ganga fyrir hlýðninni við landslögin. Samkvæmt kirkjurjetti rómversku kirkjunnar hefur kirkjan ein, en engin veraldleg valdstjórn, í höndum sjer rjettinn og valdið til að veita embætti sín og stjórna eignum kirkjunnar (*investitura*). Klerkdómurinn er laus við allar borgaralegar kvaðir, allar álögur og borgaralegar byrðar (*immunitas*), og með þessum rjettindum hlýtur klerkdómur katólsku kirkjunnar í öllum löndum að verða háður einungis kirkj-

unni, en ekki veraldlegri stjórn, og laus allra mála við borgaralegt fjelag. Áþreifanleg sönnun fyrir þessu og dœmi er eiður sá, sem áður er ávikið að allir biskupar vinna hinu páfalega sæti, þegar þeir vígjast[1]. Þar er páfanum heitið ótakmarkaðri hlýðni; biskuparnir skuldbundnir til að auka vald og dýrð páfans móti öllum mönnum, og af fremsta megni að ofsœkja og bœla niður alla villumenn, og alla sem óhlýðnist páfanum, konungi kirkjunnar. Þessi eiðstafur minnist ekki einu orði á hlýðni biskupanna við guð eða skuldbindingu við söfnuðina, og því síður á hlýðni þeirra við hina veraldlegu stjórn, rjett eins og þeir hefðu losazt við allar veraldlegar þegnskyldur, jafnskjótt og þeir vígðust. Þess vegna hafa líka katólskir landsdrottnar á síðari tímum látið biskupana vinna veraldlegu valdi sjerstaklegan hollustueið, og ætlað þeim að sameina báða eiða eptir megni. Klerkavald rómversku kirkjunnar hlýtur eptir eðli sínu, þar eð það er hið sýnilega vald guðdómsins, að heimta yfirráðin yfir öllu veraldlegu valdi, og þar eð kirkjan hefur skipað stjórn sína eptir fyrirkomulagi veraldlegra ríkja, en einskorðar ekki afskipti sín við andlega starfsemi, grípur hún sjer til hjálpar einnig ytri veraldleg meðul, nauðungar- og kúgunar-meðul, til að koma fram tilgangi sínum. Öll miðaldarsagan er talandi vottur þessa. Á þessari gullöld páfavaldsins, meðan þjóðir og stjórnir voru bundnar töfravaldi hjátrúarinnar, gat kirkjan í heyranda hljóði

---

[1]) Smbr. *Clausen: Catholicisme og Protestantisme*, bls. 197, þar sem tilfœrt er aðalinntakið úr þessum eiðstaf.

kveðið upp með kröfur sínar, að guð hefði gefið sjer yfirráðin yfir öllum konungum jarðarinnar, og framfylgt þeim í verkinu. Kirkjan, eða konungar kirkjunnar, páfarnir, komu sjer þá við sem fulltrúar guðs, eins og ótakmarkaðir jarðneskir einvaldskonungar í yfirgripsmesta skilningi, bæði í kirkjulegum og borgaralegum efnum. Þeir sviptu keisara og konunga völdum, og settu aðra í þeirra stað, út býttu löndum og ríkjum eins og eign sinni, kúguðu kristnar þjóðir með bannfæringum og með því að siga stjórnendum á þegna sína, konunga og stjórnendur með því, að lýsa yfir þeim stórmælum, og leysa þegnana undan hollustueiði við landsdrottna sína, og æsa þá upp í móti þeim, eða siga stjórnendum saman, og nota þannig hið veraldlega vald til að brjóta sjálft sig niður. En eptir að siðabótin sundraði myrkri miðaldanna, og hin prótestantiska trúarjátning leysti hina veraldlegu stjórn undan hinu óeðlilega ánauðaroki kirkjunnar, og veitti borgaralegu fjelagi aptur eðlilegt frelsi sitt og rjettindi, hefur rómverska kirkjan hlotið að hegða sjer öðruvísi, eða velja aðra aðferð að minnsta kosti, verða gætnari og hógværari og brynja sig þolinmæði. En, þess ber vel að gæta, kirkjan hefur að eins tekið stakkaskiptum í a ð f e r ð sinni; sinnið er jafnan hið sama. Kirkjan hefur hvergi vikið þumlung enn þá frá grundvallarreglum sínum, engu breytt, ekki apturkallað eina lærdómsgrein úr lærdómsbyggingu sinni. „Vegna spillingar heimsins", segir katólska kirkjan, „getur hinn guðlegi rjettur kirkjunnar yfir öllum veraldlegum ríkjum ekki komið

sjer við; guðs lög eru fótum troðin af mannalögum. Kirkjan verður því af þessum bágbornu kringumstæðum (*injuria temporum*) að láta lög sín liggja í dái, án þess hún í rauninni slaki í nokkru til um þau, en í biðlund og þolinmæði bíða betri tíma, vonandi þess, að hún einhvern tíma muni geta komið fram fullum rjetti sínum“. Rómverska kirkjan hefur líka sýnt það frá dögum siðabótarinnar, að hún ekki hefur verið sofandi, heldur vakandi; hún hefur jafnan komið sjer við, hve nær sem færi hefur gefizt, notað hverjar kringumstæður, alla krapta, hverja breytingu tímanna á hyggilegasta hátt í sína þjónustu; og því, sem hún á miðöldunum náði með yfirgangi og kirkjulegu ofbeldi, hefur henni opt tekizt á síðari tímum að ná með krókum og vjelabrögðum. Það má því fullyrða, að ef menn gætu hugsað sjer sömu kringumstæður nú sem á miðöldunum, sama ástand hjá þjóðunum og í borgaralegu fjelagi, eins og þá var, þá mundi miðöldin rísa aptur upp úr gröf sinni, og leggjast yfir þjóðirnar með hinu forna páfalega harðstjórnaroki og klerkslegu hjátrúarmyrkri, eins og Ítalía, Spánn og Portúgal eru vottur um á vorum dögum, þar sem rómverska katólskan er í blóma sínum, eins og henni er auðið á þessum tímum, því hin rómverska katólska er í eðli sínu eilíft miðaldamyrkur.

Lærdómur rómversku katólsku kirkjunnar um kirkjuvaldið sem klerkavald er, eins og áður er sagt, hyrningarsteinn kirkjubyggingarinnar; því með þeim lærdómi er kirkjan gjörð að sýnilegu guðstjórnarvaldi

í heiminum. Klerkdómurinn er hinn útvaldi lýður guðs (κλῆρος), hlutskipti drottins, sem í umboði hans á að stjórna hinum óvígðu, lýðnum (λαός), leikmönnunum. En þegar nú því næst klerkdómurinn er skoðaður í samanburði við sjálfan sig, innibindur hann í sjer ýmisleg stig, eptir hinum ýmislegu vígslum, æðri og lægri. Eptir þeim skiptist hann í æðri klerkdóm *(clerus major)*: biskupa *(episcopi)*, presta *(presbyteri)*, djákna *(diaconi)*, súbdjákna *(subdiaconi)*, og lægri klerkdóm *(clerus minor)*: *acoluthi, exorcistae, lectores, ostiarii*; hverju þessu embætti ber sín vígsla fyrir sig. Lægri klerkdómurinn er í rauninni kirkjuþjónar; æðri klerkdómurinn myndar hið eiginlega klerkavald, og biskupsembættið er kóróna klerkdómsins, og innibindur í sjer öll lægri vígslustig. Biskupsembættið er því í rauninni kirkjan, og allir biskupar kirkjunnar samtals eru líkami kirkjunnar, og hafa sem fulltrúar hennar kirkjuvaldið á hendi, og þar sem biskupar kirkjunnar eru saman komnir á kirkjufundunum, hafa menn kirkjuna í lifandi heild fyrir augum sjer. En þvílík eining er þó ekki í alla staði hentug eða fullkomlega næg eining. Því kirkjufundirnir eru ekki jafnan saman komnir. Kirkjan verður því að leita eptir fastari og áreiðanlegri einingu á einhverjum einum stað, og hjá einum manni, sem er fulltrúi alls kirkjuvaldsins, og einn hefur í höndum sjer fyllingu alls biskupsdæmis kirkjunnar, eða er allsherjarbiskup kristninnar. Þetta vald er yfirbiskupsdæmi biskupsins í Rómaborg. Lærdómurinn um klerkavaldið leiðir beinlínis til þessa lærdóms,

til hugmyndarinnar um kirkjuvaldið eins og ótakmarkaða einvaldskirkjustjórn í einum sýnilegum kirkjukonungi. Þetta sýnilega yfirbiskupsvald er nú, segir katólska kirkjan, guðleg stofnun, eins og kirkjan sjálf. Því var það, að Kristur fjekk Pjetri postula í hendur lyklavaldið meðal postulanna, og gjörði hann að yfirpostula hinna; Matt. 16, 18., 19.; Jóh. 21, 15. Nú ályktar katólska kirkjan enn fremur, að biskupinn í Rómaborg sje það sama meðal biskupa kirkjunnar, sem Pjetur hafi verið meðal postulanna, sökum þess að yfirbiskupsdœmi Pjeturs *(primatus Petri)* hafi gengið að erfðum til biskupsins í Rómaborg samkvæmt guðlegri tilskipun; þar af leiði, að rómverski biskupinn, eptirmaður Pjeturs, sje hið sýnilega höfuð kirkjunnar, eins og Kristur hið ósýnilega, og sje settur af Kristi sjálfum sem jarl hans, til að stjórna kirkjunni og halda henni saman[1]. Yfirbiskupsdœmi páfans er þannig, eins og katólskir segja, að guðlegum lögum *(jure divino)*, og er ekki fólgið einungis í œðstu metorðum, œðstu biskupstign, heldur í ótak-

---

[1]) *„Sanctam catholicam et apostolicam Romanam ecclesiam omnium ecclesiarum matrem et magistram agnosco, Romanoque pontifici, b. Petri apostolorum principis successori ac Jesu Christi vicario veram obedientiam spondeo et juro". Prof. fidei.*

Þ. e.: Eg játa hina helgu, almennilegu og postullegu rómversku kirkju, að hún sje móðir og meistari allra kirkna, og heiti og sver sanna hlýðni hinum rómverska œðsta presti, eptirmanni hins sæla Pjeturs, fyirliða postulanna, og jarli Jesú Krists.

markaðri yfirstjórn[1]. Páfinn er, sem konungur kristninnar, hafinn yfir allt jarðneskt vald, guði einum undirgefinn; fylling alls kirkjuvalds býr í honum[2].

Prótestantiska kirkjan neitar þverlega þessum lærdómi rómversku kirkjunnar um yfirpostuladœmi Pjeturs, og þá því fremur þeirri ályktun, sem kirkjan rómverska dregur af þessum lærdómi um yfirstjórn rómversku biskupanna sem eptirmanna hans, með því þessi lærdómur hafi enga fótfestu í nýja testamentinu. Prótestantiska kirkjan neitar að vísu ekki, að Pjetur, eptir bendingu guðspjallanna, hafi í vissum skilningi verið oddviti postulanna *(primus inter pares)*, hafi verið í sjerlegum metum meðal postulanna hjá lausnaranum, og notið sjerlegs álits í söfnuði kristinna vegna trúarstyrkleika og mikilla andlegra kosta og náðargáfna. En þessir yfirburðir og álit veittu honum engin ytri yfirráð eða veraldlega yfirstjórn yfir

---

[1]) *„Unus est ejus rector et gubernator, invisibilis quidem Christus; visibilis autem is, qui Romanam cathedram Petri, apostolorum principis, legitimus successor tenet". Catech. Rom.*

Þ. e.: Einn er hennar konungur og stjórnari, ósýnilegur Kristur; en sá sýnilegur, sem situr í kennimannsstól Pjeturs í Róm, oddvita postulanna, og er löglegur eptirmaður hans.

[2]) *„De eo fuit omnium patrum sententia consentiens, hoc visibile caput ad unitatem ecclesiae constituendam et conservandam necessarium fuisse". Catech. Rom.*

Þ. e.: Um það hefur öllum feðrunum komið saman í einu hljóði, að þetta sýnilega höfuð hafi verið nauðsynlegt, til að koma upp og verja einingu kirkjunnar.

hinum postulunum, eins og rómverska kirkjan vill ranglega teygja út úr orðum nýja testamentisins; því Pjetur er þar ávarpaður í nafni allra postulanna, og það vald, sem Kristur heitir Pjetri, Matt. 16, 18., 19., það sama vald gefur hann og öllum hinum postulum sínum sömuleiðis Matt. 18, 18., 19.; það er að skilja: drottinn hefur gefið lyklavaldið allri hinni trúuðu kirkju, en engum einstökum manni[1]. Því síður gefur heilög ritning nokkurstaðar fyrirheiti um, að embætti Pjeturs skyldi ganga með erfðum til einshvers eins biskups eins og kirkjulegur konungdómur, og rómverska kirkjan gjörir sjer heldur ekki far um, að fœra biflíustaði fyrir því, en grípur heldur til sögu-

---

1) *„In omnibus illis dictis Petrus sustinet personam totius coetus apostolorum, sicut ex textu apparet. Nam Christus non interrogat unum Petrum, sed ait: vos quem me esse dicitis? et quod singulari numero dicitur: tibi dabo claves, alibi plurali numero dicitur; haec verba testantur pariter omnibus apostolis tradi claves, et pariter omnes mitti apostolos. Ad haec necesse est fateri, quod claves non ad personam unius certi hominis, sed ad ecclesiam pertineant“. Art. Smal.*

Þ. e.: Á öllum þessum stöðum gengur Pjetur í stað allra postulanna, eins og sjest af sambandinu. Því Kristur spyr ekki Pjetur einan, heldur segir: hvern segið þjer mig að vera? og það, sem sagt er til eins: jeg mun gefa þjer lyklana, er á öðrum stöðum sagt til fleiri; þessi orð sýna, að lyklarnir eru fengnir jafnt öllum postulunum, og að þeir eru sendir allir jafnt. Eptir þessu verða menn að játa, að lyklavaldið ber engum einum vissum manni, heldur allri kirkjunni.

legra vitnisburða, því kirkjunnar vitnisburðir og siðvenjur eru, að hennar áliti, eins gildur grundvöllur sannleikans, sem ritningarinnar vitnisburður, eins og síðar mun verða talað um. Kirkjan leggur því hjer til grundvallar lærdóminn um hið stöðuga áframhald biskupsdœmisins rómverska frá Pjetri postula (*successio apostolica*). Pjetur á að hafa verið fyrstur biskup í Róm í 25 ár sem yfirbiskup kirkjunnar. Þess vegna hefur sá siður verið, að enginn páfi hefur tekið sjer Pjeturs nafn í virðingarskyni við hinn mikla postula, þar sem þó 5 hafa borið Páls nafn. Enginn páfi hefur heldur setið 25 ár að völdum, og sá siður er við hafður, þegar nýr páfi er kosinn, að ávarpa hann þessum orðum: *„Non videbis annos Petri“* (þú munt ekki sjá ár Pjeturs). Biskuparöðin í Rómaborg á enn fremur að vera óslitin upp að Pjetri. En hjer vill nú svo illa til, að vitnisburðir sögunnar bregðast einnig. Það verður ekki sannað, að Pjetur postuli hafi nokkurn tíma verið biskup í Rómaborg. Elztu kirkjufeður, sem jafnvel tala um píslardauða Pjeturs í Róm, nefna aldrei, að hann hafi verið þar biskup, og því síður yfirbiskup allrar kristninnar. Enn fremur er biskuparöðin í Rómaborg óviss og óáreiðanleg; því vitnisburðum sögunnar ber ekki saman um, hverjir hafi verið næstu eptirmenn Pjeturs. Sumir páfarnir hafa þar að auki verið ólöglega kosnir á móti kirkjulögunum, og eru þó taldir í páfaröðinni. Kirkjufundurinn í Costnitz sleit hina lögmætu páfaröð, með því að setja páfann frá völdum, og kjósa sjálfur nýjan páfa móti ströngum kirkjulögum. Á

dögum kirkjusundrungarinnar *(schisma papale)*, þegar 2 voru páfar, annar í Róm, hinn í Avignon, sem lýstu stórmælum hvor yfir annan, játa katólskir lögfræðingar sjálfir að ómögulegt sje að skera úr því, hvor verið hafi hinn rjetti páfi, en segja, að kirkjan verði að láta sjer nægja þessa sannfæringu, að annarhvor hafi verið sannur páfi. En þetta er hörð huggunargrein; kirkjan er hjer komin í þær kröggur, sem ekki verður komizt út úr. Því þegar áreiðanleg merki vanta til þess, að að greina hinn sanna páfa frá villupáfanum, þá hefur kirkjan enga fullvissu fyrir því, að hún kunni ekki að hafa aðhyllzt villupáfann, og hafnað þeim sanna, hallað sjer að anda lyginnar, en yfirgefið anda sannleikans, og kirkjan hefur um 2 kosti að velja, annaðhvort að segja, að heilagur andi hafi brugðizt sjer, með því hann lætur hana ekki hafa fulla vissu fyrir, hver eða hvar sje hinn sanni páfi, eða hún verður að játa, að grundvallarlærdómur kirkjunnar um sýnilegan jarðneskan kirkjukonung sje mannlegur heilaspuni.

Eins og því prótestantiska kirkjan neitar því, að lærdómurinn um sýnilegt kirkjulegt yfirbiskupsdæmi hafi nokkra átyllu í ritningunni, eins sýnir hún af sögunni, að hin postullega fornkirkja hefur ekkert þekkt til þessa lærdóms um páfalega einvaldsstjórn. Þar á móti sýnir kirkjusagan, þegar hún er rjett skilin, að ytri yfirráð rómversku biskupanna yfir öðrum biskupsstólum hafa myndazt smátt og smátt frá litlum upptökum, eptir því sem kirkjan færðist meir og meir að ytri veraldlegri stefnu í öllum efnum sín-

um, og hún í stjórnarlögun sinni fór að leita eptir einvaldsstjórn. Einstöku kirkjufeður á 3. og 4. öld, t. a. m. Írenæus, † 202, Cypríanus, † 258, Augustínus, † 430, og Híerónýmus, † 420, minnast á biskupsstólinn í Rómaborg sem helzta biskupssæti kirkjunnar, en einungis vegna þess, að sagan sagði, að Pjetur postuli hefði dvalið þar, og orðið þar píslarvottur. Þetta álit fór síðan vaxandi öld eptir öld. Að því studdu margar ástæður, ytri og innri. Rómversku biskuparnir voru stjórnkœnir menn; veraldlegt vald studdi þá opt; allar kringumstæður notuðu rómversku biskuparnir hyggilega rómverska stólnum í hag, og þeir byggðu trúlega hver fram af öðrum ofan á þann grundvöll, sem lagður var. Þannig var byggingin ekki stofnuð öll í einu; hún var lengi í smíðum, margar aldir, kynslóð eptir kynslóð, þangað til hún á miðöldunum var orðin svo risavaxin, að hún mœndi upp yfir öll önnur ríki, og rómversku biskuparnir, sem þá voru farnir að kalla sig páfa (feður kristninnar), höfðu höfuð og herðar yfir alla konunga jarðarinnar. Prótestantar segja því með fullum rjetti, að rómverska kirkjan afbaki söguna alveg, þegar hún eignar það elztu tímum kirkjunnar, sem sagan sjálf sýnir að löngu síðar varð að venju og vana, og vill byggja það á guðlegum rjetti, sem hún hefur fengið á mannlegan hátt, og að mannlegum lögum. Því kirkjulegt vald sitt hefur hún fengið smátt og smátt; og hið veraldlega vald kirkjunnar hefur upptök sín á 8. öld; það hefur hún fengið fyrir náð veraldlegra höfðingja, þeirra feðga: Pipins litla og Karls mikla

(Karlamagnúsar) Frakkakonunga. Með því móti má að vísu játa það, að páfinn sje veraldlegur höfðingi í ríki sínu, sem hann hefur fengið að mannlegum lögum; en að hann hafi yfirbiskupsdœmi sitt eptir tilskipun Krists, og þar af leiðandi yfirstjórnarvald að guðlegum lögum, það er bæði á móti lærdómi nýja testamentisins og skýlausum vitnisburði sögunnar; þess vegna neita prótestantar því algjörlega. Þannig lítur Melanchthon á þetta mál víða í ritum sínum, og þannig verða orð hans að skiljast, þegar hann skrifaði undir smalkaldisku greinarnar, „að menn geti játað páfanum œðri tign *(superioritatem)*, heldur en öðrum biskupum að manna lögum" *(jure humano)*. En að þvílíkum kostum getur rómverska kirkjan ekki gengið, nema með því að kippa grundvellinum undan kirkjubyggingunni, og fella niður í grunn alla hina miklu páfavaldsbyggingu; því kirkjan veit vel, að lærdómur hennar um guðlega stofnun páfavaldsins er hyrningarsteinninn undir kirkjubyggingunni; henni er það fullkomlega ljóst, að kirkjan hefur náð því valdi, sem hún hefur náð, einungis með því, að henni hefur tekizt að tæla miðöldina, og telja kristnum löndum trú um, að rómversku biskuparnir væru, sem eptirmenn Pjeturs postula, settir af guði, til að vera sýnilegir og ótakmarkaðir einvaldsstjórar kirkjunnar.

Með þessum lærdómi um kirkjuvaldið sem ótakmarkað einvaldsríki í einum sýnilegum kirkjukonungi er lærdómsbyggingu kirkjunnar um kirkjuvaldið sem klerkavald lokið. En hjer, þegar hin katólska kirkju-

bygging er komin á sitt æðsta stig, fer hún að brjóta sjálfa sig niður, og lærdómsbyggingin að komast í mótsögn við sjálfa sig. Því þegar það fer að verða umtalsefni, hvernig hið kirkjulega allsherjarvald eigi að birtast sem ytra stjórnar- og framkvæmdar-vald, byrjar ágreiningurinn í katólsku kirkjunni sjálfri. Tveir flokkar hafa risið upp hvor á móti öðrum, og komið fram hvor með sína lærdómsbyggingu. Annar þessara, páfaflokkurinn *(Curialistar*[1]*)*, játar páfann einan sem ótakmarkaðan einvaldsbiskup kirkjunnar, til þess settan af guði. Hinn flokkurinn, biskupaflokkurinn *(Episcopalistar)*, álítur þar á móti engan einn biskup ótakmarkaðan konung kirkjunnar, heldur sje æðsta kirkjustjórnin í höndum allra biskupa kirkjunnar í einingu, og að því sjeu hinir almennu kirkjufundir, þar sem biskupar kirkjunnar eru saman komnir, hið æðsta löggjafar- og stjórnar-vald hennar. Fyrst skal þá talað um lærdómsbyggingu páfaflokksins.

Þessi flokkur er hinn rjetttrúaði kirkjuflokkur í rómversku kirkjunni, því hann fylgir páfanum sjálfum. Grundvallarkenning hans er í stuttu máli þessi, að þar sem páfinn sje, þar sje líka kirkjan *(ubi papa, ibi ecclesia)*. Þar af leiðir 1, að páfinn er í trúarefnum útbúinn guðlegri vissu; honum getur ekki skjátlazt í kirkjulegum trúarlærdómum. Vegna þessa óbrigðula áreiðanlegleika *(infallibilitas)* getur hann,

---

[1]) Þeir hafa nafn sitt af curia, höll eða hirð páfans, páfagarður. Forfeður vorir sögðu ýmist: að „fara út í cúríam“, eða „út í páfagarð“, um þá, sem heimsóttu páfann; og má þá kalla Curialista: páfaflokk, páfamenn, eða páfagarðsmenn.

þegar trúarstríð koma upp í kirkjunni, að greint sannleikann frá villunni, og lýst bannfœringu yfir villutrúarmenn. Þessi kenning er alveg samkvæm trúarlærdóminum um kirkjuna. Því þar eð kirkjan eignar sjer guðlegan myndugleika, hlýtur hún og að eigna páfanum, sem ber í sjer alla fyllingu kirkjunnar, sama guðdómlega eiginlegleika, að vera hafinn yfir alla villu. Guðfrœðingar kirkjunnar eigna því páfanum óbrigðulan áreiðanlegleika jafnan, þegar hann talar úr páfasætinu *(ex cathedra)*, það er að skilja: þegar hann í embættisnafni, sem páfi, kveður upp úrskurð sinn.

Prótestantar geta ekki annað en talið slíka kenningu guðlöstunarorð, sprottin af hinu ókristilega samblandi rómversku kirkjunnar á sýnilegri og ósýnilegri kirkju, sem hlýtur að leiða til þess, að afneita Kristi, hinum eilífa konungi kirkjunnar, en hefja í hans stað aptur til konunglegrar tignar breyskan og syndugan mann. Því það er grundvallarlærdómur kristindómsins, að Kristur einn sje vegurinn og sannleikurinn, og því er það óguðleg og ókristileg villa, að eigna nokkrum manni það, sem Kristi einum til heyrir; það er að kollvarpa og afneita tign Krists, sem einn er hinn fullkomni spámaður, frelsari og sáluhjálpari[1]. Þetta er líka þvert á móti allri sögu

---

[1]) *„Hinc sequitur, omnia quae papa ex tam arrogante, temeraria, mendace, blasphema et furto arrepta potestate suscepit et fecit, et adhuc facit, fuisse et esse mere diabolica acta et instituta ad perditionem totius sanctae ecclesiae catholicae, seu*

og reynslu; því sagan hefur sýnt, að páfarnir, eins og hver annar, hafa villzt frá hinni sönnu trú, og flœkzt inn í villulærdóm, og sumir þeirra hafa því verið settir frá páfalegri tign. Líberíus biskup í Róm flœktist inn í Aríusar villu; Zósímus biskup fjellst á villulærdóm Pelagíusar; Hónóríus var bannfœrður fyrir villutrú monoteleta. Jóhannes páfi 23. var meðal annars ákærður fyrir villutrú á fundinum í Costnitz, og þar kvað kirkjan upp með þá grundvallarreglu, að páfann mætti setja frá völdum vegna villutrúar, og staðfesti það með aðferð sinni, með því að víkja 3 páfum í einu frá völdum. Guðfrœðingar kirkjunnar hafa að vísu reynt til, að bjarga þessu við með ýmsum krókaútleggingum, t. a. m. Bellarmin kardináli með því, að gjöra mun á páfanum sem manni og páfa. „Páfinn getur að vísu“, segir hann, „ratað í villutrú, en jafnskjótt og hann sýkist af eitri villunnar, hættir hann að vera páfi; hann er þá dœmdur frá af guði, og dómur kirkjunnar er einungis auglýsing þessa úrskurðar“. En þvílík krókaleið er auðsjáanlega þýðingarlaus, og getur að engu

---

*christianae, et ad destructionem primi et praecipui articuli de redemptione facta per Jesum Christum“. Art. Smal.*

þ. e.: Af þessu leiðir, að allt það, sem páfinn með svo ofstopamiklum, heimildarlausum, sviksamlegum, óguðlegum og þjófslegum yfirgangi hefur hrifið sjer, ráðizt í, og gjört, og gjörir enn þá, eru einberar djöfullegar athafnir og tilskipanir, allri heilagri, almennilegri eða kristilegri kirkju til glötunar, og til að brjóta niður hina fyrstu og helztu trúargrein, um endurlausnina, sem Jesús Kristur hefur afrekað.

liði orðið kirkjunni; því sje páfanafnið sjálft, eða hin ytri páfalega tign, ekki fullnæg sönnun og heimild fyrir óbrigðulum áreiðanlegleika páfans, þá hafa menn engin merki, til að fara eptir; menn geta þá allt af vefengt og tortryggt trúarmyndugleika páfans; hinn helgi faðir í Róm getur allt af, eins og hver annar maður, verið grunaður, ekki einungis um rjetta trú, heldur líka um gœzku.

2. er páfinn, eptir kenningu páfaflokksins, allsherjarbiskup (*episcopus universalis*). Í tilliti til stjórnar og framkvæmdar er hann það sama fyrir kirkjuna alla, sem hver biskup fyrir sitt biskupsdœmi. Hann er yfirboðinn öllum kirkjufundum, eins hinum almennu, sem eru fulltrúafundir allrar kristninnar; hann á engan dómara yfir sjer, og hefur ekki ábyrgð fyrir öðrum en guði og samvizku sinni. Hið páfalega vald er, eptir þessari skoðun, ekki einungis kirkjuleg einvaldsstjórn, heldur algjörlega ótakmarkað einveldi. Samkvæmt því er hann ekki einungis œðsti biskup, heldur í rauninni sá eini biskup kirkjunnar, því allir aðrir biskupar eru, eins og undirembættismenn páfans, hans önnur hönd (*in partem sollicitudinis*), þ. e.: fulltrúar eða umboðsmenn hans. Páfinn er eptirmaður Pjeturs postula, og hefur tekið í arf frá honum lyklavald himnaríkis, því er hann ótakmarkaður konungur kirkjunnar. Af þessari fyllingu valds síns (*plenitudo potestatis*) getur páfinn gripið fram fyrir hendur á hverjum biskupi, þegar hann vill, og svipt hann allri stjórn. Páfinn hefur þá einn löggjafarvald; úrskurðir páfans (*decreta*) eru

kirkjulög, og ákvarðanir kirkjufundanna *(canones)* eru fyrst lög, þegar páfinn hefur staðfest þær, eða gefið þeim lagagildi, og hann einn getur, sem konungur kirkjunnar, gjört samninga fyrir hennar hönd við veraldlega höfðingja. Páfinn hefur enn fremur hið æðsta dómsvald í höndum sjer; öll heldri mál verða að liggja undir hans dóm, einkanlega öll biskupamál, og því hljóta þeir allir að fara til Rómaborgar, og verja mál sitt fyrir dómstóli páfans, ef mál er sótt á hendur þeim. Samkvæmt þessu má þá skjóta öllum málum frá lýðbiskupum landskirknanna undir úrskurð páfans til Rómaborgar undan dómi erkibiskupanna. Með þessu móti dregur páfinn allt dómsvald til sín, og gjörir að engu vald þjóðkirknanna; og það er kunnugt, hversu páfarnir notuðu þetta svo kallaða guðlega vald sitt á miðöldunum, svo að það varð að óbærilegu harðstjórnaroki; einkanlega á 14. og 15. öld, þegar páfavaldið var orðið gjörspillt, beittu þeir því ekki einungis til þess, að kúga fje út úr einstökum mönnum, heldur og til þess, að leggja óbærilegar álögur á þjóðkirkjurnar, og með því móti fjeflettu þeir kristin lönd undir því yfirskyni, að öllu því fje væri safnað guðs vegna, í þarfir hins postullega sætis í Rómaborg, þar sem það þó í rauninni rann allt í hina botnlausu pyngju páfanna, og gekk í þarfir óstjórnlegs munaðar við páfahirðina í Róm. Páfinn hefur sömuleiðis hið æðsta framkvæmdarvald; hann einn hefur rjett til að taka í helgra manna tölu *(jus canonisationis)*, að leysa menn undan lögunum *(jus dispensationis)*, t. a. m. leysa alla

meinbugi í hjúskaparmálum *(impedimenta)*, leyfa biskupum að hafa fleiri kirkjuembætti en eitt, „því þar eð páfinn er stjórnari kirkjulaganna, gjörir hann þeim engan órjett, þó hann leysi menn undan þeim“, eins og Innócentíus páfi 3. sagði forðum[1]. Páfinn hefur enn fremur rjett til, að veita öll kirkjuembætti, stofna ný biskupsdœmi, og ákveða takmörk þeirra, setja erkibiskupa og biskupa og alla þjóna kirkjunnar frá embættum, eða flytja þá eptir vild, leysa lýðbiskupa og ábóta klaustranna undan yfirstjórn erkibiskupanna, og leyfa þeim að skjóta sjer beinlínis undir páfann. Samkvæmt þessu vinna allir biskupar, þegar þeir vígjast, páfanum hollustueið, sem ótakmörkuðum yfirmanni sínum. Í þessum eiði er hvorki minnzt á hlýðni við guð, kirkjuna, eða landstjórann, heldur lofað, að verja heiður, álit, rjett og einkaleyfi rómverska stólsins og páfans, og hlýðnast úrskurðum, tilskipunum og setningum hins helga föður; sömuleiðis skuldbindur þessi eiður biskupana til að heimsœkja 3. hvert ár hinn helga Pjetur *(visitare limina apostolorum)*, til þess að gjöra páfanum, herra sínum, grein fyrir embættisstjórn sinni, og öllu, sem kirkjumál snertir. Þessi eiðstafur sýnir ljósast, að páfinn er skoðaður sem ótakmarkaður einvaldsstjóri kirkjunnar, og biskuparnir einungis sem ljensmenn hans, sem skyldir eru að vinna honum hollustueið, eins og jarlar konungum sínum, og því er það líka

---

[1]) *„Papa cum sit moderator canonum, juri non facit injuriam, si dispensat“.*

í alla staði eðlilegt, að biskupar rómversku kirkjunnar kalli sig „biskupa af náð postullegs sætis“ *(episcopi gratia apostolicae sedis).*

3. Í tilliti til veraldlegra stjórnanda eignar þessi flokkur páfanum yfirstjórn yfir öllum konungum eptir þeirri grundvallarreglu, að það guðlega sje æðra en það mannlega, og þar eð páfavaldið sje guðleg stofnun, þá sje páfinn, sem umboðsmaður guðs, jarðneskur einvaldsstjóri í orðsins yfirgripsmestu þýðingu, bæði í kirkjulegri og veraldlegri stjórn. Samkvæmt þessu heimtar páfinn, að hann sje játaður andlegur faðir og yfirboðari allra höfðingja og konunga Þeir hafa ekkert ríki eða vald nema af náð páfans, því á hann að staðfesta tign þeirra, og hefur rjett til, að skipa konunga og keisara til ríkja, og svipta þá ríkjum og konunglegri tign. Það er kunnugt, hversu páfarnir framfylgdu þessari grundvallarreglu allt frá dögum Gregoríusar 7. við alla kristna höfðingja, og hve óguðlegum brögðum þeir beittu, til að kúga þá undir harðstjórnarok kirkjunnar, lýstu yfir þá stórmælum, leystu þegnana undan hollustueið sínum við þá, og siguðu þannig saman þegnum og landsdrottnum, svo að allt komst í uppnám í borgaralegu fjelagi, öll stjórn fór út um þúfur, og hinar ógæfusömu þjóðir, sem urðu að leiksopp í höndum páfalegrar harðstjórnar og vjelabragða, slitu sjer út í blóðugum borgarastyrjöldum, sem enduðu optast með því, að allt borgaralegt og andlegt frelsi þeirra lagðist í dá, en kirkjulegt einveldi lagði með járnhendi fjötur á andlegt líf þeirra, bæði í kirkjulegum og borgaralegum

efnum. Þessir tímar eru nú að vísu liðnir fyrir löngu, hvað framkvæmdina snertir; rómverska kirkjan þorir ekki að fara með sama yfirgangi nú sem fyr, því hún getur það ekki; páfinn hefur ekki vald eða krapta til að ganga í berhögg við veraldlega höfðingja með veraldlegum vopnum, til að kúga þá til hlýðni. En andi, stefna og kröfur páfanna standa enn þá óhaggaðar; þeir hafa ekkert slakað til, hvað rjettarkröfurnar snertir, því þó rómverska kirkjan hljóti opt að beygja sig í viðskiptum við veraldlega höfðingja, þá hatar hún alla tilhliðrun í hjarta sínu, en sýnir hana nauðbeygð, af því hún verður að segja eins og Guðmundur biskup góði forðum: „Nú má jeg ekki, vesalingurinn minn“. Ljós dœmi upp á þetta, og sönnun þess, að páfarnir heimti sjer enn þá yfirráð yfir veraldlegum ríkjum, er aðferð ýmissa þrekmikilla páfa síðari tíma, jafnvel frá þessari öld. Þannig kvartar Píus páfi 7. í erindisbrjefi sendiboða síns í Vínarborg 1805 yfir því með þungum orðum, „að kirkjan, brúður Jesú Krists, sje á þessum spilltu tímum í slíku niðurlægingarstandi, að hún geti ekki tekið sjer til umtals, því síður framfylgt hinum heilaga fornrjetti sínum, að setja frá ríkjum villutrúarhöfðingja, sem óhlýðnist trúnni; en þó kirkjan geti ekki fullnœgt þessum rjetti sínum, að svipta villuhöfðingja löndum, þá megi hún ekki nokkru sinni gefa samþykki sitt til þess, að hún sjálf verði fyrir tjóni, með því að játa slíkum mönnum ríki og lönd“. Þessi sami páfi lýsti, eins og kunnugt er, stórmælum yfir Napóleon keisara mikla og

aðstoðarmenn hans 1809, og í bannfæringarskrá páfans segir svo: „Þjer skuluð vita, að þjer eruð eptir guðs lögum undirgefnir voru valdi, nema að svo sje, að holdið eigi að ráða fyrir andanum, jarðarinnar gagn að ganga fyrir gagni himinsins“. Þetta sýnir, að páfarnir hafa ekki gleymt kröfum sínum, en bíða betri tíma og sitja um að fylgja fram rjetti sínum, hve nær sem færi gefst, sem yfirbjóðendur allra veraldlegra ríkja og höfðingja. Eptir þessari grundvallarreglu er það sjálfsagt, að páfinn hlýtur, eins og hver höfðingi, að hafa sitt ríki sjer til veraldlegra umráða, eiga sitt kirkjuríki, og hafa þar á hendi sameinaða hina æðstu kirkjulegu og veraldlegu stjórn. Þess vegna á guð sjálfur að hafa gefið Pjetri postula ríki og lönd sjer í Ítalíu, sem guðhræddir höfðingjar veraldlegir hafa stundum aukið með gjöfum í þakklætisskyni við hið postullega sæti, og þetta ríki á að hafa gengið að erfðum til páfanna sem eptirmanna Pjeturs postula að guðlegum rjetti, sem arfleifð seti. Pjeturs (*patrimonium Petri*), þó sagan sýni, að páfarnir hafi fengið þetta að mannlegum rjetti, fyrir náð veraldlegra höfðingja á 8. öld.

Þetta er stutt ágrip af lærdómsbyggingu páfaflokksins um hið kirkjulega einveldi páfans. Þessi mikilfenglega bygging hefur ekki orðið til allt í einu; hún hefur lengi verið í smíðum. Rómversku biskuparnir hafa þegar frá öndverðu, hver fram af öðrum, öld eptir öld, unnið að hinu sama miði, lagzt samhuga og í sama anda á það, að hefja vald rómverska biskupsstólsins til ótakmarkaðs páfalegs ein-

veldis. Þetta tókst á miðöldunum eptir daga Gregoríusar 7. Í byrjun 13. aldar, þegar Innócentíus 3. var páfi, stóð hin stórkostlega kirkjubygging algjör. Páfarnir höfðu kúgað þjóðir og konunga til hlýðni, og þannig fram fylgt í verki kröfum sínum, að þeir væru allsherjar- einvaldsstjórar á jörðu. Þetta páfalega allsherjarveldi fjekk þá upp frá því fastari fótfestu; það varð ekki einungis að vana, heldur að rjetti, með því það var varið og rjettlætt af lögfræðingum og guðfræðingum kirkjunnar, festist þannig í meðvitund tímans og varð að lögum í hinum páfalega kirkjurjetti *(jus canonicum)*, sem í öllum aðalatriðum stendur óhaggaður hjá kirkjunni til þessa tíma.

Það er fyrir utan takmörk þau, sem jeg hef sett mjer á þessum stað, að lýsa í hinum einstöku atriðum fyrirkomulagi þessarar páfalegu stjórnarbyggingar, og sýna, með hverjum ráðum og meðulum framkvæmdarvaldinu er hagað, svo að páfinn verði allt í öllu, og alstaðar nálægur í kirkjunni; því hjer vildi jeg einungis benda á aðalstefnuna og aðalatriðin í stjórnarbyggingunni. Einungis skal þess getið, að öll þessi bygging er svo kœnlega samsett, öllu svo haganlega fyrir komið og stjórnað, að allt verður samtaka í einu og sama ætlunarverki og sama miði, að halda uppi páfavaldinu; svo það er óhætt að fullyrða, að mannlegt hyggjuvit hafi ekki upp hugsað viðsjálari samsetningu; því engin stjórnarskrá veraldlegra ríkja getur komizt í samjöfnuð við stjórnarbyggingu rómversku kirkjunnar, hvorki í tilliti til

vjelalegrar samsetningar í stjórnarskipuninni, nje í tilliti til kœnlegs fyrirkomulags, atorku, árvekni, og óþreytandi samkvæmni í framkvæmdarvaldinu. Hinir helgu feður í Róm hafa borið af flestum konungum í veraldlegri slœgvizku og stjórnkœnsku, og tekizt betur en nokkrum höfðingja þessa heims, að gjöra kirkjuna að ríki af þessum heimi; og þessari bygg-ingu hafa þeir komið upp með hinni ókristilegu und-irstöðu, sem allt styðst á, að yfirstjórn páfans og klerkavaldið sje guðleg stofnun, og með því að inn-rœta kristnum þjóðum trúna á þessa ókristilegu und-irstöðu.

Þessi páfavaldskenning hefur fengið mótmæli í rómversku kirkjunni sjálfri hjá hinum flokknum, hin-um svo nefnda biskupaflokki. Lærdómsbygging þessa flokks er kennd við biskupana, af því hinn kirkjulegi yfirgangur og ofstopi páfanna í Róm, sem allsherjar-biskupa, var tilfinnanlegastur áliti og embættisstjórn allra annara biskupa í kirkjunni, og því risu mót-mælin móti hinu páfalega einveldi eðlilega frá bisk-upunum og þeirra talsmönnum. Hjer skal því fara nokkrum orðum um lærdómsbyggingu biskupsmanna. Þessi flokkur hefur aðra skoðun á valdi og myndug-leika páfans og biskupanna heldur en páfamenn. Hann játar að vísu guðlega stofnun klerkavaldsins og yfirstjórn kirkjunnar (*primatus*), en dregur aðrar ályktanir út af þessum lærdómi. Biskupaflokkurinn kennir, að skilji menn rjett orðin, Matt. 16, 18., þar sem Kristur fær Pjetri postula í hendur lykla himna-ríkis, þá eigi allir postularnir að innibindast í þeim.

Pjetur var að vísu helzti postuli, en hann er þar ávarpaður sem fulltrúi hinna. Pjetri var því ekkert sjerstakt œðra vald fengið í hendur; og samkvæmt því hefur páfinn eptirmaður Pjeturs, ekkert sjerlegt vald erft fram yfir aðra biskupa, nema einungis að nafnbótinni til, að hann er helzti biskup, eins og Pjetur var helzti postuli. Allir biskupar hafa því vald sitt beinlínis frá Kristi, en ekki frá páfanum; því sjerhver biskup er eptirmaður postulanna, og á að hafa yfirstjórn í sínu biskupsdœmi, eins og eptirmaður postulanna, svo allir biskupar í einingu mynda líkama kirkjunnar; í þeim öllum er hið guðlega vald og myndugleiki kirkjunnar sýnilegur; á kirkjufundunum, þar sem biskuparnir eiga ráðstefnu, er því kirkjan öll samankomin og allt vald hennar. Nú getur kirkjan aptur fengið páfanum í hendur eins og að ljeni framkvæmdarvaldið, falið honum á hendur, að hafa yfirumsjón yfir öðrum biskupum. Þar af leiðir, að páfinn er ekki einn fulltrúi kirkjunnar, heldur einungis í sameiningu með öðrum biskupum. Hinir almennu kirkjufundir mynda þess vegna einveldi kirkjunnar, hafa œðsta löggjafar- og dómsvald hennar; dómum páfans má skjóta til þeirra. Páfanum ber að vísu, sem helzta biskupi, forsæti á kirkjufundunum, en greini hann á við fundinn, eða sje sundrung á kirkjufjelaginu, má bæði kalla saman fundi án páfa, og páfinn er, eins og hver annar biskup, undirgefinn dómsvaldi fundanna, og þeir geta dœmt frá völdum páfa, sem þverskallast, ef þörf gjörist; því þó rómverski biskupinn sje andlega sjúkur eða

dauður, þá er þó ekki kirkjan öll sjúk. Páfanum getur því sem öðrum skjátlazt í trúarefnum; hann er ekki skilyrðislaust óyggjandi (*infallibilis*), nema í páfasætinu á kirkjufundunum. Það, sem hann talar þar (*e cathedra in concilio*), er algjörlega áreiðanleg og óapturkallanleg lög kirkjunnar; því þá helgast áreiðanlegleiki páfans af kirkjufundinum, sem er innblásinn af heilögum anda, og þess vegna getur ekki villzt í trúarefnum. Í vanda- og vafa-málum má leita álits páfans; því eptir stöðu sinni á hann að halda uppi friði og samlyndi í kirkjunni með áliti sínu, styðja hana með ráðum og allri aðstoð á tíma neyðarinnar; en ekki er hann þar fyrir kallaður til þess, að vera æðsti dómari kirkjunnar, eins og páfarnir hafa heimildarlaust viljað leggja inn í þessa köllun sína. Áminningar hans og leiðbeiningar eru engin kirkjulög; hver annar biskup getur hafnað þeim, ef þær eru ókirkjulegar, og ganga á rjett annara biskupa og vald, því páfinn á, eins og hver annar biskup, að hlýða kirkjulögunum, en getur ekki í sínu eigin nafni sett ný lög eða ónýtt gömul; en skylda hans er, og rjett hefur hann sem helzti biskup, að hafa vakandi auga á, að kirkjulögunum sje hlýtt. Páfinn þarf ekki að staðfesta gjörðir kirkjufundanna, því sjerhver almennur kirkjufundur, löglega kallaður saman, hefur beinlínis vald sitt frá Kristi sjálfum, og úrskurðum hans eiga allir að hlýðnast.

Þessi flokkur tilfærir ýmisleg rjettindi, sem hann segir að páfinn hafi einungis að manna lögum (*jure humano*), og megi því svipta hann aptur. Þar til

teljast kröfur páfanna, að draga undir sinn dóm öll heldri mál, staðfesting og vígsla biskupanna, stofnun nýrra biskupsdæma, rjettur til að taka í tölu helgra manna, o. s. frv. Rjett til þessa hefur páfinn ekki að guðlegum lögum, en hann hefur smásaman frá 5. og 6. öld náð þessu í hendur sjer að mannlegum lögum, með samningum, og kirkjan getur því, hve nær sem hún vill, kippt þessu úr höndum páfans, og úthlutað því biskupunum sem umboðsmönnum sínum, og jafnkjörnum til þess páfanum. Aptur eru ýmisleg rjettindi, eptir skoðun þessa flokks, sem páfinn gjörir tilkall til, en sem eru einungis heimildarlausar kröfur, og hann hefur engan rjett til, hvorki að guðs nje manna lögum. Þannig er hið veraldlega ríki rómversku biskupanna, kirkjulöndin, sem þeir stjórna eins og veraldlegir höfðingjar, sem páfarnir skoða eins og guðlega tilskipun, og þykjast ráða yfir eins og erfðafje eptir Pjetur postula, ekkert annað en ástæðulaus krafa, því þetta ríki hafa þeir fengið smátt og smátt frá 8. öld fyrir náð og vináttu veraldlegra höfðingja, en drottnunargirni og yfirgangur hefur knúð þá til að eigna sjer þetta vald að guðlegum lögum. Þar með telst einnig sú kenning, að páfinn sje yfirmaður veraldlegra höfðingja, keisara og konunga í veraldlegum efnum, sem allir smjaðursmenn páfans, einkum jesúítar flytja. Þessi lærdómur, segja biskupsmenn, er sprottinn af misskilningi, og átti heima á þeim tímum, þegar menn hugsuðu sjer páfann einvaldsbiskup kirkjunnar, og hann ein-

an sýnilegt verkfœri guðs, til að stjórna öllum ríkjum heimsins.

Þetta eru aðalatriðin í lærdómi biskupsmanna. Nú skulum vjer bera báðar þessar lærdómsbyggingar saman sín á milli, og síðan skoða þær frá sjónarmiði prótestantisku kirkjunnar.

Lærdómsbygging biskupsmanna er komin upp eins og eðlileg mótspyrna móti hinum páfalega yfirgangi, sem ógnaði öllu frelsi, bæði kirkjulegu og borgaralegu, bersýnilegum dauða; og þessi stefna hefur miklu góðu komið til leiðar í rómversku kirkjunni, með því hún hefur sett nokkrar skorður hinum páfalega ofstopa, sem með einvaldsharðstjórn ætlaði að bœla undir sig biskupa kirkjunnar og konunga veraldlegra ríkja.

Lærdómsbygging páfamanna fer fram á ótakmarkað kirkjuveldi, sem leggja vill þrældómsok á allt hugsunar- og trúar-frelsi, og draga allt kirkjulegt vald úr höndum biskupanna og saman í hendur páfans eins. Þessi stefna er þannig í eðli sínu fullkomin kirkjuleg harðstjórn, og hlýtur að leiða til hennar[1]. Lærdómsbygging biskupsmanna er þar á móti í eðli sínu heldri manna stjórn *(Aristokratie)*, og vill koma upp frjálslyndari kirkjustjórn í lýð-

---

[1]) *„Ista plenitudo potestatis licentiose exsultat, quae nihilo minus potest a tyrannide sejungi, quam ignis a calore suo“. Calvin.*

Þ. e.: þessi fylling valdsins fer að eins og taumlaust sjálfræði, og er jafn óaðgreinanleg frá harðstjórn, sem eldurinn frá hita sínum.

stjórnarlögun, með því að skipta einveldi páfans milli allra biskupa kirkjunnar, og leggja allt kirkjuvaldið í hendur kirkjufundanna, fulltrúaþinga kirkjunnar. Þó þessi stefna kœmi fyrst fram með afli í kirkjunni á 15. öld, sem mótspyrna móti langvinnri páfalegri undirokun, og rótfestist í kirkjunni eptir kirkjufundina miklu á 15. öld í Costnitz og Basel, sem eru hyrningarsteinninn undir þessari frjálsari kirkjustjórn í rómversku kirkjunni, þá er þó uppruni hennar langtum eldri. Upphaflega var engin einvaldsstjórn í kirkjunni; kristin kirkja lifði blómlegu lífi, löngu áður en nokkuð fór að bera á einvaldsstefnu í henni. Hinir almennu kirkjufundir, sem urðu algengir frá 4. öld, höfðu í höndum sjer œðsta kirkjuvald, bæði í trúar- og stjórnar-efnum, og sjerhvert kristið land hafði þegar frá 2. öld haft landskirkjufundi, sem haldnir voru hvert ár[1], til að rœða kirkjuleg málefni safnaðanna. Þetta sýnir, að hinn frjálsari andi hefur legið til grundvallar í hinni elztu kirkju. Af orðum margra kirkjufeðra frá 3. og 4. öld má sjá hið sama, að þeir hafa ekki þekkt hugmyndina um sýnilegt kirkjueinveldi, því þó þeir opt tali um einingu kirkjunnar á móti flokkadrætti villutrúarmanna, sem aflöguðu Krists lærdóm, þá eiga þeir ekki við einingu í skilningi rómversku kirkjunnar, heldur í sannkristilegri þýðingu einingu trúar og kærleika, sem eigi að vera band friðarins í hinni sýnilegu kirkju; þannig segir Augustínus biskup, † 430: „Þetta lyklavald hefur enginn einn maður fengið í hendur, heldur

[1]) Smb. Neanders kirkjusögu, I, bls. 353.

eining kirkjunnar; en hann sagði þetta Pjetri, þar eð Pjetur þá kom fram í nafni kirkjunnar allrar[1]". Í sama anda hafði Cýpríanus biskup í Kartagóborg fyrir Augustínusar daga borið á móti því, að rómverski biskupinn hefði vald fram yfir aðra biskupa, þegar ágreiningur kom upp um það efni milli hans og Stepháns biskups í Rómaborg. Cýpríanus biskup skýrskotar til kristilegs frelsis, sem kristnir söfnuðir hafi í kirkjulegum málefnum, og ber jafnvel rómverska biskupinum á brýn villutrú. Þessir menn hefðu því ekki getað álitið lærdóminn um hið páfalega einvaldsdœmi, eins og hann löngu eptir þeirra daga kom upp í kirkjunni, annað en ókristilegan villulærdóm. Öll saga kirkjunnar sýnir eins á eptir, að hin upphaflega biskupa- og kirkjufunda-stjórn hjelzt lengi við, án þess að rómversku biskuparnir hefðu nokkra einvaldsstjórn, þó þeir snemma notuðu hvert tœkifœri, sem bauðst, til að auka vald sitt. En smátt og smátt fœrðist kirkjan að einvaldsstjórnarlöguninni í allri stefnu sinni, og það varð tilefni til þess, að hefja biskupinn í Rómaborg í páfasessinn, eða til þess, að gjöra hann að yfirbiskupi allra annara biskupa. Og þetta yfirbiskupsvald fór sívaxandi öld eptir öld, þangað til páfavaldið var orðið að kirkjulegu harðstjórnarvaldi í byrjun 13. aldar. Eptir langvinna kirkjulega kúgun vöknuðu fyrst aflmikil mótmæli með

---

[1]) *„Has claves non homo unus, sed unitas accepit ecclesiae; sed hoc Petro dixit, quia Petrus universae ecclesiae personam tunc gerebat"*.

siðabótartilraununum á 15. öld, og hinar frjálslyndari grundvallarreglur fengu einkum fyrst fótfestu í frakknesku kirkjunni, sem lengi hafði notið meira frelsis en aðrar kirkjur, einkanlega frá dögum Loðvíks helga 1268. Frakkneskir guðfræðingar og lögfræðingar á háskólanum í París börðust fyrir hinni frjálslyndari kirkjuskoðun, komu henni í samanhangandi lærdómsbyggingu, og vörðu hana í ritum sínum, einkanlega hinir nafnfrægu guðfræðingar: Pjetur Allíacus[1], Niculas de Clemangis[2], og Jóhann Gerson[3]. Og þessi frjálsari stefna rjeð á kirkjufundunum miklu í Costnitz og Basel á 15. öld, sem ekki einungis vildu koma af hinni kirkjulegu sundrungu, heldur og koma á kirkjulegri stjórnarbót í öllu tilliti. Ákvarðanir þessara funda voru því teknar tveim höndum af frakknesku stjórninni, og urðu að lögum undir stjórn Karls konungs 7. 1438. Á kirkjufundinum í Tríent 1545 – 63, sem haldinn var, til að tryggja rómversku kirkjuna gegn prótestantiskum anda, lýsti sjer hinn sami frelsisandi að takmarka vald páfans. Einkum voru frakkneskir og spánskir biskupar samtaka á móti páfastjórninni, og gagnteknir af innilegri löngun að koma á verulegri kirkjubót, og afmá hina páfalegu

---

[1]) *De reformatione ecclesiae* (um kirkjubót).

[2]) *Disputatio super materia concilii generalis* (rannsókn um almennan kirkjufund).

[3]) *De potestate ecclesiastica* (um hið kirkjulega vald), og *De auferibilitate papae ab ecclesia* (um það, hvort víkja megi páfanum frá völdum).

óstjórn. Þó komst páfinn út úr þessum hreinsunareldi með óskertri páfatign fyrir hjálp síns flokks, sem bar ofurliða hinn frjálslyndari flokk. Á ákvörðunum fundanna í Costnitz og Basel eru byggðar 4 greinir frakknesku klerkanna, sem samdar voru undir stjórn Loðvíks 14. 1682 (*quatuor propositiones cleri Gallicani*). Þessar greinir tóku skýrt fram aðalatriðin í hinum frjálslyndari kirkjurjetti, sem skyldi ráða í Frakklandi, og setja þar takmörk yfirgangi páfans. Inntak greinanna er þetta: 1. Jafnan skal að greina andlegt vald páfans frá valdi veraldlegra höfðingja; páfanum skal ekki haldast uppi, að eigna sjer vald yfir veraldlegum ríkjum, sízt til þess, að svipta konunga völdum, eða leysa þegna undan hollustueiði. 2. Ákvörðun fundarins í Costnitz sjeu lög, að páfinn og andlegt vald hans sje undirboðinn almennum kirkjufundi, og skyldur að hlýða honum. 3. Eldri frakknesk kirkjulög skulu takmarka og ráða framkvæmdarvaldi páfans í Frakklandi. 4. Páfinn er að vísu æðsti dómari í trúarefnum, þó er dómur hans því að eins óyggjandi, að hann styðjist á áliti kirkjunnar allrar. Eptir skipun Loðvíks 14. varði hinn nafnfrægi biskup Bossuet þessar greinir í varnarriti: *Defensio declarationis conventus cleri Gallicani*, og andi þeirra staðnæmdist ekki einungis í Frakklandi; hann fjekk fljótt inngöngu í öðrum katólskum löndum. Kirkjufundurinn í Pistoju og gjörðin í Ems 1786, þegar þýzku biskuparnir harðlega mótmæltu yfirgangi páfans, eru byggðar á þessum greinum. Þessi sami frelsisandi hefur ráðið í síðari kirkjulög-

gjöf Frakka, bæði hinum svonefndu „organisku“ greinum 1801, og tilskipunum Napóleons keisara mikla, sem fóru því fram, að afmá páfavaldið. Úrskurður keisarans 1809 skipaði, að taka allt veraldlegt ríki af páfanum; kirkjulöndin voru sameinuð Frakklandi, og páfinn fluttur í varðhald. Keisarinn ásetti sjer, að fram fylgja þeirri grundvallarreglu, að biskupar skyldu stýra kirkjunni án páfa, en með tilsjón veraldlegrar stjórnar, og hver páfi skyldi vinna eið að hinum 4 greinum frakknesku klerkanna, sem áður eru nefndar, þegar hann tæki við embætti sínu. Allt fyrir það raknaði úr öllum þessum vandræðum páfans eptir ósigur Napóleons keisara. Stórveldin lögðust á eitt, unnu öll lönd páfans aptur, og settu hann í páfasætið. Píus páfi 7. settist eptir allan þann mótgang, sem yfir hann hafði gengið í stjórnarbyltingunni, aptur í sæti sitt, eins og ekkert hefði í skorizt, og það var eitt hans fyrsta verk, að koma upp aptur flokki jesúítanna, þessum þjónustusömu öndum allrar páfadómsvillu, sem verið höfðu áður út flæmdir úr öllum löndum, af því þeir voru öllum mönnum hvumleiðir, og loksins hafði Clemens páfi 14., þó nauðugur væri, látið til leiðast, að af nema flokk jesúíta 1773. Þennan orðræmda flokk stofnsetti Píus páfi 7. aptur 1814, og lýsti því yfir skömmu síðar, 1817, „að biflíufjelög prótestanta væru eitur í kristninni“. Þetta hvorttveggja sýndi berlega, að páfavaldið var ekki búið að gleyma sjálfu sjer, og í hverjum anda páfarnir ætluðu að stjórna; enda tókst bæði þessum, og næstu eptirmönnum hans, að tryggja með samn-

ingum við veraldlega höfðingja rjettindi rómverska stólsins í öllum löndum. Stjórnarbyltingin frakkneska 1830 var að sönnu mikil reynsla og raun fyrir páfann og vald hans, því kirkjustjórnarbótin veitti öllum kirkjum í Frakklandi jafnrjetti, og lýsti því, að rómverska katólska kirkjan væri einungis kirkja meira hluta þjóðarinnar. Með þessu virðist reyndar sú grundvallarregla sett, að rómverska katólska kirkjan hafi ekki ein einkaleyfi lengur sem ríkistrú, því í orðunum sýnist bent til, að hún geti, ef til vill, orðið kirkja minna hlutans. Allt fyrir það, þó hinn frjálslyndari biskupaflokkur hafi áhangendur í öllum katólskum löndum, einkum í Frakklandi, hefur þó rómverski stóllinn komið svo ár sinni fyrir borð, að vald og álit páfans er játað í öllum katólskum löndum, og páfavaldið hefur, ef til vill, aldrei hugsað sjer hærra, heldur en nú einmitt á þessum tímum, þar sem trúarboðar hins páfalega sætis vaða ekki einungis um öll heiðin lönd, heldur og til allra prótestantiskra þjóða, í fullu trausti til þess, að þeir muni geta fært sjer í nyt síðustu frelsishreifingar prótestantiskra landa, og leitt þau aptur til hlýðni við páfann. Einkanlega eru jesúítar nú, sem áður, ötulastir verkamenn kirkjunnar; þessir óþreytanlegu kennimenn páfadómsins, sem frá upphafi vega sinna hafa verið slægir sem höggormar, en aldrei einfaldir sem dúfur, geta eptir þörfum tímans hleypt sjer í allra kvikinda líki, ýmist komið fram sem saklaus lömb, eða sem glepsandi vargar. Samkvæmt hinni

orðrœmdu siðafrœði þeirra[1], einkum hinni alkunnu setningu, „að tilgangurinn helgi meðalið“, má búast við af þeim, að þeir beiti öllum upphugsanlegum brögðum, til að ná tilgangi sínum, grimmd og ofríki, þar sem það á við, mútum og peningum, ef svo stendur á, falsi, fagurgala og vjelalegum fortölum, þar sem þau vopn bíta. Sagan hefur sýnt, að þessir menn hafa jafnan verið manna skarpskyggnastir á, að uppgötva bresti mannlegrar náttúru, og komast að því, hvar hver er veikastur fyrir; en jafnframt flytur hún eins mörg dœmi þess, hversu þessari skarpskyggni hefur verið beitt, samkvæmt allri stefnu flokksins, ekki í anda kristilegra hygginda, heldur í anda veraldlegrar slœgvizku, ekki til þess, að upp rœta brestina, heldur til þess, að nota þá í þjónustu holdsins, til að framkvæma eigingjarnan tilgang jesúíta sjálfra.

---

[1]) Í Neapel er eptir skipun Ferdínands konungs, sem nú situr þar að völdum, lögleidd í skólunum barnalærdómsbók, samin af presti einhverjum rómversku kirkjunnar, sem flytur meðal annars þessa kenningu, „að allir frjálslyndir (Liberale) glatist eilíflega, að konungar megi eptir geðþótta brjóta eiða sína, ef það sje í hag páfalegu eða konunglegu einveldi, og að höfuð kirkjunnar, páfinn, geti leyst menn frá eiði, ef hann finni sennilega ástœðu til“.

Af þeirra ávöxtum skuluð þjer þekkja þá! Sú kirkja, sem lætur innrœta börnunum þvílíkan siðalærdóm, ber sjer sjálf ljósastan vitnisburð um það, hve hrein kristileg trú og andi lifi í henni. Smb. *Wylie: Pavedömmets Historie, Lærdomme, Aand og Udsigter, i Clausens Nyt Tidsskrift for udenlandsk theologisk Litteratur. 1856.*

Þó hin frjálsari stefna hjá flokki biskupsmanna hafi komið talsverðu góðu til leiðar í rómversku kirkjunni í tilliti til kirkjustjórnar og kirkjurjettar yfir höfuð, með því að setja nokkur takmörk óbærilegum yfirgangi páfavaldsins, þá er það samt víst, að lærdómsbygging þessa flokks samsvarar engan veginn andastefnu rómversku kirkjunnar, en að lærdómur páfamanna er hin rjetta lærdómsbygging hennar, og einmitt sú kenning, sem hinn páfalegi kirkjurjettur fer fram á, og liggur fólgin í lagasafni kirkjunnar. Kenning biskupsmanna er byggð á sömu trúarundirstöðu sem lærdómur páfaflokksins, það er að skilja: lærdóminum um sýnilegt klerkavald, sem gengið hafi að erfðum frá postulunum; því segir þessi flokkur, að kirkjan hafi jafnan þurft að hafa sitt sýnilega stjórnarvald á kirkjufundunum, sem sjeu yfir páfanum eins og hverjum biskupi. En þetta er hvað á móti öðru, og með því fellir þessi lærdómsbygging sig eins og hin. Því kirkjufundirnir eru einungis millibilstilskipun; þeir koma saman við og við, þegar einhver þörf kallar, en þegar þeir eru ekki saman komnir, verður kirkjan auðsjáanlega forstöðulaus; hana vantar þá hinn sýnilega stjórnara, sem hún þó aldrei getur án verið eptir lærdómsbyggingu flokksins sjálfs. Þannig er auðsjeð, að þessi lærdómsbygging er hálfvelgja, og verður sjálfri sjer ósamkvæm, gjörir ráð fyrir stjórn, sem ekki getur átt sjer stað. Þessi stefna ber á sjer öll merki þess, að hún er komin upp sem mótspyrna móti yfirgangi páfans, og sem tilraun til að koma á kirkjubótarverki; en af því hún

hefur numið staðar á miðri leið, ekkert haggað við hinum ranga grundvelli, en að eins kákað við ýmsa ytri smábresti, þá hefur verkið allt orðið hálfverk, eða í rauninni fellt sig sjálft með því, að komast í mótsögn við sjálft sig. Lærdómsbygging páfaflokksins hefur þar á móti það til síns ágætis fram yfir hina, að hún er sjálfri sjer samkvæm. Því úr því það er trúarlærdómur, að kirkjan þurfi nauðsynlega að hafa sýnilega stjórn, útbúna guðlegum myndugleika, þá verður þessi lærdómur að eintómu hugmyndasmíði, ef menn ekki hugsa sjer þennan myndugleika í höndum eins ótakmarkaðs sýnilegs kirkjueinvaldsstjóra, því lærdómurinn um sýnilega guðsstjórn og klerkavald í kirkjunni leiðir, þegar hann er rakinn sjálfum sjer samkvæmt, til lærdómsins um páfann sem einvaldan kirkjukonung, er stjórni í stað Krists, hins ósýnilega konungs kirkjunnar.

Þegar lærdómsbygging biskupsmanna er skoðuð frá prótestantisku sjónarmiði, verður þess vegna hinn sami dómur að ganga yfir hana sem kenningu páfaflokksins, því báðar styðjast á hinni sömu afbökun kristilegrar trúar, sömu grundvallarvillu í lærdóminum um kirkjuna. Að vísu má játa því, að kenning biskupsmanna stendur nær prótestöntum, heldur en páfamanna, hvað kirkjurjettinn snertir og hið ytra fyrirkomulag kirkjunnar. Því flokk biskupsmanna má í því tilliti telja nokkurs konar prótestanta í rómversku katólsku kirkjunni, og að því leyti voru kirkjufundirnir miklu á 15. öld og tilraunir þeirra mikill undirbúningur undir siðabót Lúters og Zwinglis á 16.

öld. Prótestöntum og biskupsflokknum ber saman í því, að neita yfirgangi hins rómverska biskups og ótakmörkuðu einveldi páfans. Það var eðlilegt, að höfundar siðabótarinnar rjeðust með alefli á lærdóminn um einveldi páfans, og enginn lærdómur katólsku kirkjunnar væri þeim eins hneykslanlegur sem hann; því í honum felst yfir höfuð öll hin stórkostlega afbökun, sem kristindómurinn hefur orðið fyrir í rómversku kirkjunni. Með þessari kenningu er Kristi, hinum eilífa konungi kirkjunnar, vikið úr konungssæti sínu, en í það hafinn aptur breyskur maður; páfinn er gjörður að drottni kirkjunnar og jarðneskum guði. Prótestantar hafna því þessum lærdómi sem andstyggilegri hjáguðadýrkun[1]. Og með því rómverska katólska kirkjan hefur byggt á þessum lærdómi alla óhœfu sína og alls konar óheyrilegar mannasetningar, eins og væri það boð drottins sjálfs, og með því leitt sálirnar frá Kristi og í glötunina,

[1]) *„Haec doctrina praeclare ostendit papam esse verum Antichristum, qui supra et contra Christum sese extulit et evexit, quandoquidem christianos non vult esse salvos sine sua potestate, quae tamen nihil est, et a deo nec ordinata nec mandata est. Hoc proprie loquendo est, se efferre supra et contra deum, sicut Paulus, 2. Tess. 2, loquitur“. Art. Smal.*

Þ: e.: þessi lærdómur sýnir ágætlega, að páfinn er Antikristur sjálfur, sem hafið hefur sig upp yfir Krist og á móti honum, með því hann vill ekki, að kristnir menn verði sáluhólpnir nema með sínu valdi, sem þó er ekkert, og hvorki tilsett af guði eða skipað. Þetta er í sannleika að hefja sig yfir guð og gegn honum, eins og Páll talar um, 2. Tess. 2.

er þessi páfatrú ekki einungis hjáguðadýrkun, heldur má telja hana tilbeiðslu hins vonda anda sjálfs[1]. Þess vegna sögðu prótestantar allir fullkomlega skilið við páfann og allt hans ríki á fundinum í Schmalkalden 1537.

En prótestantar neita ekki einungis lærdóminum um páfavaldið, og allri þeirri andstyggð, sem af þessum lærdómi leiðir; þeir neita einnig, eins og áður er sagt, öllum klerkavaldslærdómi, í hverri lögun sem hann kemur fram, hvort heldur sem einveldi (páfastjórn), eða fulltrúastjórn á kirkjufundunum, í mörgum smápáfum, biskupunum. Þess vegna mótmæla prótestantar eins lærdómsbyggingu hins frjálslyndara flokks, og leggja hinn sama dóm yfir kenningu hans sem páfamanna. Heilög ritning talar hvergi um biskupana sem sjálfsagða, og einkaerfingja að náðargáfum postulanna, því síður gefur hún þeim nokkurstaðar

---

[1]) „*Quare sicut diabolum ipsum non possumus adorare, et pro domino et deo colere, ita nec ejus apostolum, papam seu Antichristum in regno ejus ut caput et dominum ferre possumus. Mentiri enim et occidere, animas et corpora in aeternum perdere, pontificii regni proprium est, sicut hoc ipsum multis libris evidentissime demonstravi*“. *Art. Smal.*

þ. e.: þess vegna, eins og vjer ekki getum tilbeðið djöfulinn sjálfan, eða tignað hann í staðinn fyrir guð og drottin vorn, eins getum vjer ekki þolað hans postula, páfann eða Antikrist, í ríki hans, eins og höfuð og herra. því að ljúga og deyða, glata sálum og líkömum eilíflega, það er einkennilegt ríki páfans, eins og jeg ljóslega hef fært sönnur á í mörgum bókum.

fyrirheiti um, að fá sínum eptirmönnum í hendur æðri náðargáfur eða myndugleika til yfirnáttúrlegs valds. Kristur heitir þar á móti náðargáfum sínum og anda öllum trúuðum lærisveinum yfir höfuð, Jóh. 14, 12, en bindur hvergi fyrirheitið um andann við vissa menn eða stjett, sem eptir ytri erfðarjetti einir skuli ómótmælanlega eiga tilkall til hans. Í ritningunni er hvergi fyrirheiti gefið kirkjufundunum um óbrigðula nálægð andans; því orð Krists hjá Matt. 18, 20., sem katólskir guðfræðingar hártoga um kirkjufundi rómversku kirkjunnar, heita sjerhverri samkomu í „Jesú nafni“ nálægð drottins, það er að skilja: sjerhverjum fundi, sem stjórnast af kristilegum anda og hugarfari, hvort sem það eru margir menn eða fáir.

Eins og prótestantiska kirkjan neitar óbrigðulleika páfans, eins neitar hún líka kirkjufundunum um óbrigðulan guðlegan myndugleika og vald. Biskupunum á kirkjufundunum getur skjátlazt, eins og hverjum öðrum mönnum. „Kirkjufundirnir merkja að vísu Krists kirkju, en þar fyrir er ekki sagt, að þeir sjeu Krists kirkja“, segir Lúter; „því hver getur fullvissað þá og oss um, að heilagur andi sje af neyð skuldbundinn til að vera á samkomum þeirra“? Prótestantiska kirkjan játar því engan annan stjórnara yfir kirkjunni, engan annan kirkjukonung, heldur en hinn ósýnilega andlega konung, Jesús Krist, og eignar sjer þess vegna ekkert annað vald, heldur en vald sannleikans, það sem konungur sannleikans veitir henni, guðsorð og tilskipanir Krists. Því í gegnum þessi náðarmeðul sendir Kristur kirkjunni anda sinn, með

þeim dregur hann menn til trúarinnar, með verkunum heilags anda; en þessi dráttur er engin kúgun eða ytri nauðung, heldur andlegur dráttur sannleikans, og þess vegna það sama sem frelsið sjálft, því þar sem guðs andi er, þar er frelsi; 2. Kor. 3, 17. Því verða kirkjufundirnir, eins og allt annað mannlegt, að játa yfir sjer æðra vald og myndugleika, sem þá ber að meta eptir og dœma. Þetta vald er heilög ritning[1]; hún er hjer, sem annarstaðar, lögmál og regla. Samkvæmt því neitar prótestantiska kirkjan líka, að stofnari kirkjunnar hafi í öndverðu sett kirkju sinni nokkrar ytri fastar tilskipanir og reglur fyrir stjórn hennar, sem skyldu standa óhaggandi handa öllum þjóðum um aldur og æfi. Kristur hefur engar reglur sett um þetta, aðrar en þær, sem orð hans, heilög ritning, inniheldur. Hún flytur oss guðs opinberaða vilja, allt það, sem öllum er nauðsynlegt og

---

[1]) *„Omni spiritui credere vetat Johannes, sed explorare nos docet spiritus, an ex deo sint; ad quem vero lapidem probabimus, quam ad eum, qui factus est in caput anguli. Ergo scriptura erit super concilia; nam concilia, ubi inter se dissentiunt, nulla alia ratione quam sacrae scripturae judicari possunt“. Zwingli.*

Þ. e.: Jóhannes bannar, að trúa öllum anda, en hann býður oss að prófa andana, hvort þeir sjeu af guði; en hvern prófstein ættum vjer að hafa til þess, annan en hann, sem orðinn er að hyrningarsteini. Þess vegna er ritningin yfir kirkjufundunum; því þegar þeir eru ósamþykkir sín á milli, verður ágreiningurinn ekki metinn með nokkru öðru móti en heilagri ritningu.

nóg að vita til sáluhjálpar. Krists orð í heilagri ritningu á því að vera og er kirkjunni eilíflega næg leiðarstjarna í allri tilhögun og ytri stjórn, því í gegnum þetta orð veitist kirkjunni heilagur andi[1], og hans leiðbeining til að tryggja sig fyrir allri villu og ókristilegum mannasetningum, en setja sjer reglur og tilskipanir, og laga alla stjórn sína og fyrirkomulag á hverjum tíma í kristilegum anda kirkjunni til uppbyggingar. Þar af leiðir, að prótestantiska kirkjan neitar, eins og áður er útlistað, lærdómi rómversku kirkjunnar um mismun á valdi og myndugleika milli postulanna innbyrðis (*primatus Petri*), og allri klerkavaldsbyggingu kirkjunnar, sem á því er byggð, sömuleiðis kenningu rómversku kirkjunnar um mismuninn milli klerka og leikmanna. Það á sjer, eptir lærdómi prótestanta, enga fótfestu í guðsorði, að klerkastjettin sje handgengnari guði, og í nánara sambandi við hann, heldur en leikmenn, eða að þeim sje gefið sjerlegt vald og náðargáfa fram yfir leikmenn, eins og katólskir kenna að klerkunum veitist í vígslunni; því allir kristnir menn hafa jafnan aðgang til guðs fyrir Krist, sem einn er meðalgangari milli guðs og manna, en enginn annar. Þvert á móti er öllum kristnum í

---

[1]) *„Nam per verbum et sacramenta, tanquam per instrumenta, donatur spiritus sanctus, qui fidem efficit, ubi et quando visum est deo, in iis, qui audiunt evangelium". Conf. Aug.*

Þ. e.: Því gegnum orðið og sakramentin eins og verkfæri veitist heilagur andi, sem verkar trúna, þar sem og þegar guði lízt, í þeim, sem heyra fagnaðarerindið.

skírninni veitt hin sama náðargáfa; þeir eru allir í henni gróðursettir á Kristi, og innvígðir til kristilegs kennimannsembættis[1]; þeir eiga allir að fram bera sjálfa sig guði sem lifandi fórn, helga hugarfar sitt, orð og verk, og með því víðfrægja í heiminum dýrð hins ósýnilega konungs kirkjunnar; 1. Pjet. 2, 5. Þess vegna hefur og hver leikmaður, eptir prótestantiskri skoðun, rjett til, þegar neyð ber að höndum, að veita prestlega þjónustu[2]. Þar á móti eru ekki allir prestar að þjónustunni eða embættinu til; því samkvæmt lærdómi prótestanta er vígslunni haldið í kirkjunni eins og þýðingarmikilli athöfn, ekki í þeim skilningi, sem katólskir kenna, að hún með töfrakrapti út búi hinn vígða yfirnáttúrlegum hæfilegleikum, heldur eins og helgu og hátíðlegu merki þess, að kirkjan kalli þennan mann til prestlegrar þjónustu, og feli honum sjerstaklega á hendur hið kennimannlega embætti. Því mega ekki allir á óstjórnlegan hátt trana sjer fram í þessa þjónustu, heldur er það nauðsyn-

[1]) „Allir kristnir eru í sannleika andlegrar stjettar, og milli þeirra er enginn mismunur, nema að embættinu til“. Lúter.

[2]) *„In casu necessitatis absolvit etiam laicus et fit minister alterius; sicut narrat Augustinus historiam de duobus christianis in navi, quorum alter baptizaverit κατηχούμενον, et is baptizatus deinde absolverit alterum“. Art. Smal.*

þ. e.: þegar neyð ber að, skriptar leikmaður einnig öðrum manni, og veitir prestlega þjónustu; eins og Augustínus segir frá sögu um 2 kristna menn á skipi, að annar þeirra skírði hinn, sem fræddur var undir skírn, og hann aptur, eptir að hafa hlotið skírn, skriptaði hinum.

legt til góðrar reglu og skipulags, og til uppbyggingar söfnuðunum, að kirkjan kjósi til þessa embættis vissa menn, og feli þeim það á hendur[1].

Frá því er skýrt áður, hvernig katólska kirkjan lítur á samband sitt við veraldlega stjórn. Prótestantiska kirkjan skoðar, samkvæmt allri stefnu sinni, þetta allt öðruvísi. Prótestantar að greina nákvæmlega hið andlega og veraldlega vald, og eigna kirkjunni, eins og áður er sagt, samkvæmt guðsorði, einungis hið andlega vald, það er að skilja: orðsins og sakramentanna. Af þessu leiðir, að prótestantiska kirkjan getur aldrei á líkan hátt og hin katólska komizt í ófrið við veraldlega stjórn, af því hún vilji hrífa undir sig veraldleg yfirráð, og bæla með yfirgangi undir sig veraldlega stjórn, því þá gleymdi hún hinni fyrstu og helztu grundvallarreglu sinni; þvert á móti viðurkennir prótestantiska kirkjan veraldlega stjórn sem guðlega tilskipun, sem fengið sje í hendur hið ytra vald, til að tryggja fjelagið, og við halda góðri reglu og skipulagi. Henni er fengið í hendur hið veraldlega sverð (*gladius civilis*), og því á hún að beita; kirkjunni einungis hið andlega sverð (*gladius spiritualis*), og því á hún eptir guðlegum rjetti að beita. En hvorugt þessara getur án annars verið. Kirkjan getur

---

[1]) *„De ordine ecclesiastico docent, quod nemo debeat in ecclesia publice docere, aut sacramenta administrare, nisi rite vocatus". Conf. Aug.*

Þ. e.: Um kirkjulega vígslu kenna þeir, að enginn megi opinberlega kenna í kirkjunni, eða þjóna sakramentunum, nema hann sje að rjettum sið til þess kallaður.

ekki verið án veraldlegrar stjórnar, og veraldleg stjórn ekki án kirkjunnar; það er svo langt frá, að þær sjeu hver annari gagnstæðar, að þvert á móti innileg sameining og samvinna er á milli þeirra, þó hvorugu megi slengja saman[1]. Kirkjan, sem sýnileg kirkja, lifir í og með borgaralegu fjelagi, og hlýtur að vilja þess sanna gagn sem sitt; hvorugt verður að greint, þegar rjett er litið á málið. Borgararnir, þegnar stjórnarinnar, eru einnig börn kirkjunnar; þjónar kirkjunnar eru einnig embættismenn, þjónustumenn hins borgaralega fjelags, og hafa jafnt sem aðrir borgarar tilkall til rjettinda, og skyldum að gegna við veraldlega stjórn. Landslögin taka að sjer að vernda rjettindi kirkjunnar, og landstjórnin tekur að sjer yfirumsjón alls þess, sem snertir ytri tilhögun og fyrirkomulag kirkjumálefna, eins og yfir fjelaginu öllu (*inspectio secularis*). Siðabótin hefur því fengið landstjórunum aptur í hendur það vald, sem katólska kirkjan ranglega hafði hrifið frá þeim, allt hið ytra umsjónar- og stjórnar-vald (*circa sacra*), sem útheimtir veraldlegan styrk og krapta, en sem rómverska kirkjan móti guðsorði hafði gjört tilkall til. Því er það almennur siður orðinn í prótestantiskri kirkju, að kalla landstjórana æðstu biskupa (*summus*

[1]) „Geistlegt og veraldlegt vald eru ekki gagnstæð innbyrðis, heldur þjónar hvort öðru. Vald sverðsins þjónar evangelíó með því, að það heldur friðnum við hjá borgurunum, án hvers ekki verður prjedikað; aptur þjónar evangelíum veraldlegri stjórn með því, að það kennir, og heldur borgurunum til hlýðni við valdstjórnina". Lúter í útlegging yfir Zach.

*episcopus)*, því landstjórnin er eptir stöðu sinni í fjelaginu œðsti umsjónarmaður kirkjunnar. Þetta má samt ekki misskiljast svo, eins og að prótestantiska kirkjan hafi með siðabótinni sagt af hendi sjer því valdi, sem henni einni tilheyrir og henni er heimilað í guðsorði. Það vald, sem guð hefur fengið kirkjunni í hendur, getur hún aldrei afsalað sjer nokkrum öðrum, því þá gleymdi hún hinum guðlega uppruna sínum; hún gleymdi því, að einmitt af því, að vald hennar er einungis andlegt, þá hefur hún það ekki frá veraldlegri stjórn, heldur er henni fengið það hjer að ofan. Þess vegna hefur siðabótin tekið eins skýrt fram, að hið eiginlega tilsjónarembætti, það er: valdið til að stýra innri málefnum kirkjunnar (t. a. m. trúarlærdómur, kirkjuagi, guðsþjónustusiðir), sje frá upphafi í höndum kirkjunnar sjálfrar[1]. Þegar því prótestantiska kirkjan fær hinni veraldlegu stjórn, landstjóranum, í hendur einnig hina œðstu umsjón þessara innri málefna kirkjunnar, þá gjörir hún það engan veginn í þeim skilningi, að hún afsali sjer rjetti sínum og valdi, heldur fær hún stjórnandanum það í hendur, sem umboðsmanni sínum, ekki einmitt vegna þess, að hann er landstjóri eða veraldlegur höfðingi, heldur vegna þess, að hann er barn kirkjunnar, meðlimur safnaðarins. Hún ætlast ekki til,

---

[1]) „Þar sem kirkja er, þar er skipun að prjedika guðsorð; þess vegna hlýtur kirkjan að hafa í höndum sjer rjett til að kalla, kjósa og vígja kennimenn. Þetta vald er gjöf, sem kirkjan hefur þegið af guði, og sem ekkert mannlegt vald getur tekið frá henni“. *Art. Smal.*

að landstjórinn fari með þetta umboð sjálfræðislega, eptir eigin geðþótta, heldur sem kristinn konungur stýri því í anda kirkjunnar eptir heilagri ritningu sem æðsta mælikvarða[1]. Í þessu fyrirkomulagi kemur ljósast fram hinn fullkomni mismunur, sem er milli rómversku og prótestantisku kirkjunnar í sambandi hvorrartveggja við veraldlega stjórn. Því þegar prótestantiska kirkjan felur landstjóranum, þeim manni, sem eptir borgaralegri stöðu sinni er helzti meðlimur safnaðarins, á hendur hina æðstu tilsjón kirkjunnar, svo að hið æðsta kirkjulega vald er í höndum hans sameinað hinu æðsta borgaralega valdi, þá viðurkennir hún með því, að innileg eining, en engin tvídrægni og rígur, eigi að eiga sjer stað milli kirkju og veraldlegrar stjórnar, og eins og trúin eigi að taka sjer bústað í hjörtum borgaranna, eins eigi andi kirkjunnar að verða ríkjandi í löggjöf, stofnunum, og öllu fyrirkomulagi hins borgaralega fjelags, ekki með því ofríkislega eða á harðstjórnarlegan hátt að bæla undir sig borgaralegt vald, og svipta það náttúrlegu frelsi, heldur með því, að

---

[1]) *„Aliud est spoliare ecclesiam jure suo, ut totum ad unius hominis libidinem transferatur, aliud hoc honoris regi vel imperatori dare, ut sua auctoritate legitimam electionem confirmet". Calv. inst. rel. chr.*

Þ. e.: Sitt er hvað, að ræna kirkjuna rjetti sínum þannig, að allt sje dregið undir sjálfræði eins manns, eða að gefa konungi eða keisara það í heiðursskyni, að þeir staðfesti löglega kosningu með konunglegu áliti sínu.

gagntaka allt mannlegt fjelag á innri andlegan hátt, svo að það frjálslega geti notið krapta sinna, og tekið jöfnum, en stöðugum framförum í sannri frelsisstarfsemi. Siðabótin hefur rjett aptur við hluta hinnar veraldlegu stjórnar, fengið veraldlegu valdi aptur í hendur rjettindi sín, sem órjettilega höfðu verið dregin úr höndum þess, og vakið aptur til lífs borgaralegt frelsi, sem kúgað var og kyrkt af langvinnri kirkjulegri harðstjórn. Siðabótin hefur ekki einungis afmáð hið óeðlilega sundurlyndi, hatur, tvídrægni og ófrið milli kirkjulegs og veraldlegs valds, sem steypti svo mikilli eymd og hörmung yfir kristin lönd á miðöldunum, heldur orðið hvervetna í þeim löndum, sem hafa tekið hana, uppspretta borgaralegs friðar, velgengni, blómgunar og framfara í alls konar frelsi, því prótestantisk trúarjátning og frelsi eru skilgetin systkin. Katólska kirkjan hlýtur þar á móti, samkvæmt guðstjórnar- og klerkavalds-stefnu sinni, um aldur og æfi, eins og áður er sýnt, að leitast við, að bæla undir sig veraldlegt vald, og ganga á rjett veraldlegrar stjórnar, og þannig elur hún í grundvallarreglu sinni sífellt efni til ófriðar milli kirkjulegs og borgaralegs valds. Þess vegna hlýtur katólska kirkjan ekki einungis að aptra frelsisframförum þeirra landa og þjóða, þar sem hún er trúarjátning, heldur einnig gefa stöðugt tilefni til borgaralegs ófriðar, borgarastyrjalda og stjórnarbyltinga; því hið þunga harðstjórnarok kirkjunnar, sem kyrkja vill hvers konar frelsishreifingu, freistar mannlegs eðlis, og espar mannlega frelsistilfinningu til mótspyrnu og uppreistar.

þjóðirnar eru vaknaðar til nokkurrar meðvitundar; frelsisandi frá prótestantiskum löndum hefur smeygt sjer inn í katólsk lönd; þeim verður ekki stjórnað nú, eins og á miðöldunum, með töfravaldi hjátrúarinnar. En rómverska kirkjan og páfavaldið er í eðli sínu enn þá hið sama; kirkjan vill nú, sem áður, ein hafa valdið, en halda þjóðum og ríkjum í bernsku- og ófrelsis-ástandi undir svipu kirkjulegs einveldis, ef hún gæti komið því við, því harðstjórn, kúgun og hvers konar ófrelsi eru og verða stöðugir förunautar hinnar rómversku katólsku.

### 3. grein.

### Um reglu trúarinnar *(de canone)*.

Í lærdóminum um grundvöll trúarinnar er ágreiningur í 3 atriðum milli kirknanna: 1. um sambandið milli guðsorðs í heilagri ritningu og hins óskrifaða orðs, sem gengur jafnhliða ritningunni; 2. um álit og útleggingu heilagrar ritningar; og 3. um álit hinna helgu bóka sín á milli.

Hvað fyrsta atriðið snertir, kennir rómverska katólska kirkjan, að heilög ritning sje ekki ein grundvöllur og uppspretta fyrir kristilegri þekkingu og trú, en jafnframt sje það og jafnhliða ritningunni hin munnlega sögusögn, svo guðsorð sje bæði skrifað og óskrifað. Þessu neita ekki prótestantar; því báðum kirkjum kemur saman um, að í heilagri ritningu felist og flytjist oss hið hreina guðs opinberaða orð, sem guðs sonur færði. Báðar kirkjur játa trúna á opinberun guðs í Jesú Kristi; heilög ritning, hans

orð, inniheldur því guðlegan sannleika, og er trúarinnar og lífernisins regla; þess vegna kallar kirkjufundurinn í Tríent heilaga ritningu „himneskan fjársjóð helgra bóka, sem heilagur andi af örlæti sínu fjekk mönnunum í hendur“[1]. Þar eð enn fremur báðar játa handleiðslu og viðhald heilags anda á kirkjunni, kemur báðum saman í því, að í kirkjunni sje lifandi guðsorð, sem með aðstoð heilags anda flytjist frá einni kynslóð til annarar, og gróðursetji sjálft sig í kirkjunni, samkvæmt fyrirheiti Krists um, að andi sinn muni aldrei yfirgefa trúaða, en vera með þeim til veraldarinnar enda. Í þessum upprunalega og sannkristilega skilningi á hinni munnlegu sögusögn kemur báðum kirkjum saman, því prótestantiska kirkjan játar, að á öllum tímum kirkjunnar hafi drottinn átt sjer söfnuð trúaðra, sem hann hafi fengið í hendur hreinan lærdóm sinn, og sem hafi flutt hann komandi kynslóðum. Um þetta lifandi orð, eða munnlegu kristilegu sögusögn, kemur enn fremur báðum kirkjum saman, að hún sje eldri heldur en hið skrifaða orð; þessu játar hin prótestantiska kirkja, því það er sannleikur, byggður á áreiðanlegum vitnisburðum sögunnar. Lausnarinn sjálfur flutti lærdóm sinn jafnan í munnlegri kenningu, en skrifaði ekki. Hans dœmi fylgdu postular hans; þeir fluttu kenninguna allir munnlega, en fæstir þeirra hafa eptir-

---

[1]) *„Coelestis librorum sacrorum thesaurus, quem spiritus sanctus summa cum liberalitate hominibus tradidit“. Syn. Trid.*

látið sjer skrifað orð, en stofnuðu kristna söfnuði með munnlegri prjedikun. Þannig rótfestist kristniboðið á postulanna dögum hjá þjóðunum, áður en rit nýja testamentisins voru til, og eins fluttist kristin trú eptir þeirra daga með munnlegu kristniboði kristniboðandanna til ýmissa þjóða, áður en þær þekktu hinar helgu bækur nýja testamentisins. Þannig kvarta kirkjufeður á 4. öld um, að guðspjöllin og brjef postulanna sjeu ekki almenn í kirkjunni. Þeir, sem skírn tóku, urðu í skírninni að játast undir trúarjátningu; og þessi trúarjátning, sem tók í fám orðum fram aðalinntak kristindómsins[1], hafði myndazt af hinni munnlegu sögusögn, hinu lifanda orði, og festist löngu síðar sem regla trúarinnar í hinni postullegu trúarjátningu (*symbolum apostolicum*). Ýmsir kirkjufeður, Írenæus, Tertullíanus og Órígenes, sem geta um þessa trúarreglu, kalla hana hina óskrifuðu sögusögn (*traditio non scripta*), eða hina órituðu kenningu (*doctrina ἄγραφος*), og að greina hana þannig frá heilagri ritningu, af því þess konar trúarjátningar mynduðust ekki af hinu skrifaða, heldur hinu óskrifaða orði, jafnvel þó inntak þeirra kæmi fullkomlega heim við ritninguna. Prótestantar geta því játað þeirri kenningu katólskra, að kristin kirkja sje ekki sprottin af heilagri ritningu, heldur sje kirkjan móðir heilagrar ritningar; því kirkjan var stofnuð, áður en hið skrifaða orð varð til; söfnuður trúaðra var til á undan hinum helgu bókum í fjelagi Krists lærisveina;

---

[1]) Sbr. Neanders kirkjusögu, I., bls. 527.

og frá þessu fjelagi hafa bækur nýja testamentisins upptök sín. Báðum kirkjum ber saman í, að munnleg fræðsla í orðinu og prjedikun trúarinnar sje jafnan nauðsynleg til þess, að leiða í skilning á orði heilagrar ritningar, og að hið lifandi orð í munnlegri uppfræðingu og prjedikun sje leiðbeining til heilagrar ritningar, jafnvel lykillinn að henni. Höfundur heilagrar ritningar er ekki heimsins andi, heldur heilagur andi, sem lifði í fjelagi hinna trúuðu. En þessi sami andi, sem er höfundur ritningarinnar, heldur eilíflega á fram starfsemi sinni til þess, að hið skrifaða orð hans verði rjett skilið af söfnuðunum, til þess að leiða kristna menn í rjettan skilning á orðinu, upplýsa skilning þeirra, og ljúka upp hjörtunum, svo að orðið fái þar inngöngu, verði lifandi í anda mannsins, og beri ávexti. Því ekki er það orðið sjálft, sem bókstafur, heldur andinn, sem er í og með orðinu og óaðgreinanlega sameinaður því, sem festir, glæðir og gjörir orðið að lifandi anda í hinum innra manni, svo að hann endurfæðist, helgast, og ber ávöxt[1]. Án aðstoðar og verkana heilags anda lægi Krists opinberaða orð, frelsisins lærdómur, eins og falinn fjársjóður í jörðu, dauður og öllum ónýtur.

---

[1]) *„Spiritus sc. revelat et praedicat verbum, et per id pectora illuminat et accendit, ut verbum accipiant, amplectantur, illi adhaerescant, inque eo perseverent“. Cat. Maior.*

Þ. e.: Heilagur andi opinberar og prjedikar orðið, upplýsir með því og glæðir hjörtun, svo að mennirnir taka við því, aðhyllast það, og halda sjer stöðuglega við það.

Andinn einn gjörir orð ritningarinnar lifandi í hjörtunum, og vekur lifandi þekkingu á lærdómum ritningarinnar. Þar af leiðir, að til þess að geta rjettilega skilið heilaga ritningu, þarf maðurinn að hafa hlutekningu í fjelagi hinna trúuðu, það er að skilja: maðurinn hlýtur að hafa hlutekningu í þeim sama anda, sem talar í ritningunni; að öðrum kosti verða orð hennar og lærdómar ekki einungis leyndardómur fyrir manninn, heldur heimska og hjegómi, því „holdlega sinnaður maður skilur ekki það andlega; það er honum heimska, og hann getur ekki skilið það, því það hlýtur andlega að dæmast"; 1. Kor. 2, 14. Sá, sem enga hlutdeild hefði í hinu lifanda orði, sem gengur í kristinni kirkju frá einni kynslóð til annarar, í munnlegri fræðslu og prjedikun, hann væri óhæfur til þess, að geta skilið hið skrifaða orð ritningarinnar; hann væri eins og heiðingi eða Gyðingur; honum væri Kristur og hans lærdómur heimska og hneyksli, þar eð hann væri hlutdeildarlaus í kristilegum anda og meðvitund. Þannig er augljóst, að hið skrifaða og óskrifaða orð eru í óslítanlegu sambandi sín á milli, að orðið í heilagri ritningu verður ekki skilið nema með hinu lifandi orði, sem gengur frá einni kynslóð til annarar í vitnisburði kristilegrar kirkju; því hinn sami heilagi andi, sem er höfundur guðsorðs í ritningunni, er einnig verkandi í hinu lifandi orði, í fræðslu kirkjunnar og vitnisburði hinnar munnlegu sögusagnar, flytur hana inn í hjörtun, og gjörir hana þar ávaxtarsama. Í þeim skilningi sagði

Augustínus[1]: „Jeg tryði ekki evangelíó, ef álit kirkjunnar væri mjer ekki hvöt til þess“. Ekki er þetta svo að skilja, að Augustínus hafi sett álit kirkjunnar ofar en guðsorð, eða hugsað sjer kirkjuna dómara heilagrar ritningar, heldur svo, að hið lifandi orð í vitnisburði kirkjunnar, hin kirkjulega sögusögn, sje leiðbeining og leiðarvísir, til að skilja heilaga ritningu. Prótestantar geta því líka játað, að hin kirkjulega sögusögn geti innhaldið guðsorð, þó það finnist ekki bókstaflega eða með sömu orðum í heilagri ritningu. En þessu játar prótestantiska kirkjan því að eins, að þessi sögusögn sje í engu á móti guðsorði í ritningunni, heldur í fullkominni samkvæmni við það, og beri á sjer öll merki þess, að hún sje sprottin af anda ritningarinnar.

Hingað eiga kirkjurnar leið saman í þessum lærdómi, en úr þessu skilja þær, og verulegur ágreiningur kemur í ljós milli þeirra, sem fólginn er í því, að prótestantar setja hið skrifaða orð, heilaga ritningu, ofar en hið óskrifaða; katólska kirkjan þar á móti setur í rauninni hina munnlegu sögusögn kirkjunnar ofar en guðsorð í ritningunni. Að vísu er langt frá því, að katólska kirkjan í orði kveðnu neiti áliti og gildi heilagrar ritningar, heldur telur hún hana jafnhliða sögusögninni, eins og einn hlutann eða einn liðinn af hinu guðlega orði kirkjunnar; því samkvæmt hinni katólsku grundvallarskoðun er kirkjan sjálf stöðug uppspretta opinberunarinnar, sem sífelld-

[1]) *„Evangelio non crederem, nisi me ecclesiae moveret auctoritas“.*

lega birtir hinn eilífa sannleika, guðs vilja, í öllum sínum tilskipunum, eins með hinu skrifaða orði, sem hinu óskrifaða. Kirkjan telur því að nafninu til ritninguna jafnhliða sögusögninni[1]. En það eru í rauninni þýðingarlaus orð; ritningin verður, þegar betur er athugað, að þoka sæti fyrir sögusögn kirkjunnar. Rómverska kirkjan hefur upp hugsað nóg ráð til þess, að rýra gildi ritningarinnar í því skyni, að setja sögusögnina ofar. Ritningin innibindur (segir katólska kirkjan) ekki í sjer allt guðsorð[2]; bæði játar hún það sjálf víða, Jóh. 16, 12.; 20, 30.; 21, 25.; 2. Tess. 2, 15., þar sem hún vísar til hinnar munnlegu

---

[1]) *„Omnes libros tam V. quam N. T., nec non traditiones ipsas, tum ad fidem, tum ad mores pertinentes, tamquam vel ore tenus a Christo vel spiritu sc. dictatos et continua successione in ecclesia catholica conservatos pari pietatis affectu ac reverentia suscipit et veneratur". Syn. Trid.*

Þ. e.: Kirkjan játar allar bækur gamla og nýja testamentisins, og sömuleiðis sögusögnina, sem snertir trú og siðferði, og sýnir þeim sömu guðrækni slotningu, sem orðrjettum setningum Krists eða heilags anda, er geymzt hafa og gengið í kirkjunni frá einni kynslóð til annarar.

[2]) *„Nos asserimus in scriptura non continere expresse totam doctrinam necessariam, sive de fide, sive de moribus, et proinde praeter verbum dei scriptum requiri etiam verbum dei non scriptum". Bellorm. de verbo dei.*

Þ. e.: Vjer fullyrðum, að í ritningunni sje ekki skýrt tekin fram öll nauðsynleg kenning í trú eða siðafræði, og því þurfi auk hins skrifaða orðs einnig hins óskrifaða orðs guðs.

sögusagnar, og líka er ritningin víða óljós, er ýmislegum skilningi undirorpin, eins og sagan sýnir, að margar meiningar hafa verið teygðar út úr henni; villutrúarmenn borið orð hennar fyrir sig til að styrkja villu sína og styðja óguðlega lærdóma. Þess vegna (þannig álýktar kirkjan) er ritningin ekki einhlít; hún inniheldur ekki það, sem nauðsynlegt er til trúar- og lífernis-reglu, heldur hefur Kristur og postular hans flutt lærdóm sinn að fullu og öllu í munnlegri kenningu, og þessi kenning hefur gengið hrein og ómenguð í kirkjunni mann frá manni gegnum biskupana, eptirmenn postulanna; og þessi kirkjulega sögusögn verður því að taka við, bæta upp og fullkomna þetta, sem hið skrifaða orð ávantar, svo menn hafi fullkominn og áreiðanlegan grundvöll fyrir trú og breytni.

Þessum lærdómi katólsku kirkjunnar neita prótestantar gjörsamlega; trúarjátningar þeirra mótmæla því fastlega, að hið óskrifaða orð, sögusögnin, sje sett jafnhliða guðsorði í ritningunni, og telja það með fullum rjetti undirrót allrar villu í þessum lærdómi hjá katólsku kirkjunni, því með þessu setji hún mannasetningar *(traditiones humanae)* ekki einungis jafnhliða guðsorði, heldur ofar, og byggi upp mannlega sögusögn og setningar beint á móti guðsorði, og láti með því ófullkomið og óáreiðanlegt manna-orð bola út guðsorð. Til að af stýra þessum skaðlega lærdómi, kenna því prótestantar, að heilög ritning innihaldi allt það, sem mönnum er nauðsynlegt að vita[1] til sáluhjálpar *(sufficientia sc. sc.)*, að ekkert

[1]) „Í sannleika er nóg ritað í heilaga ritningu, og það væri

vanti í hana, sem mönnum sje nauðsynlegt til sannarlegs sálargagns[1], og ekkert sje kristilegur sannleiki, sem ekki sje samkvæmt guðsorði í ritningunni. Prótestantiska kirkjan játar að vísu, að margt kunni að vera óritað um verk og orð Krists, sem ekki standi í guðspjöllunum, eins og Jóh. 21, 30., segir berlega, og sem katólska kirkjan ber fyrir sig, til að sanna, að ritningin sje ónóg. En þetta sannar ekkert það, sem katólska kirkjan ætlast til, því ritningin bendir oss hvergi einu orði til, að það, sem skrifað er, sje þar fyrir ónógt, og hún vísar oss hvergi til sjerstaklegrar trúaruppsprettu, sem sje jafnhliða, því síður ofar en guðsorð í ritningunni. Hefði það, sem óskrifað er, verið oss nauðsynlegt til sáluhjálpar, þá hefði guðleg forsjón borið umhyggju fyrir, að það hefði geymzt oss í skrifuðu orði, og því kenna prótestantar, að vjer með fullu trausti megum láta oss nægja það, sem ritað er í heilagri ritningu. Orðin hjá Jóhannesi, sem katólskir bera fyrir sig, leggur rómverska kirkjan ranglega út; þar er ekkert talað

---

þarfleysa, að hafa fleiri boð eða lög; já, það er ekkert vald lengur til á jörðu til að setja kristileg lög". Lúter.

[1]) *„Credimus sacr. scr. dei voluntatem perfecte complecti et quodcunque ab hominibus, ut salutem consequantur, credi necesse est, in illa sufficienter edoceri". Conf. Belg.*

Þ. e.: Vjer trúum því, að heilög ritning hafi að geyma fullan guðs vilja, og að í henni sje nægilega skýrt frá öllu því, sem mönnunum er nauðsynlegt að trúa, til þess að geta orðið sáluhólpnir.

um sjerstaklega nýja opinberun með kirkjulegri sögusögn, heldur um handleiðslu heilags anda, sem muni vekja fullkomnari skilning hjá lærisveinunum, og gjöra orðið, sem lausnarinn hafði þegar gróðursett í sálum þeirra, að lifandi anda. Prótestantiska kirkjan kennir þess vegna gagnstætt katólskum, að heilög ritning sje ein nœg uppspretta trúar og siðalærdóma. Rómverska kirkjan kennir þar á móti, að kirkjuleg sögusögn sje eins áreiðanlegur grundvöllur fyrir hvorttveggja, og flytur þess vegna marga trúarlærdóma, sem enga fótfestu hafa í ritningunni, en eingöngu eru byggðir á áliti kirkjunnar, einungis af þeirri rótgrónu trúargrillu, að heilög ritning sje ónógur grundvöllur trúarinnar. Prótestantiska kirkjan átelur þessa kenningu kirkjunnar með fullum rjetti, sem grundvöll og rót allrar villu í þessu efni, með því hún hefur orðið tilefni til allrar hinnar stórkostlegu afbökunar, sem kristilegir trúarlærdómar hafa orðið fyrir í rómversku kirkjunni, tilefni til þess, að manna lærdómar boluðu út guðs lærdóm, að mannasetningar voru byggðar upp beint á móti guðsorði, svo að kristindómurinn afbakaðist svo mög, að hann naumlega varð þekkjanlegur, og varla annað en mannlegur lærdómur. Hinn sami villuandi kemur hjer fram í stefnu katólsku kirkjunnar, sem í lærdóminum um kirkjuna. Eins og lærdómurinn um klerkavaldið, páfavaldið og kirkjufundavaldið rýrir og leitast við að ónýta tign Krists, eins ónýtir lærdómur katólsku kirkjunnar um sögusögnina gildi heilagrar ritningar, og vefengir hana sem áreiðanlegt og óbrigðult guðsorð, því katólska

kirkjan leitast hvervetna við, að setja það mannlega ofar en það guðlega. Þvílíkur lærdómur er, eptir skoðun prótestanta, uppspretta allrar villu, og því er það hin fyrsta krafa, sem gjöra verður til sögusagnarinnar, að hún í engu sje gagnstæð heilagri ritningu; því byggi kirkjan upp lærdóma á móti evangelíó Krists, þá eru það ekki einungis mannasetningar, heldur djöflalærdómar[1]. Samkvæmt þessu kennir þá prótestantiska kirkjan, að heilög ritning ein sje óbrigðul regla, sem meta eigi eptir og dæma allt annað orð, allar mannasetningar, að hún ein sje prófsteinn og mælikvarði trúar og siðferðis[2]. Rómverska

---

[1]) *„Nunc aperte judaizant adversarii, aperte obruunt evangelium doctrinis daemoniorum. Tunc enim sc. sc. vocat traditiones doctrinam daemoniorum* (1. Tim. 4, 1., 3.), *quando docetur, quod sint cultus utiles ad promerendam remissionem peccatorum et gratiam; tunc enim obscurant evangelium et benificia Christi“. Apol. Conf.*

Þ. e.: Nú flytja mótstöðumennirnir, ɔ: katólskir, berlega gyðinglega villu; berlega hefja þeir Krists lærdóm með djöflalærdómi. Því þá kallar ritningin mannlegar setningar djöflalærdóm, þegar þær eru gefnar út fyrir gagnlega guðsþjónustu, til að afla mönnum syndafyrirgefningar og guðlegrar náðar. Því þá varpa þær rýrð á evangelíum Krists, og velgjörðir hans.

[2]) *„Credimus, confitemur et docemus, unicam regulam et normam, secundum quam omnia dogmata omnesque doctores aestimari et judicari oporteat, nullam omnino aliam esse quam peophetica et apostolica scripta cum V. tum N. T. Et sola scriptura sacra judex, norma et regula agnoscitur,*

kirkjan álítur þar á móti heilaga ritningu ekki nema part af guðsorði, og skoðar hana ekki sem trúarreglu, heldur eins og gagnlega leiðbeiningu til hins munnlega orðs, og byggir þess vegna marga lærdóma sína á munnlegri sögusögn, þó engin fótfesta sje fyrir þeim í heilagri ritningu, því hin auðugari uppspretta verður að bœta upp hina fátœkari. Þannig byggir katólska kirkjan ýmsa ókristilega lærdóma á sögusögninni, án þess að geta með rökum sýnt grundvöll þeirra í heilagri ritningu; þar á meðal teljast lærdómurinn um tilbeiðslu helgra manna, um hreinsunareldinn, um aflát, um tilbeiðslu Krists líkama og blóðs í altarissakramentinu, um úthlutun brauðsins eins í kveldmáltíðarsakramentinu, o. fl. þ. h.

Þvílíkum grundvelli fyrir trúnni, þessum mannasetningum, neitaði siðabótin fastlega; þess vegna heita játendur hennar prótestantar (þ. e.: mótmælendur); og hins vegar játaði kirkja þeirra engan áreiðanlegan grundvöll trúarinnar annan en guðsorð í heilagri ritningu, Krists skrifaða evangelíum, og heitir hún þess vegna evangelisk kirkja. Prótestantar meta því jafn-

---

*ad quam cev ad lydium lapidem omnia dogmata exigenda sunt et judicanda: an pia an impia, an vera, an vero falsa sint". Form. Conc.*

Þ. e.: Vjer trúum, játum, og kennum, að sú eina regla og mælikvarði, sem meta eigi og dœma eptir alla trúarlærdóma og alla kennendur, sje enginn annar en spámannleg og postulleg rit gamla og nýja testamentisins. Og heilaga ritningu eina játum vjer dómara, reglu og mælikvarða, sem dœma á eptir og prófa við, eins og við prófstein, alla trúarlærdóma, hvort þeir sjeu kristilegir eða ókristilegir, rjettir eða rangir.

an heilaga ritningu sem hið dýrmætasta hnoss sitt, og telja það ómetanlega náðargjöf guðlegrar forsjónar, að hin hreina kenning sannleikans er mannkyninu þannig geymd í skrifuðu orði; því með heilagri ritningu er kirkjunni gefinn um aldur og æfi áreiðanlegur leiðtogi, eilíf leiðarstjarna, til að geta að greint það guðlega frá því mannlega, rjett frá röngu, sannleika frá villu. Upphaflega var að vísu hið munnlega orð, eins og það lifði hreint og ómeingað í brjósti Krists lærisveina, postulanna, fullkomlega áreiðanlegur grundvöllur trúarinnar, en til viðurhalds Krists kirkju, þegar fram liðu stundir, var hið skrifaða orð nauðsynlegt; því hið munnlega orð er miklu meiri afbökun undirorpið; það aflagast á stuttum tíma í meðferðinni, þegar það fer margra í milli, því heldur á mörgum öldum; og þannig hefði lærdómur Krists aflagazt, rangfærzt, og orðið óþekkjanlegur, eins og katólska kirkjan sjálf er ljósast vitni um, ef drottinn kirkjunnar hefði ekki borið umhyggju fyrir, að opinberunin hefði geymzt og flutzt kirkju hans í skrifuðu orði; því hið skrifaða orð stendur óhaggað (*litera scripta manet*). Í heilagri ritningu talar sannleikans konungur við kirkju sína, og út býtir henni því sama orði lífsins, sem hann út býtti henni á sínum hjervistardögum. Að þessari hreinu lind sannleikans á kristin kirkja aðgang um aldur og æfi; þar, en hvergi annarstaðar, finnur hún eilíflega óbrigðulan leiðtoga og leiðarvísi, til að geta varizt hvers konar villu, afmáð og upprætt sjerhvert illgresi, sem hinn vondi andi sáir, til að spilla akurlendi drottins; í stuttu

máli: heilög ritning er það lífsinsbrauð, sem drottinn eilíflega fæðir og endurnærir með kirkju sína, svo að hún getur yngzt upp aptur, þó hún eldist, ratað á sannleikans veg, þó hún villist, og þannig lifað um aldur og æfi í stöðugu samfjelagi við drottin sjálfan. Þar eð prótestantiska kirkjan þannig byggir einungis á heilagri ritningu sem grundvelli trúar og siðferðis, hefur hún örugga og óbrigðula undirstöðu fyrir þekkingu sinni; hún veit, að hún byggir ekki á mannlegu orði, heldur hreinu guðsorði, sem aldrei getur brugðizt, þó allt annað bregðist. Allt öðruvísi er ástatt fyrir katólsku kirkjunni; hana vantar þessa öruggu fótfestu; af því hún viðurkennir ekki heilaga ritningu eina sem áreiðanlegan mælikvarða trúarinnar, byggir hún á svikulli undirstöðu, og gefur margt út fyrir kristilegan og postullegan sannleika, sem ekki er annað en mannasetningar eða tilbúningur klerkavaldsins; því þó alla undirstöðu vanti í heilagri ritningu fyrir einhverjum lærdómi, og þó öll rök sögunnar bregðist, til að sanna eitthvað sem postullegan lærdóm, verður niðurstaðan jafnan sú, að rómverska kirkjan sjálf af guðlegum myndugleika sínum leggur síðasta úrskurð á, og ákveður, hverju og hvernig börn hennar skuli trúa, að þetta og þetta skuli vera kirkjulærdómur. Aðalágreiningurinn, sem skilur kirkjurnar í þessari trúargrein, kemur hjer fram, og grundvallarmismunurinn milli beggja í lærdóminum um kirkjuna birtist hjer í annari mynd, svo það liggur í augum uppi, að lærdómur katólsku kirkjunnar um sögusögnina hefur dýpri rætur sínar í lær-

dómi hennar um kirkju- og klerka-valdið. Rómverska katólska kirkjan gefur sig, eins og áður er sagt, út fyrir hina fullkomnu kirkju, og álítur sig þess vegna uppsprettu alls kristilegs orðs, og eignar sjer samkvæmt því vald til, að ákveða og setja alla lærdóma kirkjunnar, bæði gamla og nýja; í einu orði: kirkjan tekur sjer æðsta dómsvald yfir öllu kristilegu orði, hvort það er heldur hið skrifaða orð heilagrar ritningar, eða hið óskrifaða í munnlegri sögusögn kirkjunnar. Þess vegna er þetta vanalegt viðkvæði í trúarjátningum kirkjunnar: „Þetta kenndi postulleg sögusögn, og katólska kirkjan hefur af valdi sínu staðfest það“[1]. Kirkjan rómverska hefur guðlega sögusögn (*traditio divina*); það er sú sögusögn, sem á að vera frá Kristi sjálfum; postullega sögusögn, (*traditio apostolica*), sú sem á að vera frá postulunum, og kirkjulega sögusögn (*traditio ecclesiastica*). En það gefur að skilja, að þessi aðgreining verður þýðingarlaus, því kirkjan verður sjálf jafnan æðsti dómari: hún, sem hefur heilagan anda án mælis, getur jafnan af fyllingu guðdómsvalds síns sett þau lög, sem henni þóknast, eins í trúarefnum, sem öllu öðru, og heimtar samkvæmt því, að allir lúti setningum sínum skilyrðislaust. Lærdómur sannleikans er eins og geymslufje í höndum klerkavaldsins; klerkdómurinn, hinn útvaldi kennilýður, er uppspretta kristilegra trúarlærdóma, og því er hann fær um, að leiða í ljós nýja og ókunnuga lærdóma, og að greina þá sönnu

[1]) „*Haec docuit apostolica traditio, et ecclesiae catholicae auctoritas confirmavit*“.

frá þeim ósönnu. Fyrir milligöngu kennilýðsins verður þá hinn kristilegi lærdómur að kirkjulærdómi, og öðlast einungis fyrir vald kirkjunnar gildi sitt og álit. Til þess að komast til þekkingar á sannri trú, verða því allir að snúa sjer til kirkjunnar, það er: til klerkavaldsins, eða páfans, sem er höfuð kirkjunnar; því það, sem páfinn hefur staðfest í embættisnafni með páfabrjefi eða á almennum kirkjufundum í nafni kirkjunnar, það má álíta sama sem úrskurði og fyrirskipanir heilags anda sjálfs[1]. Þar af leiðir beinlínis, að undirstaðan fyrir trú kristinna manna er í rauninni ekki sannleiki og guðdómlegleiki lærdómanna sjálfra, eða kraptur guðsorðs, heldur vald og álit kirkjunnar, sem ein hefur hina fullu vissu, og er ábyrgðarmaður fyrir öllu, eða með öðrum orðum: kirkjan er æðri en guðsorð; kristnir menn eiga því að eins að trúa því, að kirkjan staðfesti það, og bjóði mönnum að trúa því[2]. Þannig verður, samkvæmt

---

[1]) *„Debuit deus judicem aliquem providere ecclesiae. At iste judex non potest esse sacra scr., neque spiritus revelans privatus neque princeps secularis; igitur princeps ecclesiasticus vel solus vel certo cum concilio et consensu coepiscoporum“. Bellorm. de verbo dei.*

Þ. e.: Guð hlaut að sjá kirkjunni borgið með einhverjum dómara. En þessi dómari getur hvorki verið heilög ritning, nje opinberun andans hjá einstökum mönnum, nje veraldlegur höfðingi; þess vegna er það kirkjulegur höfðingi, annaðhvort einn, eða með kirkjufundi og ráði sambiskupa sinna.

[2]) *„Synodus Tridentina interdicit cunctis Christi fidelibus, ne posthac de iis aliter vel credere vel*

trúarfræði rómversku kirkjunnar, hin æðsta trúargrein trúin á guðlegan myndugleika og vald kirkjunnar. Hin fyrsta og helgasta skylda allra barna kirkjunnar er það, að leggja sig skilyrðislaust undir móðurlegt vald og skipun hennar, og þvílík hlýðnistrú innibindur í sjer hina fullu sönnu trú; þar á móti er hvers konar efi um þennan myndugleika kirkjunnar undirrót og byrjun allrar villutrúar.

Eins og prótestantiska kirkjan neitar algjörlega öllum klerkavaldslærdómi, eins neitar hún þessari kenningu katólsku kirkjunnar, sem ókristilegri villu. Hún getur ekki talið þessa lærdómsbyggingu kirkjunnar katólsku annað en guðlöstunarorð; því þegar kirkjan gjörir fjelag manna, eða vissa stjett, skilyrðislaust að æðsta löggjafa og dómara í trúar- og sáluhjálparefnum, hvort sem það heldur er páfinn einn, eða biskuparnir á kirkjufundunum, þá er það öllum auðsjáanlegt, að hún setur mannlegan breyskleika ofar en heilaga ritningu, gjörir mannlegt hyggjuvit að dómara guðsorðs, og hrífur sjer það vald, sem Kristi einum tilheyrir og hans anda. En þegar kirkjan þannig hefur hrifið sjer hinn æðsta sess, sett sig upp yfir ritninguna, getur hún gefið út fyrir kristilegan og postullegan sannleika, hvað sem henni þóknast; þá

---

*praedicare vel docere audeant, quam ex his decretis explicatum atque definitum“. Syn. Trid.*

Þ. e.: Kirkjufundurinn í Tríent bannar öllum trúuðum Krists lærisveinum, að trúa, prjedika, eða kenna um þetta eptirleiðis á annan hátt, heldur en útskýrt er og ákveðið í þessum ákvörðunum.

er engin trygging lengur fyrir því, að mannlegar villusetningar og mannlegir ósiðir verði ekki gefnir út sem guðlegur sannleiki. Af þessari rót og þessarar tegundar eru einmitt sprottnir hinir mörgu ókristilegu lærdómar og villusetningar rómversku kirkjunnar, sem kirkja prótestanta afneitar og hefur afmáð, af því þessar setningar eru byggðar upp, þvert á móti heilagri ritningu, af drottnunargirni klerkavaldsins, og gefnar út sem guðleg lög, til að hneppa kristna menn undir harðstjórnarok mannasetninga, og gjöra þá að mannaþrælum. Af þessari grundvallarvillu, að kirkjan hefur sett sig upp yfir Krist og hans orð, er sprottin öll sú ógurlega afbökun, sem Krists evangelíum hefur orðið fyrir hjá katólsku kirkjunni; þaðan hafa upptök sín allir hinir óteljandi ókristilegu siðir, sem smátt og smátt hafa smeygt sjer inn, saurgað og vanhelgað kirkju Krists. Það sem lausnarinn forðum þunglega átaldi faríseana fyrir, að þeir ónýttu guðs lög með mannasetningum, það sama á einmitt heima hjá klerkavaldi rómversku kirkjunnar. Kennimenn rómversku kirkjunnar hafa lýst sjer eins og nýir farísear í kristninni; þeir hafa ónýtt evangelíum Krists, og viljað byggja upp annan lærdóm af sínum mannasetningum, og með því gjört tign Krists óvirðingu, og leitt sálirnar í glötun[1]. Það var því engin þrá-

---

[1]) *„Neque hi errores sunt existimandi leves; laedunt enim gloriam Christi, afferunt perniciem animabus, nec possunt dissimulari". Art. Smal.*

Þ. e.: þessir villulærdómar geta ekkert smáræði talizt, því þeir meiða dýrð Krists, leiða sálirnar í glötun, og geta ekki dulizt.

kelkni eða nýjungagirni, eins og katólskir bregða prótestöntum um, heldur hin stórkostlega afbökun, sem lærdómur Krists var orðinn fyrir í katólsku kirkjunni, sem knúði áhangendur siðabótarinnar, til að segja skilið við rómversku kirkjuna og klerkavald hennar, svo að þeim greiddist vegur aptur að guðsorði í ritningunni, að hinni hreinu uppsprettu sannleikans, sem kirkjan hafði lokað fyrir kristnum mönnum. Ekki er það heldur af ástæðulausum ríg við páfavaldið, heldur af djúpri kristilegri alvöru, að trúarjátningar vorar svo opt með þungum orðum mótmæla lærdóminum um dómsvald páfans og klerkdómsins yfir heilagri ritningu, og vara við honum sem hættulegasta villulærdómi[1].

Hvað hið annað atriði snertir, kirkjulegt álit og útleggingu ritningarinnar, þá lýsir sjer í því hin sama stefna hjá katólsku kirkjunni, að hún setur sig upp yfir ritninguna. Katólska kirkjan fullgilti á fundin-

---

[1]) *„Haec cum ita sint, cavere omnes christiani debent, ne fiant participes impiae doctrinae, blasphemiarum, et injustae crudelitatis papae. Ideo papam cum suis membris, tanquam regnum Antichristi, deserere et exsecrari debent, sicut Chr. jussit, Matt. 7, 15.: Cavete a psevdoprophetis“. Art. Smal.*

Þ e.: Þar eð þessu er þannig varið, er það skylda allra kristinna manna, að forða sjer við því, að verða hluttakandi í hinum guðlausa lærdómi, guðlasti, og ranglátri grimmd páfans. Þess vegna ber þeim að segja skilið við páfann og limi hans, og leggja yfir bannfæringu, eins og yfir ríki Antikrists, eins og Kristur skipaði Matt. 7, 15.: „Varið yður á falsspámönnum“.

um í Tríent sem óyggjandi hina fornu latínsku biflíuútleggingu kirkjunnar, sem heitir *„vulgata“* (hin almenna), og gaf henni einni einkaleyfi fram yfir allar aðrar biflíuútleggingar[1]. Með þessari ákvörðun hefur kirkjan þá ekki einungis tekið þessa latínsku útleggingu jafnhliða frumriti ritningarinnar, hinum ebreska og gríska texta, heldur jafnvel sett hana upp yfir frumritið. Að vísu er ágreiningur í katólsku kirkjunni sjálfri um þýðinguna á orðinu *„authentica“* á þessum stað. Sumir, hinir strangari, leggja í orðið sama sem: „innblásin af heilögum anda“ (*inspirata*); aðrir aptur, þeir vægari, leggja í það sama

---

[1]) *„Sacrosancta synodus considerans non parum utilitatis accedere posse ecclesiae dei, si ex omnibus latinis editionibus, quae circumferuntur, sacrorum librorum, quaenam pro authentica habenda sit, innotescat, statuit et declarat, ut haec ipsa vetus et vulgata editio, quae longo tot seculorum usu in ipsa ecclesia probata est, in publicis lectionibus, disputationibus, praedicationibus, et expositionibus pro authentica habeatur, et ut nemo illam rejicere quovis praetextu audeat“. Syn. Trid.*

Þ. e.: Með því hinn heilagi kirkjufundur sjer glöggt, að það geti orðið ekki alllítið gagn fyrir kirkju guðs, að öllum sje gjört kunnugt, hverja álíta skuli fullgilda af öllum þeim latínsku biflíuútgáfum, sam ganga manna á milli, þá skipar hann og lýsir yfir, að hin gamla og almenna útgáfa, sem við gengizt hefur í svo margar aldir, og unnið sjer hylli í kirkjunni sjálfri, skuli álítast fullgild í opinberum fyrirlestrum, samtölum, prjedikunum, og útlistunum, og að enginn dirfist að hafna henni af nokkurri ástæðu.

sem: „hin bezta“, og skilja þá ákvörðun fundarins svo, að *„vulgata“* sje engan veginn sett upp yfir frumtextann, heldur tekin fram yfir aðrar útleggingar ritningarinnar. En hvað sem þessum ágreiningi milli katólsku guðfræðinganna líður, þá er það víst, að kirkjan með orðinu *„authentica“* hefur meint, að útleggingin *„vulgata“* skyldi ein teljast fullgild og áreiðanleg í allri opinberlegri kirkjulegri þjónustu. Þessi *„vulgata“* var sú útlegging, sem Híerónýmus kirkjufaðir hafði samið forðum; hafði hún allt frá hans dögum, eða frá byrjun 5. aldar, haft á sjer mesta álit í rómversku kirkjunni; henni hafði verið fylgt, og hennar orð höfðu verið tilfærð, bæði í öllum trúarstríðum í vesturkirkjunni, á öllum kirkjufundum, og í öllum brjefum og úrskurðum páfanna frá 5. öld, því latínsk tunga var almennt kirkjumál á öllum vesturlöndum. Með tilliti til þessa skýrskotar fundurinn í Tríent til aldursins, og tilfærir sem ástæðu, „að hún í svo margar aldir hafi haft á sjer álit í kirkjunni“. En þó kirkjan beri hjer fyrir fastheldni við það góða og gamla, þá má þó í rauninni, þegar öllu er á botninn hvolft, af þessari ákvörðun sjá, að hinn sami klerkavaldsandi, sem drottnandi er í öðru atferli kirkjunnar, ræður hjer líka fyrir. Því með þessari ákvörðun hefur kirkjan bæði ætlað að aptra biflíuútleggingum prótestanta inngöngu í katólsku kirkjuna, og jafnframt haft það fyrir augum, að ýmsir lærdómar rómversku kirkjunnar eru byggðir á latínsku útleggingunni *„vulgata“* einni, þar sem hún leggur rangt út frumritin, og hefði þá kirkjan

misst undirstöðuna fyrir villulærdómi sínum, ef *„vulgata“* hefði verið vikið úr sæti. Yfir höfuð hefur kirkjan sjeð, að útleggingin *„vulgata“* var í öllu tilliti samkvæmust stefnu kirkjunnar; að öðrum kosti hefði kirkjan ekki fullgilt hana eina, og gengið fram hjá frumritinu sjálfu. Þó kirkjan gjörði þessa ráðstöfun, til tók hún ekki jafnframt, hverja útgáfu latínsku útleggingarinnar leggja skyldi til grundvallar; hún fullgilti enga vissa útgáfu af *„vulgata“*, en gaf einungis fyrirheiti um, að einhver útgáfa skyldi birtast í því skyni. Þessi útgáfa birtist ekki fyr en rúmum 40 árum síðar, 1590, undir stjórn Sixtusar páfa 5. Staðfestingarbrjef páfans segir, að þetta sje sú útgáfa, sem fundurinn hafi heitið, og sje hún nú gjörð úr garði endurbætt sem bezt megi verða (*prout optime fieri potest emendata*). Í þessari útgáfu höfðu líka verið gjörðar margar endurbætur og breytingar frá hinni fornu útgáfu. Samt sem áður var svo langt frá því, að hún þætti gallalaus, að 2 árum síðar ljet Clemens 8. endurbæta þessa útgáfu Sixtusar, og eru þær endurbætur fullar 2000 að tölu. Þessi útgáfa gefur sig ekki fremur en hin út fyrir gallalausa útgáfu; því páfinn var svo samvizkusamur, að hann jafnvel játaði í brjefi sínu, „að vegna mannlegs breyskleika sje erfitt að fullyrða, að þessi útgáfa sje algjör“. Af þessu er auðsjeð, að rómversku kirkjunni verður ekki gefið það með rjettu að sök, að hún skilyrðislaust vilji banna allar endurbætur á biflíuútleggingu kirkjunnar, eða hún hafi lýst því yfir, að útlegging kirkjunnar sje algjör, og skipað, að allri endurskoðun

skyldi vera lokið. En hitt er aptur víst, að þegar kirkjan hefur bundið menn við eina latínsku útlegginguna, þá álítur hún hana í alla staði jafngilda frumritinu, og enga þörf, að leggja þau til grundvallar; sömuleiðis hefur kirkjan eða páfinn, auðsjáanlega áskilið sjer einum með þessu rjett til, að halda á fram endurbótarverkinu, svo að allir guðfræðingar, og allir katólskir menn yfir höfuð eru bundnir við textann í „*vulgata*“, eins og hún hefur hann, þangað til páfinn af guðlegu valdi sínu ákveður einhvern annan texta; en þetta athœfi er, samkvæmt prótestantiskri skoðun, eins mótstœðilegt kristilegu trúarfrelsi, eins og það er gagnstœtt allri vísindalegri sannleiksrannsókn. Ýmsir katólskir guðfrœðingar, hinir svo nefndu „*lingvistar*“ (málfrœðingar), t. a. m. Richarð Símon á fyrri tímum, og Jahn og Hug á síðari tímum, hafa jafnvel með dœmi sínu varið hina frjálsari stefnu í biflíufrœðinni, án þess þó beinlínis að mótmæla ákvörðunum kirkjunnar. Þeir hafa sagt, að ákvörðun fundarins væri ekki trúarfrœðislegur úrskurður, heldur millibilstilskipun á móti hinum mörgu ófullkomnu útgáfum af „*vulgata*“, og móti útleggingu Lúters; en engan veginn hefði fundurinn ætlað sjer, að meina lærðum guðfrœðingum kirkjunnar aðgöngu að frumriti ritningarinnar á ebresku og grísku. Þar á móti hefur hinn strangari kirkjuflokkur, hinir svo nefndu „*vulgatistar*“ (*vulgötumenn*), jafnan skilið úrskurð kirkjufundarins svo, að hin latínska kirkjuútlegging, „*vulgata*“, eigi ein að vera bindandi regla fyrir allri biflíuþýðingu, og engum lærðum guðfrœð-

ingi sje leyfilegt, að byggja útþýðingu sína á frumriti biflíunnar, ebreska eða gríska textanum; og er þessi skilningur á orðum fundarins sjálfsagt rjettari, og í anda kirkjunnar sjálfrar.

Prótestantiska kirkjan, sem játar heilaga ritningu eina áreiðanlegan grundvöll trúar og siðferðis, álítur það sína helgustu skyldu, að greiða öllum börnum kirkjunnar veginn að þessari uppsprettu sannleikans, svo að allir jafnt geti átt aðgang að guðsorði, og það fái inngöngu, og nái að rótfestast hjá þjóðunum hreint og ómeingað af öllum mannasetningum. Prótestantiska kirkjan neitar þess vegna útleggingunni „*vulgata*“ alveg um það gildi, sem katólska kirkjan eignar henni, og telur það háskalegt ófrelsisband, sem aptri hreinni þekkingu á guðsorði, að rígbinda menn við hana eina. Því þegar lærðir menn, sem hafa það starf á hendi, að rannsaka ritningarnar, eru bundnir við þessa einu útleggingu, og þeim er meinað, að ganga að hinu upphaflega frumriti, og leggja sig niður við orðið í upphaflegri lögun þess, þá verður útlegging þeirra ekki einungis grundvallarlaus og óvísindaleg, heldur jafnvel víða röng, með því þeir eru bundnir við ranga útleggingu, eins og raunin ber vitni um, að rómverska kirkjan byggir ýmsa trúarlærdóma sína, sem prótestantar álíta villulærdóma, af því þeir hafa enga fótfestu í ritningunni, einungis á útleggingu sinni „*vulgata*“, þar sem hún leggur frumtextann skakkt út; tilbeiðslu helgra manna t. a. m. byggir kirkjan á sálm. 150, 1., af því „*vulgata*“ leggur út: „Lofið drottin meðal hinna helgu“,

í stað þess, að í frumritinu stendur: „Lofið drottin í helgidóminum“. Að hjónavígsla sje sakramenti, sannar katólska kirkjan af Ef. 5, 32., af því „*vulgata*“ leggur út: „Þetta er mikið sakramenti“, í stað þess, að hin rjetta útlegging er: „Þetta er mikill leyndardómur“. Prótestantiska kirkjan álítur þar á móti enga biflíuútleggingu algjörða, en allar meira eða minna ófullkomnar, eins og öll önnur mannaverk; áreiðanlegt gildi eignar hún einungis frumriti ritningarinnar, ebreska og gríska textanum, og gjörir því guðfræðingum sínum að skyldu, að byggja alla útþýðingu á honum sem grundvelli. Samkvæmt stefnu sinni leggur prótestantiska kirkjan enn fremur alla stund á, að heilög ritning flytjist til allra þjóða í útleggingum, svo að leikmenn og alþýða geti sjálf gengið að guðsorði, uppbyggzt af því, og haft þess full not, þegar hún les það á sínu eigin móðurmáli, sem hún skilur. Þess vegna var það eitt hið fyrsta verk Lúters, að snúa heilagri ritningu á móðurmál þjóðar sinnar, og prótestantiska kirkjan hefur síðan trúlega fylgt þessu dœmi; um það eru biflíufjelögin ljós vottur. Katólska kirkjan hefur þar á móti fylgt allri annari, eða heldur gagnstœðri aðferð í þessu efni, og reynzt í því fullkomlega trú sinni stefnu. Að vísu geta menn ekki sagt, að kirkjan skilyrðislaust hafi bannað allar biflíuútleggingar á þjóðmálunum, þó hún fullgilti latínsku útleggingu sína eina; og Píus páfi 4. segir í reglunum fyrir hinum forboðnu bókum, „að kristnum mönnum sje leyft, að lesa ritninguna á móðurmáli sínu, ef þeir hafi til þess leyfi frá prest-

um sínum eða skriptafeðrum". En eins og þetta leyfi lýsir engum sjerlegum þokka til biflíuútlegginga, eins er það víst, að rómverska kirkjan jafnan, bæði fyr og síðar, hefur amazt við, en aldrei stutt að því, að alþýða eða leikmenn gætu lesið biflíuna á móðurmáli sínu. Þvert á móti lúta margar tilskipanir kirkjunnar, bæði fornar og nýjar, einmitt að því, að reisa skorður við biflíuútleggingum, og miða þannig til þess, að loka heilagri ritningu fyrir alþýðu. Þannig bannaði Gregoríus páfi 7. á 11. öld harðlega hinum slafnesku þjóðum, að snúa heilagri ritningu á þeirra tungu, og færði til þá ástæðu, „að ritningin með því vanhelgaðist, og yrði að athlægi hjá þjóðunum". Hin sanna ástæða var í rauninni sú, að páfinn ætlaði sjer með þessu, að rígbinda hinar fjarlægu þjóðir við rómversku kirkjuna, og í því skyni vildi hann smeygja inn hjá þeim latínumáli kirkjunnar í allri guðsþjónustu. Í hinni orðræmdu tilskipun „*unigenitus*"[1] bannfærði Clemens páfi 11. árið 1713 þá setningu, „að lestur heilagrar ritningar sje fyrir öllu". Sömu óbeit hefur kirkjan látið í ljósi á biflíulestri alþýðu allt að þessum tímum, og því hefur hún á þessari öld amazt við biflíuútleggingum og lýst vanþóknun sinni á biflíufjelögum prótestantisku kirkjunnar, sem setja sjer það mið, að út breiða heilaga ritningu meðal þjóðanna. Píus páfi 7. varaði í brjefum sínum til ýmissa biskupa árið 1816 við biflíufjelögum, og kallar

[1]) Brjef páfanna eru kennd við og kölluð eptir upphafsorðum þeirra. Þetta brjef byrjar á orðunum „*Unigenitus filius dei*" (eingetinn sonur guðs), og heitir því „*Unigenitus*".

þau „eitur í kirkjunni"; og í umburðarbrjefi 1824 til allra erkibiskupa og biskupa kirkjunnar lýsti Leó páfi 12. því yfir, „að biflíufjelögin aflagi heilaga ritningu með útleggingum sínum á þjóð-tungumálin, því af slíkum útleggingum standi sá háski búinn, að Krists evangelíum verði að manna evangelíó, eða jafnvel djöfulsins evangelíó". Þessi dœmi sýna ljóslega, að katólska kirkjan hefur enn, sem fyr, ýmugust á biflíulestri alþýðu. Þessi óbeit er í rauninni ekki af því, að kirkjan amist við biflíuútleggingarnar sjálfar, eða vilji meina mönnum að öllu leyti að lesa guðsorð, heldur kemur hún til af því, að kirkjan ber kvíðboga fyrir, að, þegar ritningin er í hvers manns höndum, þá muni það skapa ýmislegan skilning, og aðra útþýðingu á ritningunni, heldur en kirkjan sjálf hefur og játar. Rómverska katólska kirkjan hefur nl. á fundinum í Tríent áskilið sjer einni að ákveða, hvernig skilja skuli á hverjum stað orð ritningarinnar, og í því skyni úrskurðað, að hinnar sönnu og áreiðanlegu útleggingar biflíunnar sje að leita hjá kirkjunni einungis[1]. Þessi ákvörðun er í alla staði samkvæm

---

[1]) *Ad coercenda petulantia ingenia decernit, ut nemo suae prudentiae innixus in rebus fidei et morum, sacram scripturam ad suos sensus contorquens contra eum sensum, quem tenuit et tenet sancta mater ecclesia, cujus est judicare de vero sensu et interpretatione scripturarum sanctarum, aut etiam contra unanimem consensum patrum ipsam sacram scripturam interpretari audeat". Syn. Trid.*

þ. e.: Til þess að hafa hemil á taumlausu sjálfræði manna,

anda katólsku kirkjunnar; hún hefur, eins og mörg önnur kenning hennar, rót sína í þeirri grundvallarvillu, að slengt er saman sýnilegri og ósýnilegri kirkju. Kirkjan, sem eignar sjer innblástur heilags anda, og álítur sig stöðuga uppsprettulind alls guðlegs orðs, hlýtur, samkvæmt því, að eigna sjer einni ótakmarkað æðsta dómsatkvæði í því, að ákveða þýðingu hins guðlega orðs. Eins og kirkjan þykist ein geta sagt af guðlegu valdi sínu, hvað sje og hvað gilda skuli sem guðsorð, eins eignar hún sjer einni myndugleika til, að útleggja og útþýða þetta orð. Kirkjan, eða klerkavald hennar, er hinn sýnilegi dómstóll, sem guð hefur útbúið valdi, til þess að útþýða ritninguna í sínu nafni. Þessum dómstóli getur ekki skjátlazt, því eiga allir að lúta útleggingum hans og úrskurðum. Kirkjan getur þess vegna ekki þolað, að hver og einn þýði heilaga ritningu eptir eigin geðþótta, en heimtar, að lagt sje undir sína úrlausn og sinn úrskurð, ef vafi og ágreiningur verður um einhvern stað, og jafnframt, að allir gefi sig í hlýðni undir óbrigðult dómsatkvæði heilagrar kirkju, eins í þessu sem öðru. Kirkjan ber fyrir sig í þessu efni ýmsa staði ritningarinnar, t. a. m. 1. Kor. 12, 30.: „Allir

---

setur kirkjufundurinn þá ákvörðun, að enginn í trausti til eigin hyggjuvits, og með því að teygja heilaga ritningu í trúar- og siðalærdóma-efnum til sinnar eigin þýðingar, dirfist að útþýða hana gagnstætt þeim skilningi, sem hin heilaga móðir, kirkjan, hefur haft og hefur, sem ein á að dæma um sanna þýðingu og útleggingu ritninganna, eða gagnstætt samhljóða útþýðingu feðranna.

út leggja ekki"; Lúk. 8, 10.: „Yður er gefið, að skilja leyndardóma ríkisins"; sömuleiðis bera katólskir guðfræðingar fyrir sig, að ritningin sje þungskilin og erfið, og því sje þörf á samsvarandi guðlegri upplýsingu, til að geta komizt til rjettrar þýðingar guðsorðs í ritningunni.

Það, sem katólska kirkjan í þessu efni, eins og öðru, eignar hinni sýnilegu kirkju, heimfæra prótestantar til hinnar ósýnilegu. Prótestantiska kirkjan játar, að þeir einir geti skilið heilaga ritningu rjettilega, sem eru í samfjelagi við hina sönnu kirkju, það er að skilja: í samfjelagi við Krist og hans anda. Prótestantiska kirkjan kennir að vísu, að sá sje til, sem einn er algjör og óbrigðull útþýðari heilagrar ritningar; en þessi útþýðari er hvorki páfi nje kirkjufundir, hvorki klerkavald nje nokkur stjett, nje nokkur einstakur maður, heldur heilagur andi. Eins og hver höfundur er færastur um, að leggja rjett út sín eigin orð, eins er heilagur andi, höfundur ritningarinnar, sá eini sanni og áreiðanlegi útþýðari hennar; hann, sem rannsakar guðs leyndarráð, er einn fullkomlega fær um, að útþýða þau, því „enginn veit, hvað í guði býr, nema guðs andi"; 1. Kor. 2, 11. Til þess að geta skilið ritninguna, þarf því hver að öðlast hlutdeild í anda hennar; hann þarf að upplýsast af heilögum anda; en þessi upplýsing er ekki bundin við vissa stjett eða stöðu, og veitist ekki á ytri hátt með vissum athöfnum, heldur veitist andinn gegnum guðsorð[1]. Hver, sem með trúuðu og guð-

[1]) „*Verbum dei praedicatum et auditum re vera*

rœknu hugarfari gengur að heilagri ritningu, og leitar þar uppbyggingar og fœðu sálu sinni, honum upplýkst ritningin, svo að hann kemst í sannan skilning á guðsorði, því „sá sem leitar, hann mun finna“. Í og með orðinu veitist manninum náðargáfa andans, sem lýkur upp fyrir honum þýðingu guðsorðs, og leiðir hann í allan sannleika, svo að því handgengnari maðurinn verður heilagri ritningu, og því fremur hann hefur orð hennar um hönd, því tamara verður honum að skilja hana, og því fœrari verður hann að komast til rjettrar þýðingar á orðum hennar. Það er þá ekki náttúrlegur skilningur mannsins eða náttúrlegt hyggjuvit hans, sem útþýðir honum ritninguna, heldur heilagur andi, sem með orðinu, eins og verkfœri sínu, hefur höndlað skynsemi hans, upplýst og hvesst skilning hans, svo það, sem manninum áður var óskiljanleg ráðgáta, er skilningi hans nú ljóst og áþreifanlegt. Hin prótestantiska kirkja kennir þannig, að ritningin sje sinn eiginn sanni útþýðari, eða, sem er það sama, heilagur andi, sem með orði sínu, ritningunni, hefur sundrað myrkri mannlegs hyggjuvits, breytt hinum holdlega sljóvleika í andlega skarpskyggni, og gjört anda mannsins, sem áður skildi ekki nema jarðneska hluti, móttœkilegan fyrir himnesk og

---

*est ministerium et organon spiritus sancti, per quod in cordibus nostris efficax est et operatur“. Form. conc.*

þ. e.: Guðsorð boðað og numið er í sannleika það meðal og verkfœri heilags anda, með hverju hann er kröptugur og starfandi í hjörtum vorum.

guðleg efni. Þess vegna er sú ástœða, sem katólskir bera fyrir, að ritningin sje torskilin, alveg þýðingarlaus. Ritningin er ekki torskilin, nema hinum óendurfœdda manni, þeim, sem ekki er upplýstur af heilögum anda; hinum andlega sinnaða, þeim, sem upplýstur er af anda ritningarinnar, er hún ljós og auðskilin. Erfiðleikinn er þá ekki ritningunni að kenna, heldur myrkrinu, sem ríkir í hugskoti hins holdlega sinnaða manns. Þar á móti neitar prótestantiska kirkjan því algjörlega, að hin sýnilega kirkja, eða nokkur mannlegur dómstóll í henni, eða nokkur einstakur maður sje algjör og óbrigðull útþýðari heilagrar ritningar; því eins og allt mannlegt er takmarkað og ófullkomið, eins er bæði hver einstakur maður og hin sýnilega kirkja, sem mannlegt fjelag, hjer á sinni jarðnesku vegferð ekki algjör eða fullkomin, heldur á veginum fram að fullkomlegleikanum, og þess vegna enn þá hjer í sínu jarðneska ástandi takmörkun, breyskleika og villu undirorpin, og getur því öllum mönnum, hvort heldur eru páfar eða kirkjufundir, skjátlazt í rjettum skilningi á guðsorði. Prótestantiska kirkjan telur því með fullum rjetti óheyrilega ósvífni lærdóm katólsku kirkjunnar, þegar hún þykist ein hafa lykil þekkingarinnar, og eignar sjer það, sem guðs eins er, að vera óbrigðull útþýðari heilagrar ritningar, sem aldrei geti skjátlazt í útleggingu sinni; þvílíka kenningu telja prótestantar ókristilegan og hættulegan villulærdóm, ekki síður en allan klerkavaldslærdóm kirkjunnar, sem er fóturinn undir þessari villu; því hjer kemur bersýni-

lega einnig fram klerkavaldsstefna kirkjunnar, sem setur kennilýðinn hvervetna í stað Krists og heilags anda, gjörir klerkavaldið að meðalgangara milli guðs og manna í stað hins eina Jesú Krists, og eignar sjer af þessum rökum einnig hjer ótakmarkað vald, til að útþýða ritninguna, en meinar leikmönnum frjálsan aðgang að guðsorði, og lokar alþýðu þannig hinn sanna veg til guðs, veginn í gegnum Krist, hinn eina fullkomna leiðtoga, og hans orð, en opnar henni aptur villuveg, veginn í gegnum marga blinda leiðtoga, það er að skilja klerkavald kirkjunnar.

Eins og katólska kirkjan með hinni latínsku kirkjuútleggingu leggur fjötur á útbreiðslu guðsorðs meðal alþýðu, eins leggur hún ófrelsisok á alla vísindalega biflíuútleggingu hjá guðfræðingum kirkjunnar. Menn hafa stundum borið kirkjunni það á brýn, að hún alveg kollvarpaði allri vísindalegri biflíuþýðingu, og bannaði hana. En eflaust er þetta of harður dómur. Því katólska kirkjan hefur aldrei beinlínis bannað guðfræðingum sínum, að útþýða ritninguna og rannsaka orð hennar; hún hefur einungis bannað þeim, að koma fram með útleggingar, sem ekki geti samrýmzt lærdómi kirkjunnar, og hefur því áskilið sjer, þegar ólíkar útþýðingar koma upp, að skera úr því, hver rjett sje og gilda skuli. En hitt liggur í augum uppi, að frjáls og vísindaleg biflíuþýðing getur ekki þrifizt í katólsku kirkjunni, þar eð hún er fjötruð böndum kirkjulegrar harðstjórnar. Guðfræðingar kirkjunnar eru, eins og áður er sagt, bundnir við hina latínsku útleggingu, og meinað að ganga að

frumritunum, en með því er biflíuþýðing þeirra auðsjáanlega svipt hinni sönnu undirstöðu, og hlýtur að verða fótfestulaus og óvísindaleg, mest fólgin í því, að tína upp útleggingar eldri guðfræðinga. Guðfræðingum kirkjunnar er enn fremur bannað, að draga nokkra aðra þýðingu út úr orðum ritningarinnar, heldur en kirkjan sjálf hefur áður fundið og ákveðið; þannig tekur kirkjan með myndugleika sínum fram fyrir hendurnar á allri frjálsri rannsókn. Guðfræðingar katólsku kirkjunnar hljóta að lifa í sífelldum ófrelsisótta um það, að þeir á hverri stundu komist í mótsögn við kirkjulærdóminn; þeir eru fyrirfram skyldaðir til, að komast að sömu niðurstöðu, sem kirkjan hefur sett, og mega hræðast svipu kirkjulegs valds, ef útleggingu þeirra ber ekki saman við kirkjuna. En slíkur þrældómsandi hlýtur ekki einungis að hneppa biflíuþýðingu kirkjunnar í ófrelsi, og gjöra hana að hálfvelgju, heldur einnig verða til niðurdreps djúpri og lifandi þekkingu á sannleiksorði ritningarinnar.

Allt annað á sjer stað í prótestantisku kirkjunni; þar eð hún neitar öllu mannlegu valdi í trúarefnum, og játar engan mannlegan dómstól sem algjörðan útþýðara heilagrar ritningar, gefur hún ekki einungis öllum limum sínum frjálslega kost á, að rannsaka guðsorð í ritningunni með eigin augum, heldur hvetur þá alla til, eins lærða sem ólærða, að leitast við eptir megni, og á þann hátt, sem hver bezt getur, að komast í sem fullkomnastan skilning á guðsorði. Prótestantiska kirkjan gjörir því fyrst og fremst þá kröfu

til guðfræðinga sinna, að þeir geti rannsakað ritningarnar í hinni upphaflegu mynd, og þess vegna að þeir kunni frumtungurnar, sem ritningin er rituð á, en bindur þá við enga kirkjuútleggingu, eins og katólska kirkjan. Ekki takmarkar hún heldur frelsi útþýðandanna við trúarfræði kirkjunnar, því hún neitar allri ytri kúgun í trúarmálefnum, og viðurkennir engan drátt til trúarinnar annan en andlegan drátt heilags anda, sem er það sama sem innri trúarsannfæring[1], og í trausti til þessa andlega máttar og sannfærandi kraptar guðlegra orða er hún þess örugg, að sjerhver, sem leitar að uppfræðingu í heilagri ritningu með guðræknu hugarfari og sannri löngun eptir rjettri þekkingu á guðsorði, muni komast til svo mikillar þekkingar á heilagri ritningu, sem honum er næg til sáluhjálpar. Og þó ýmislegar útleggingar kunni að koma upp, þá treystir hin prótestantiska kirkja því, að drottinn kirkjunnar muni bera umhyggju fyrir, að kirkja hans missi aldrei alveg sjónar á hinum rjetta og sanna skilningi á orði hans; og þó hún játi, að enginn maður sje sá, að honum geti ekki skjátlazt í rjettum skilningi ritningarinnar, þá telur hún það þó miklu hættuminna fyrir kristna menn, að þeim

---

[1]) *„Haec autem agitatio spiritus sancti non est coactio, sed homo conversus sponte bonum operatur". Form. conc.*

Þ. e.: En þessi dráttur heilags anda er ekki kúgun, heldur vinnur hinn endurfæddi maður góðverk af sjálfum sjer og með fúsu geði.

bregðist skilningurinn, þegar þeir leita sannleikans einlæglega, heldur en að þeir, eins og rómverska katólska kirkjan heimtar, afneiti skynsemi sinni, ofurselji sig í blindni dómstóli kirkjunnar í trúarefnum, og gjörist með því mannaþrælar.

Viðvíkjandi þriðja atriðinu um álit hinna helgu bóka sín á milli, þá skipar rómverska katólska kirkjan, að þær skuli meta allar jafnt sem grundvöll trúar og siðferðis, og af nemur alla aðgreiningu á milli hinna svonefndu apokrýfisku[1] og kanónisku bóka (trúarreglubóka). Kirkjufundurinn í Tríent skipaði, að játa allar þær bækur kanóniskar, sem standa í *„vulgata"*, útleggingu kirkjunnar[2]. Frá alda-öðli hafði kristileg kirkja gjört greinarmun á hinum helgu bókum. Þessi aðgreining var byggð bæði á vitnisburðum kirkjulegra sögusagna, og þeirri sannfæringu kirkjunnar, að allar bækur ritningarinnar hefðu ekki jafna hlutdeild í náðargjöf heilags anda. Þannig er til

[1]) Af bókum gamla testamentisins kallar prótestantiska kirkjan þær apokrýfiskar, sem ritaðar hafa verið á grískri tungu, en ekki ebreskri.

[2]) *„Si quis autem libros ipsos integros cum omnibus suis partibus, prout in ecclesia catholica legi consueverunt, et in veteri vulgata latina editione habentur, pro sacris et canonicis non susceperit, anathema sit". Syn. Trid.*

Þ. e.: Játi einhver ekki bækur ritningarinnar í heilu lagi, með öllum pörtum þeirra, eins og vandi er til að lesa þær í katólsku kirkjunni, og eins og þær standa í hinni fornu latínsku útgáfu „vulgata", að vera helgar og kanóniskar bækur, sá sje bölvaður.

greinileg skýrsla eptir Evsebíus biskup í Cæsarea, † 340, um safn hinna helgu bóka á hans dögum samkvæmt áliti kirkjunnar; þar gjörir hann aðgreiningu á þeim bókum, sem játaðar voru mótmælalaust af öllum kristnum kirkjum regla trúar og siðferðis (ὁμολογούμενα), og öðrum, sem ekki þóttu hafa jafna hlutdeild í mæli andans, sem vafasamt þótti um hvort væru eptir þá höfunda, sem þær voru eignaðar, og sem ekki höfðu með sjer vitnisburði fornra kennimanna kirkjunnar, jafnvel þó þær þættu uppbyggilegar, og væru lesnar í mörgum kirkjum (ἀντιλεγόμενα). Þessarar aðgreiningar gætti kirkjan síðan vandlega fram eptir öllum öldum, með því að gjöra mismun á kanóniskum og apokrýfiskum bókum. Katólskir guðfræðingar hafa að vísu borið fyrir sig á síðari tímum, að kirkjufundurinn í Kartagó 397, þar sem Augustínus biskup rjeð mestu, hafi talið meðal kanóniskra bóka einmitt þær, sem nú eru kallaðar apokrýfiskar. En þetta er í rauninni þýðingarlaus viðbára; því Augustínus meinti með apokrýfiskum bókum þær bækur, sem öllum var auðsjáanlegt að ekki gætu verið regla trúarinnar, sem bersýnilega voru diktur villutrúarmanna, og sem Evsebíus hafði kallað óguðleg (δυσσεβῆ) og óhæfurit (ἄτοπα), og skipað í flokk sjer. Þó Augustínus þess vegna tæki í safnið þær bækur, sem nú eru kallaðar apokrýfiskar, t. a. m. Makkabea-bækur, Síraksbók, Spekinnarbók, Júditsbók, o. s. frv., þá leiðir engan veginn af því, að hann hafi eignað þessum bókum jafnt gildi við hinar. Þvert á móti er það víst, að kirkjufeður sam-

tíða Augustínusi, t. a. m. Híerónýmus, † 420, gjöra ljóslega greinarmun á þessum apokrýfisku bókum og hinum kanónisku, og þeirri reglu fylgdi kirkjan síðan allar aldir á eptir, og allt fram að fundinum í Tríent stóð þessi upphaflega aðgreining milli bókanna óhögguð í kirkjunni. Þegar því rómverska kirkjan á fundinum í Tríent af nam þessa gömlu aðgreiningu á kanóniskum og apokrýfiskum bókum, þá hafði þessi ráðstöfun hennar enga fótfestu í sögulegum ástæðum; hún var á engum sögulegum vitnisburðum byggð, og var að því leyti heimildarlaus. Eflaust rjeð rígur við prótestanta nokkuð í þessu tilliti hjá kirkjufundinum; hann vildi ekki vera samdóma mótstöðumönnum sínum, áhangendum siðabótarinnar, í þessu efni, heldur en í öðrum; því höfundar siðabótarinnar höfðu fallizt á, og tekið upp aptur hina fornu aðgreiningu á kanóniskum og apokrýfiskum bókum. En í rauninni hefur þessi ákvörðun kirkjufundarins dýpstu rætur sínar í klerkavaldsstefnu kirkjunnar. Rómverska kirkjan, sem hvervetna setur sig upp yfir Krist og orð hans, og hrífur sjer guðlegan myndugleika, hlýtur að eigna sjer sjálfsagðan rjett til þess, að einskorða um aldur og æfi gildi hinna helgu bóka, og samband þeirra sín á milli, hverjar vera skuli kanóniskar, og hverjar ekki, þó það sje þvert ofan í alla vitnisburði sögunnar. Þegar lesið er ofan í kjölinn, þá eru það þessi rök, það er að skilja: hinn kirkjulegi harðstjórnarandi, sem knúð hefur katólsku kirkjuna á fundinum í Tríent til að úrskurða, að hinar apokrýfisku bækur skuli ganga jafnt hinum kanónisku.

Allt öðruvísi lítur prótestantiska kirkjan á þetta efni; hún álítur, að byggja eigi allan dóm um þetta mál, bæði á sögulegum vitnisburðum fornkirkjunnar, og innri vitnisburðum, það er að skilja: þeim leiðbeiningum, sem bækurnar sjálfar gefa. Þess vegna viðurkennir prótestantiska kirkjan hina upphaflegu aðgreiningu á kanóniskum og apokrýfiskum bókum, og gefur guðfræðingum sínum jafnvel frjálsan kost á, að vega samkvæmt þessum reglum gildi hinna kanónisku bóka sín á milli. Lúter sjálfur benti fyrstur á veginn í þessari rannsókn; hann kvað skýrt og frjálslega upp sitt álit um ýmsar bækur ritningarinnar, um samband þeirra sín á milli, og mismunandi gildi þeirra sem trúarreglu; þannig telur hann brjef postulans Páls ofar en Jakobs brjef, brjefið til Ebreskra og síðara Pjeturs brjef[1]. Þar á móti hefur rómverska katólska kirkjan með úrskurði sínum og kirkjulegum myndugleika úti byggt allri frjálsri rannsókn um þetta efni. Hún neyðir guðfræðinga sína, hvort sem þeir vilja eða ekki, til að játa þær bækur kanóniskar, sem öll fornkirkjan hefur efazt um, og aldrei játað sem reglu trúarinnar, einungis af því þær standa í latínsku útleggingu kirkjunnar. Hún fullgildir jafnvel heila kafla, sem ekki standa í frumritinu, t. a. m. 13. og 14. kapítulana í Daníelsbók. Þessi mismunur milli kirknanna er auðsjáanlega ekki þýðingarlaus, en hlýtur að hafa áhrif á trúarfræði þeirra, þar eð katólska kirkjan hiklaust byggir trúarlærdóma

[1]) Smbr. formála Lúters fyrir brjefi Jakobs og brjefinu til Ebreskra.

sína á mörgum bókum, sem prótestantiska kirkjan getur ekki kannazt við að sjeu óbrigðul regla trúarinnar. Guðfræðingar katólsku kirkjunnar hafa á síðari tímum gjört mismun á kanóniskum bókum og devtero-kanóniskum, það er: kanóniskum á lægra stigi, og innibinda þeir í þessum síðari flokki þær bækur, sem prótestantar kalla apokrýfiskar; með þessari aðgreiningu hafa katólskir guðfræðingar þá í þessu efni þokazt nokkuð nær prótestantisku kirkjunni.

## 2. kapítuli.

### Um ágreininginn milli rómversku katólsku og prótestantisku kirkjunnar í hinum einstöku trúarlærdómum.

---

### 4. grein.

### Um ástand mannsins fyrir og eptir fallið.

*(De statu integritatis et de statu corruptionis.)*

Í þessum lærdómi um samband mannsins við guð leggja báðar kirkjur til grundvallar lærdóm kristindómsins um syndina. Báðum kemur saman í því, að hið upphaflega ástand mannsins, guðsmyndin, hið upprunalega rjettlæti, hafi glatazt; að mannlegt eðli, eins og það nú er, sje í spillingarinnar ástandi; að dauðinn hafi komið inn í heiminn með falli hinna fyrstu manna, og að hin almenna eðlisspilling mannanna sje afleiðing og ávöxtur hinnar fyrstu syndar.

Mikill ágreiningur kemur samt í ljós milli kirknanna í þessari grein, þegar lengra er farið inn í þetta efni, og lýsir hann sjer einkanlega í afleiðingunum; því hin ólíka skoðun kirknanna á þessum lærdómi er einmitt rótin til ágreinings þeirra í ýmsum trúargreinum, sem síðar mun verða talað um.

Trúarfræði rómversku katólsku kirkjunnar kennir, að guðsmyndin, sem glataðist í syndafallinu, eða hið upprunalega rjettlæti *(justitia originalis)*, hafi í rauninni ekki verið eðliseiginlegleiki mannlegrar náttúru, heldur að eins sjerstakleg gjöf guðs, eða yfirnáttúrleg viðbót skaparans við mannsins náttúrlegu hæfilegleika *(donum superadditum, supernaturale)*. Kirkjufundurinn í Tríent hefur að vísu farið fljótt yfir þetta efni, og stýlað orð sín tvírætt og ónákvæmt, þar sem hann talar um hið upphaflega ástand mannsins, og segir, „að hinn fyrsti maður hafi misst þann heilagleika og rjettlæti, sem hann var settur í" *(primum hominem sanctitatem et justitiam, in qua constitutus fuerat, amisisse)*. En þó kirkjufundurinn skýri ekki nákvæmar frá, í hverju menn eigi að hugsa sjer guðsmynd, þá skýrir hin rómverska lærdómsbók, sem er önnur trúarjátning kirkjunnar, ljóst og hreinskilnislega frá því, að kirkjan hugsar sjer hið upphaflega eðli mannsins á þennan hátt[1]. Katólska

---

[1]) *„Deus hominem sic effinxit, ut non quidem ipsius naturae vi, sed divino benificio immortalis esset, quod ad animum pertinet, eum ad imaginem et similitudinem suam formavit. Tum admirabile justitiae originalis donum addidit, et deinde caeteris animantibus praeesse voluit". Cat. Rom.*

þ. e.: Guð skapaði manninn þannig, að hann var ódauðlegur, að vísu ekki af eðli náttúru sinnar, heldur af guðlegri gjöf. Hvað andann snertir, þá skapaði guð hann eptir mynd sinni og líkingu. Síðan bætti hann við aðdáanlegri gjöf upprunalegs rjettlætis, og setti hann yfir önnur dýr.

kirkjan hefur í þessu efni, eins og víðar, aðhyllzt trúarfræði miðaldanna. Tómás Aquínas, † 1274, og aðrir guðfræðingar á miðöldunum eptir hann aðgreindu í lærdóminum um upprunaástand mannsins hina náttúrlegu hæfilegleika hans og krapta *(pura naturalia)* frá guðsmyndinni, og kenndu, að guðsmyndin hefði ekki verið partur af eðli mannsins, sem honum var upphaflega áskapað, heldur væri hún tilgjöf eða viðbót guðs ofan á hið upphaflega eðli mannsins. Nú kenndu þeir enn fremur, að í syndafallinu hefði glatazt þessi guðsmynd, eða hinn upprunalegi heilagleiki, sem ekki hefði í raun og veru verið upphaflegt einkenni mannlegrar náttúru.

Prótestantiska kirkjan hefur þegar frá öndverðu með fullum rjetti brugðið katólsku kirkjunni um, að þessi lærdómur hennar væri bersýnileg villa Pelagíusar[1], eða sprottinn af villulærdómi hans, og neitar því alveg þessari kenningu. Prótestantiska kirkjan kennir þar á mót, að hið upprunalega rjettlæti eða guðsmyndin hafi engin ytri viðbót verið við mannlega náttúru, heldur hafi hún einmitt veriðásköpuð manninum upphaflega, og þess vegna verið eðliseinkenni mannlegrar náttúru, og þessi guðsmynd, þetta mannsins upphaflega sanna eðli, hafi týnzt í syndafallinu. Þessi ágreiningur er ekki lítilsverður; áhrif hans sýna sig í trúarfræði beggja kirkna, og hann er rótin til hins

[1]) Pelagíus flutti þá villu, að kraptar mannlegrar náttúru til hins góða hefðu ekki veikzt af synd Adams, en allir fæddust óspilltir, með sömu kröptum til hins góða, sem Adam hafði, þegar hann kom frá hendi skaparans.

mikla trúarfræðislega ágreinings milli kirknanna um þá lærdóma, sem næst standa í sambandi við þennan lærdóm, sem eru: lærdómurinn um syndina, og um viðreisn mannsins úr ástandi syndarinnar, eða lærdómurinn um rjettlætinguna og guðs náð. Þar eð katólska kirkjan kennir, að hin upphaflega týnda guðsmynd hafi ekki verið eðliseiginlegleiki mannsins, heldur að eins viðbót við mannlegt eðli og tilgjöf, en ekki upprunalegur partur þess, þá leiðir auðsjáanlega af því, að syndafallið í rauninni hefur ekkert verulega skert mannsins upphaflega eðli; maðurinn hefur, eptir skoðun katólskra, ekkert misst af sínum upphaflegu andlegu hæfilegleikum og kröptum, heldur hafa þeir að eins misst nokkra stoð; þeir eru nokkuð veikari en áður, svo að manninum er orðið síðan óhægra um og erfiðara, að gjöra það góða, en auðveldara að syndga. Þetta kennir líka katólska kirkjan, og því er það fullkomlega samkvæmt anda hennar, þegar fundurinn í Tríent setti þá trúargrein, að „kraptarnir til hins góða sjeu engan veginn útslokknaðir með syndafallinu, heldur að eins veiktir“[1]. Eptir lærdómi katólskra hefur hið siðferðislega frelsi, eða kraptur viljans til hins góða, ekki týnzt, en að eins orðið aflminni, takmarkaðri og framkvæmdarminni[2].

---

[1]) *„Liberum arbitrium minime extinctum, viribus licet attenuatum et inclinatum“. Syn. Trid.*

[2]) *„Si quis liberum hominis arbitrium post Adae peccatum amissum et exstinctum esse dixerit, anathema sit“. Syn. Trid.*

Það getur ekki dulizt, að þessi kenning katólsku kirkjunnar telur sig skýrt í ætt við villulærdóm Pelagíusar, og er sprottin af honum, þó katólskir menn vilji ekki kannast við það, vegna þess kenning Pelagíusar var dæmd ókristilegur villulærdómur á ýmsum kirkjufundum þegar á 5. og 6. öld. Öðruvísi lítur prótestantiska kirkjan á syndafallið. Hún kennir, að hin upphaflega guðsmynd hafi einmitt verið eðliseiginlegleiki mannlegrar náttúru, og aðalhluti mannlegs eðlis, þess vegna hafi í falli Adams, sem svipti manninn þessum upphaflega fullkomlegleika, gjörsamlega glatazt mannsins æðri, andlegu og siðferðislegu kraptar, svo að í stað hins upphaflega rjettlætis hafi eptir syndafallið tekið við hjá manninum fullkomið máttleysi til hins góða, og gjörsamleg spilling mannlegs eðlis[1]. Hið siðferðislega frelsi, eða hinir upphaflegu

---

þ. e.: Ef einhver segir, að frjálsræði mannsins hafi glatazt og út slokknað eptir synd Adams, sá sje bölvaður.

[1]) „*Peccatum originis non tantummodo est totalis carentia seu defectus omnium bonorum in rebus spiritualibus ad deum pertinentibus, sed profundissima, inscrutabilis et ineffabilis corruptio totius naturae et omnium virium, imprimis vero principalium animae facultatum in mente, intellectu, corde et voluntate*". *Form. conc.*

þ. e.: Erfðasyndin er ekki einungis gjörsamlegur skortur allra gæða í andlegum efnum, sem snerta guð, heldur ómælileg, órannsakanleg, og óútmálanleg spilling eðlisins og allra mannlegra krapta, en einkanlega hinna æðri hæfilegleika sálarinnar í hugskoti, skilningi, hjarta og vilja mannsins.

kraptar til hins góða eru svo algjörlega týndir, að maðurinn í sínu náttúrlega ástandi getur ekki annað en syndgað[1]. Gagnstætt katólsku kirkjunni, sem, eins og áður er sagt, hallast að lærdómi Pelagíusar, aðhyllist prótestantiska kirkjan þannig að mestu leyti lærdóm Augustínusar, að maðurinn eptir syndafallið sje af náttúrunni andlega og siðferðislega dauður, magnlaus og ófær til alls góðs af sjálfum sjer, og hljóti því að endurskapast af guðlegri náð, og öðlast nýja krapta, til að geta aðhyllzt og gjört það góða. Í syndafallinu hafa einmitt glatazt mannsins æðri andlegu kraptar, sem tengdu hann guði, hin sanna guðsþekking, guðsótti, traustið og kærleikurinn til guðs[2]. Því er maðurinn í sínu náttúrlega ástandi af eigin rammleik öldungis ófær til, að bjarga sjer sjálfur í sínum sáluhjálparefnum; hann hefur hjá sjálfum sjer engin ráð, til að endurnýja trúarlíf sitt, og það er enginn kraptur þess megnugur, að reisa hina

---

1) *„Ita fit, ut homo per vires naturales non possit nisi peccare. Qvandoquidem cor immundum esse scriptura testatur, consequitur, omnes vires humanas esse impuras“. Mel. loc. theol.*

þ. e: þannig reynist það, að maðurinn af sínum náttúrlegu kröptum getur ekki annað en syndgað. því þar eð ritningin vitnar, að hjarta mannsins sje óhreint, þá leiðir af því, að allir mannlegir kraptar eru líka óhreinir.

2) *„Peccatum originis hos morbos continet: ignorationem dei, contemptum dei, vacare metu dei et fiducia erga deum, non posse diligere deum“. Apol. conf.*

þ. e.: Erfðasyndin innibindur þessa sjúkdóma: þekkingar-

föllnu mannlegu náttúru við aptur úr djúpi spillingarinnar, nema máttur guðlegrar náðar, sem getur vakið það dauða aptur til lífs. Maðurinn hefur að vísu ekki týnt öllum sínum sjálfsákvörðunarhæfilegleika í syndafallinu; hinn óendurfæddi maður hefur krapta til, að ákvarða sig í ytri veraldlegum efnum, í því, sem snertir þetta líf[1]. En í hinum æðri andlegu efnum, þeim, sem snerta mannsins sálarvelferð, samband hans við guð, er maðurinn ófær að hjálpa sjer sjálfur; hann hefur misst sitt siðferðislega frelsi, en er í sínu náttúrlega ástandi þræll syndarinnar, og máttur guðlegrar náðar er einn megnugur að losa hann úr þessum fjötrum syndarinnar, og innræta honum aptur hið sanna frelsi[1].

leysi á guði, fyrirlitningu á guði, skort á guðsótta, traustleysi til guðs, og magnleysi til að elska guð.

[1]) „*De libero arbitrio docent, quod humana voluntas habeat aliquam libertatem ad efficiendan civilem justitiam et deligendas res rationi subjectas. Sed non habet vim sine spiritu sc. efficiendae justitiae dei seu justitiae spiritualis, quia animalis homo non percipit ea, quae sunt spiritus dei*“. *Con. Aug.*

þ. e.: Um frjálsræðið kenna prótestantar, að mannlegur vilji hafi nokkurt frelsi til að auðsýna borgaralegt rjettlæti, og kjósa þá hluti, sem eru í valdi mannlegrar skynsemi. En hann hefur ekki krapta án aðstoðar heilags anda, að auðsýna rjettlæti guðs eða hið andlega rjettlæti, því holdlega sinnaður maður skilur ekki það, sem tilheyrir anda guðs.

[1]) „*Etsi humana ratio obscuram aliquam notitiae illius scintillulam reliquam habet, quod sit deus, et particulam aliquam legis tenet, tamen*

Í lærdóminum um afleiðingu syndafallsins kemur báðum kirkjum saman í þeirri játningu, að með því hafi mannlegri náttúru innrœtzt tilhneiging til hins illa *(concupiscentia)*, sem stöðuglega gjöri vart við sig, jafnvel hjá þeim endurfœddu. En engu að síður leggja þær sína þýðinguna hvor í þetta orð. Katólska kirkjan vill ekki játa, að þessi tilhneiging sje synd, en segir, að hún sje það einungis að afleiðingunum til *(non per se formaliter, sed causaliter)* hún sje í raun og veru hvorki góð nje vond, en geti orðið hvorttveggja, sje einungis kveykjuefni til syndarinnar *(fomes)*, en ekki synd.[1]

---

*adeo ignorans et perversa est ratio illa, ut etiamsi doctissimi homines evangelium de filio dei et promissiones divinas de aeterna salute audiant, tamen ea propriis viribus credere nequeant". Form. conc.*

þ. e.: þó mannleg skynsemi hafi einhvers konar lítilfjörlegan vitneskjuneista eptir um það, að guð sje til, og haldi lítinn part af lögmálinu, þá er þessi skynsemi svo blind og spillt, að þó lærðustu menn heyri fagnaðarboðskapinn um guðs son og fyrirheiti guðs um eilífa sáluhjálp, geta þeir samt ekki trúað þeim af eigin kröptum.

[1]) *„Manere in baptizatis concupiscentiam vel fomitem haec sancta synodus fatetur, quae nocere non consentientibus, sed utiliter repugnantibus non valet. Haec concupiscentia nunquam peccatum appellatur, quod v e r e et p r o p r i e p e c c a t u m sit, sed quia ex peccato est, et ad peccatum inclinat". Syn. Trid.*

þ. e.: Hinn heilagi kirkjufundur játar, að í þeim skírðu búi tilhneigingin eða kveykjuefnið (til syndarinnar), sem ekki

Hjer kemur berlega í ljós hin grunnhyggna pelagíanska skoðun katólsku kirkjunnar á syndinni. Þar eð hún gjörir lítið úr syndafalli mannsins, hlýtur hún einnig að gjöra lítið úr afleiðingum þess; fyrst mannlegt eðli, eptir því sem katólska kirkjan kennir, hefur ekki týnt neinu af sínum verulegu einkennum, þá verður tilhneigingin til hins illa ekki heldur nein veruleg aflögun náttúrunnar, eða drottnandi mótspyrna eðlisins móti guðs vilja, heldur verður hún sama sem líkamlegt eðli yfir höfuð, eins móttækileg fyrir það góða, sem það vonda. Hin katólska skoðun getur því ekki játað meðfætt vald syndarinnar í mannlegu eðli, eða drottnandi ástríðu til syndarinnar í náttúru mannsins. Katólska kirkjan neitar í rauninni syndinni eins og ástandi á undan verkunum, og vill ekki kalla synd spillinguna, sem ræður í mannlegu eðli þegar á undan sjálfsákvörðun mannsins, þar sem þó eptir alkunnu og einföldu hugsunarlögmáli hver afleiðing hlýtur að hafa sína náttúrlegu orsök; og svo er það einnig hjer. Maðurinn drýgir vond og syndsamleg verk, af því syndin, sem ræður í eðli hans þegar á undan verkunum, getur þau af sjer, svo að hinar einstöku gjörningssyndir eru vottar um syndina í eðli mannsins, sem grundvöll og rót til hinna syndsamlegu athafna og verka, eins og ávextirnir eru vottur um eðlisástand trjesins, því sjerhvert trje verður að bera

getur skaðað þá, sem ekki samþykkja, en berjast trúlega móti. Þessi tilhneiging kallast aldrei synd, af því að hún í sannleika og í eiginlegum skilningi sje synd, heldur af því hún er af syndinni, og leiðir til syndar.

sjer samkynja ávexti. Þannig neitar katólska kirkjan erfðasyndinni, eða synd mannlegs eðlis, og því er það fullkomlega á rökum byggt, þegar trúarjátningar vorrar kirkju bera hinni grunnhyggnu skoðun katólsku kirkjunnar á brýn, að hún geti ekki hugsað sjer syndina nema eins og gjörnings- eða ásetnings-synd[1]. Hið synduga ástand eðlisins, syndsemina, álítur katólska kirkjan ekki synd, heldur magnleysi, skort hinna æðri yfirnáttúrlegu hæfilegleika, og ekki annað en óstyrk í hinu góða, svo að þessi tilhneiging til hins illa (*concupiscentia*) verður, eptir áliti katólsku kirkjunnar, einungis deyfð og ólyst til hins góða, en ekki, eins og kristindómurinn kennir, fýsn og lysting holdsins, sem er fjandskapur gegn guði; Róm. 8, 7.

Prótestantiska kirkjan fellst þar á móti að mestu leyti á lærdóm Augustínusar um syndina. Hún kennir, að frá falli hinna fyrstu manna fæðist allir með synd, með drottnandi lyst til hins illa; að þessi lyst sje ekki einungis ólyst og veikleiki til hins góða, heldur mótþrói og mótspyrna gegn guðs vilja, og að þessi meðfæddi sjúkdómur sje í raun og veru synd[2]. Þessi eðlisspilling er ekki

---

[1]) *„Aðversarii contendunt nihil esse peccatum nisi voluntarium.“ Apol. conf.*

þ. e.: Mótstöðumenn vorir (katólskir) standa fast á því, að ekkert sje synd nema ásetningssynd.

[2]) *„Docent, quod post lapsum Adae omnes homines, secundum naturam propagati, nascantur cum peccato, hoc est: sine metu dei, sine fiducia erga deum, et cum concupiscentia, quodque hic morbus seu viti-*

að eins skortur œðri andlegra krapta, skortur á guðsótta og trausti til guðs, heldur og drottnandi lysting til hins illa, mótspyrna móti guðs vilja; þetta vald syndarinnar er orðið svo magnmikið í mannlegu eðli og vilja, að syndin er orðin eins og mannsins önnur náttúra; hann hefur af eigin megni ekkert afl til að bjarga sjer undan oki hennar. Guðs skapandi náð er því ein þess megnug, að endurfœða manninn, að innrœta honum nýja krapta og nýtt líf, svo að hann geti frelsazt. Fyrir verkanir heilags anda, sem gróðursetja nýtt líf í hinum endurfœdda, eyðist og deyðist þetta syndarinnar vald, jafnvel þó það stöðuglega gjöri vart við sig eptir skírnina einnig hjá þeim trúaða[1].

---

*um originis vere sit peccatum damnans et afferens nunc quoque aeternam mortem his, qui non renascuntur per baptismum et spiritum sanctum". Conf. Aug.*

Þ. e.: Prótestantar kenna, að eptir fall Adams fœðist allir menn, sem getnir eru á eðlilegan hátt, með synd, það er: án guðsótta, án trausts til guðs, og með tilhneigingu til ills, og að þessi sjúkleiki, eða uppruna-spilling sje í sannleika synd, dœmi seka og steypi í eilífa glötun þeim, sem ekki endurfœðast fyrir skírnina og heilagan anda.

[1]) *„Spiritus sanctus, datus per baptismum, incipit mortificare concupiscentiam, et novos motus creat in homine. Ad eundem modum loquitur et Augustinus, qui ait: peccatum in baptismo remittitur, non ut non sit, sed ut non imputetur. Hic palam fatetur esse, hoc est: manere peccatum, tametsi non inputetur". Apol. conf.*

Þ. e.: Heilagur andi, sem veitist í skírninni, byrjar að deyða tilhneiginguna til syndar, og skapar nýjar lífshreifingar í

Þetta er stutt ágrip af lærdómi beggja kirkna um syndafallið og syndina. Ágreiningurinn er mikill, og lýsir sjer síðar betur í afleiðingunum. Hin katólska trúarfræði eignar, samkvæmt pelagíanskri stefnu sinni og anda, mannlegu eðli krapta af sjálfu sjer til þess góða, svo að guðleg náð, samkvæmt þeirri kenningu, verður nauðsynleg að eins, til að styðja manninn á hjálpræðisins vegi. Þessi kenning lýsir stórvægilegri vanþekkingu á sönnu eðli syndarinnar, og skorti á grundaðri og alvörugefinni meðvitund um spillinguna[1]; eptir henni verður lítið úr lærdómi kristinnar trúar um stríðið milli holdsins og andans, og lærdóminum um máttleysi mannlegs vilja, sem í þessu stríði fellur fyrir valdi spillingarinnar, svo að lögmálið í limunum hertekur manninn undir lögmál syndarinnar; Róm. 7, 23. Þar á móti hlýtur þessi katólska kenning, sem prjedikar traust til mannlegra krapta, að geta af sjer sjálfsþótta og sjálfbyrgingsskap, og er vel löguð til þess, að leggja andvara-

manninum. Á sama hátt talar Augustínus líka, þegar hann segir: „Syndin fyrirgefst í skírninni, ekki á þann hátt, að hún verði að engu, heldur að hún tilreiknast ekki“. Hjer játar hann berlega, að syndin sje, það er að skilja, búi enn þá í manninum, þó hún tilreiknist ekki.

[1]) Það er einmitt aðaleinkenni hinnar prótestantisku skoðunar á syndinni, eins og Baur tekur hittilega fram í svari sínu til Möhlers, að hún lýsir miklu dýpri þekkingu og meðvitund um syndina, heldur en kenning katólsku kirkjunnar, sem er eins grunn, eins og hún er alvörulaus, og leiðir til ljettúðar. (Sbr. *Clausens og Holenbergs theol. Tidsskrift 1834*, þar sem prentaðir eru kaflar útlagðir úr ritum Baurs og Möhlers um þetta efni.)

leysisins hœgindi undir höfuð manninum, og leiða hann frá sönnum guðsótta. Þetta er hin siðferðislega afleiðing, sem er óumflýjanlegur ávöxtur þessarar villu, eins og höfundar siðabótarinnar taka svo opt fram[1]. Og það er ekki einungis þessi annmarki, sem fylgir hinni katólsku trúarfrœði, að hana vantar djúpa þekkingu syndarinnar, heldur gjörir hún jafnframt með því lítið úr endurlausnarverki Krists; því hver sú kenning, sem ekki þekkir eða kannast við djúp spillingarinnar, eymd og vanmátt mannlegrar náttúru til að bjarga sjer með eigin kröptum, hún kannast ekki heldur við mikilleik Krists endurlausnar. Þar eð katólska kirkjan gjörir lítið úr syndafallinu, og eignar mannlegu eðli enn þá krapta til að hjálpa sjer, kennir hún annan frelsisveg, heldur en heilög ritning boðar, og kemst þannig í mótsögn við grundvallarlærdóm kristindómsins, sem kennir, að Jesús Kristur sje einn vegurinn og sannleikurinn, og að ekkert annað nafn gefist undir himninum, heldur en hans, fyrir hvers fulltingi vjer getum hólpnir orðið; Post. G. 4, 12. Þessar afleiðingar, svo ógurlegar sem þær eru, spretta óumflýjanlega af lærdómi katólsku kirkjunnar. Hin ljettúðarfulla kenning hennar um syndina kastar rýrð á Krists endurlausn, og leiðir, þegar hún er rakin sjálfri sjer samkvæmt, til þess villulærdóms,

---

1) *„Hae persvasiones regnabant, et alebant fiduciam humanarum virium, et opprimebant cognitionem gratiae Christi“. Apol. conf.*

Þ. e.: þessar trúargrillur drottnuðu, og ólu oftraust á mannlegum kröptum, og niður kœfðu þekkinguna um náð Krists.

að maðurinn geti verið sinn eiginn endurlausnari. Þess vegna var það ekki um skör fram, að höfundar siðabótarinnar risu af alefli móti þessari ókristilegu villu, og að trúarjátningar prótestantisku kirkjunnar vöruðu með þungum orðum við þeirri kenningu, sem leitast við að gylla mannlegan breyskleika, fegra syndina, og telja mönnum trú um, að Kristur sje dáinn til ónýtis[1]. Því til þess að komast í skilníng um mikilleik guðs náðar í sendingu sonarins, er það fyrsta skilyrði fyrir manninn, að hann sjái sína eigin eymd, kannist við afl syndarinnar, og vanmátt mannlegs frelsis til að bjarga sjer af eigin kröptum á sáluhjálparinnar vegi[2].

---

[1]) *„Si enim ista approbantur, Chr. frustra mortuus est, cum nullum peccatum et damnum sit in homine, pro quo mori eum oportuerit“. Art. Smal.*

Þ. e.: Því fallist menn á þetta, þá hefur Kristur dáið til einkis, fyrst engin synd eða spilling er í manninum, sem hann þurfti að deyja fyrir.

[2]) *„Est necessaria cognitio peccati originis. Cum datus sit nobis Christus, qui et haec peccata et has poenas auferat, et regnum diaboli, peccatum, et mortem destruat, benificia Christi non poterunt cognosci, nisi intelligamus mala nostra. Neque enim potest intelligi magnitudo gratiae Christi, nisi morbis nostris cognitis“. Apol. conf.*

Þ. e.: þekkingin á erfðasyndinni er nauðsynleg. Þó Kristur sje gefinn oss, til að bera burt syndirnar og syndasektina, og til að niður brjóta ríki djöfulsins, syndina og dauðann, þá verða velgjörningar Krists ekki skiljanlegir, nema með því, að vjer skiljum vort eigið böl. Því ekki komumst vjer í skilning

## 5. grein.

### Um rjettlætinguna.

Í lærdóminum um frelsun mannsins undan þrældómsoki syndarinnar, eða lærdóminum um rjettlætinguna, kemur báðum kirkjum saman að því leyti, sem þær sameiginlega játa grundvallaratriðin í hinum kristilega friðþægingarlærdómi. Báðar kirkjur kenna, að hinn syndugi maður einungis fyrir Krists sakir verði náðaður af guði, því báðar játa, að Krists verðskuldun ein sje orsök til þess, að guð tekur manninn í sátt við sig, þar eð Kristur hefur í vorn stað fullnægt rjettlætiskröfum guðs, og komið syndurunum í sátt við hinn heilaga. Báðar kenna enn fremur, að fullnægjugjörð Krists verði oss til frelsis á þann hátt, að hans verðskuldun tilreiknast oss, svo að hans rjettlæti með því móti verður vort rjettlæti.

Samt sem áður er mikill ágreiningur milli kirknanna í þessari trúargrein. Því lærdómurinn um veg frelsisins (*modus salutis*) er frábrugðinn. Katólska kirkjan fer, eins og áður er sagt, þeim lærdómi fram um fallið og syndina, að maðurinn hafi ekki misst alla krapta til hins góða, og kennir því, að maðurinn geti með sínum eigin náttúrlegu kröptum samverkað guðs náð til betrunar sinnar, og undir búið sig undir móttöku Krists, því hinn syndugi maður verði að betrast, áður en hann geti rjettlætzt. Katólska kirkjan lætur þannig betrun eða helgun mannsins ganga á undan, eða að minnsta kosti jafnhliða, rjett-

---

um mikilleik Krists náðar, fyr en vjer höfum þekkt sjúkdóma vora.

lætingunni. Hún játar að vísu, eins og prótestantiska kirkjan, að hin fyrsta byrjun og hvöt til betrunar mannsins sje verk guðs vekjandi náðar; en jafnframt segir katólska kirkjan, að maðurinn með frelsi vilja síns og náttúrlegum kröptum sínum sje þegar frá fyrstu byrjun samtaka og samverkandi náðinni[1]. Að vísu segir katólska kirkjan þá ekki beinlínis, að maðurinn án náðarinnar, einungis með eigin kröptum, geti komið sjer í sátt við guð, eða rjettlætt sig sjálfur án aðstoðar náðarinnar. En það er skýlaus lærdómur katólsku kirkjunnar, að maðurinn rjettlætist ekki einungis með því, að rjettlæti Krists til reiknist honum, heldur telji guð líka manninum til rjettlætis, og taki hann með fram í sátt við sig, vegna hans eigin tilverknaðar, og að þessi undirbúningur mannsins með eigin kröptum sje jafnvel skilyrði fyrir rjettlætingu hans[2].

---

[1]) *„Qui per peccata a deo aversi erant, per ejus excitantem atque adjuvantem gratiam ad convertendum se ad suam ipsorum justificationem, eidem gratiae libere assentiendo et cooperando disponuntur“. Syn. Trid.*

þ. e.: „Syndugir menn, sem vegna synda sinna voru fráhverfir guði, undir búast fyrir aðstoð hans vekjandi og styðjandi náðar til sinnar eigin rjettlætingar, með því að þeir af frjálsum vilja verða samþykkir náðinni og samverkandi henni.

[2]) *„Si quis dixerit, homines justificari vel sola imputatione justitiae Christi, vel sola peccatorum remissione exclusa gratia et caritate, quae in cordibus eorum per spiritum sanctum diffundatur, atque*

Prótestantiska kirkjan kennir þar á móti samkvæmt ritningarinnar lærdómi, að til þess að maðurinn geti betrazt, hljóti hann áður að vera tekinn til náðar af guði, að fyrirgefning syndanna, sem er aðalatriðið í rjettlætingunni, sje skilyrði fyrir betrun mannsins, því hinn náttúrlegi maður getur ekki af sjálfum sjer hneigzt að guði, ekki elskað hann að fyrra bragði, og dirfist ekki að nálgast hann, fyr en hann veit sig í sátt við guð, og þekkir náð hans, eins og postulinn segir, 1. Jóh. 4, 10.: „Þannig er kærleikur guðs, ekki að vjer elskuðum hann, heldur að hann elskaði oss"[1]. Náðartaka guðs eða rjett-

---

*illis inhaeret aut etiam gratiam, qua justificantur, esse tantum favorem dei, anathema sit". Syn. Trid.*

Þ. e.: Ef einhver segir, að mennirnir rjettlætist af eintómri tilreiknun Krists rjettlætis, eða af eintómri fyrirgefningu syndanna án tillits til náðarinnar og kærleikans, sem heilagur andi úthellir í hjörtum þeirra, og verður þeim íbúandi, eða að náðin, af hverri þeir rjettlætast, sje að eins náðargjöf guðs, sá sje bölvaður.

[1]) *„Quomodo potest humanum cor diligere deum, dum sentit eum horribiliter irasci, et opprimere nos temporalibus et perpetuis calamitatibus? Lex autem semper accusat nos, semper ostendit irasci deum. Non igitur diligitur deus, nisi postquam apprehendimus fide misericordiam. Ita demum fit objectum amabile". Apol. conf.*

Þ. e.: Hvernig fær mannlegt hjarta elskað guð, á meðan það finnur til ógurlegrar reiði hans, og þykir hann þjá sig stundlegu og ævarandi böli? En lögmálið ákærir oss sífelldlega,

lætingin er því ekki byggð á nokkrum verðugleika mannsins, engum verkum hans, heldur tekur guð manninn í sátt við sig af líknarfullri náð sinni án verðugleika mannsins, einungis fyrir Krists verðskuldun, og tilreiknar manninum Krists rjettlæti[1]. Rjettlætingin er því eptir prótestantiskri trúarfræði náðarverk guðs; rjettlæti Krists og verðskuldun er eingöngu orsökin til þess, að guð tekur oss í sátt við sig, án þess að vjer frá vorri hálfu verðskuldum það á nokkurn hátt. Hið eina skilyrði, sem útheimtist frá mannsins hálfu, er trúin, sem er örugg og lifandi sannfæring um, að guð af ríkdómi náðar sinnar muni fyrirgefa oss syndir vorar fyrir Krists sakir án vorrar verðskuldunar. Í trúnni, þessu óbifanlega trúartrausti til guðs líknarfullu náðar, en vantrausti til eigin maklegleika, höndlum vjer Krist, og komumst í samfje-

---

og sýnir oss sífelldlega reiði guðs. Þess vegna elskar maðurinn ekki guð, fyr en eptir að hann í trúnni hefur höndlað miskunsemi guðs. Á þann hátt verður guð loksins elskuefni mannsins.

1) *„Docent, quod homines non possint justificari coram deo propriis viribus, meritis, aut operibus, sed gratis justificentur propter Christum per fidem, cum credunt se in gratiam recipi, et peccata remitti propter Christum, qui sua morte pro nostris peccatis satisfecit“. Conf. Aug.*

Þ. e.: Prótestantar kenna, að mennirnir geti ekki rjettlæzt fyrir guði af eigin kröptum, verðugleikum, eða verkum, heldur að þeir rjettlætist án verðskuldunar vegna Krists fyrir trúna, þegar þeir trúa því, að þeir sjeu teknir til náðar, og syndirnar sjeu fyrirgefnar fyrir sakir Krists, sem með dauða sínum fullnægði fyrir vorar syndir.

lag við hann sem friðþægjara vorn og meðalgangara, svo að rjettlæti hans tilreiknast oss, ekki vegna verka vorra, heldur fyrir sakir Krists sjálfs, þar eð trúin, hið nýja hugarfar í manninum, er hinn eini vegur, sem gefst fyrir manninn, að hann geti öðlazt guðs náðargjöf, og sá eini hæfilegleiki hjá honum, til að geta höndlað og veitt móttöku rjettlæti Krists, og tileinkað sjer það[1]. Þannig er auðsjeð, að kirkjurnar leggja sína þýðinguna hvor inn í rjettlætinguna. Samkvæmt hinni prótestantisku skoðun er rjettlætingin dómsúrskurður guðs, sem leysir hinn seka undan maklegri hegningu, og tekur hann ómaklegan að fyrra bragði til náðar. Aðalatriðið í rjettlætingunni er þá, eptir lærdómi prótestanta, fyrirgefning syndanna, eða náðartaka guðs, sem af líknarfullum kærleika sínum lítur ekki á syndir hins seka manns, en tekur hann fyrir Krists sakir í náð við sig, og tilreiknar honum rjettlæti Krists[2]. Eptir lærdómi katólsku kirkjunnar er rjettlætingin þar á móti ekki einungis náðartaka,

---

1) *„Christus non apprehenditur tanquam mediator nisi fide. Igitur sola fide consequimur remissionem peccatorum, cum erigimus corda fiducia misericordiae propter Chr. promissae“. Apol. conf.*

Þ. e.: Kristur verður ekki höndlaður sem meðalgangari, nema í trúnni. Þess vegna öðlumst vjer fyrirgefningu syndanna af trúnni einni, þegar vjer hughreystum hjörtun af traustinu til náðarinnar, sem fyrirheitin er vegna Krists.

2) *„Justificare vero hoc loco forensi consvetudine significat reum absolvere et pronuntiare justum, sed propter alienam justitiam, videlicet Christi,*

eða fyrirgefning, heldur endurnýjung og umbreyting mannsins, svo að hann verður að nýjum og betri manni. Rjettlætingin er, eptir trúarfræði katólskra, ekki fólgin í því, að Krists rjettlæti tilreiknast manninum, heldur í því, að heilagur andi gróðursetur rjettlæti og dyggð í huga mannsins, svo að hann með því ekki að eins er úrskurðaður rjettlátur af guði, heldur v e r ð u r h a n n í r a u n o g v e r u rjettlátur. Eptir lærdómi katólsku kirkjunnar verður þetta á þann hátt, að guð áskapar manninum breytt ástand, innrætir honum rjettlætið, svo að það verður íbúandi manninum (*justitia inhaerens, habitualis*), og þetta nýja ástand á ekki að vera, eins og prótestantar kenna, ávöxtur eða afleiðing af rjettlætingu guðs, fyrir Jesús Krist, heldur á rjettlætingin einmitt að vera fólgin í helgun og betrun lífsins, með því að manninum innrætist von, trú og kærleikur, og maðurinn fyrir þessar dyggðir kemst í sannarlegt samband við Krist, og verður lifandi limur á líkama hans[1]. Eptir skilningi katólsku kirkj-

*quae aliena justitia communicatur nobis per fidem*". *Apol. conf.*

þ. e.: En orðið: „að rjettlæta", merkir á þessum stað, eins og í rjettargangsmáli, að dæma hinn seka sýknan, og úrskurða hann rjettlátan, en vegna annarlegs rjettlætis, það er að skilja: Krists, og þetta annarlega rjettlæti tileinkast oss fyrir trúna.

[1]) „*Caritas dei diffunditur in cordibus eorum, qui justificantur, atque ipsis inhaeret, unde in ipsa justificatione haec omnia simul infusa accipit per J. Chr., cui inseritur, spem, fidem et caritatem*". *Syn. Trid.*

unnar er þá aðalatriðið í rjettlætingunni það, að maðurinn verður betri í siðferðislegum skilningi, fullkomnari, og dyggðugri; eða með öðrum orðum: rjettlætingin innibindur í sjer helgunina, og því segir katólska kirkjan með berum orðum, að rjettlætingin sje ekki eintóm syndafyrirgefning, heldur einnig helgun[1]. Þegar þessi kenning er athuguð, er það auðsjeð, að samkvæmt trúarfræði katólsku kirkjunnar er helgunin aðalatriðið í rjettlætingunni, en að þar á móti verður ekkert úr syndafyrirgefningunni. En þar af leiðir, að rjettlætingin eptir lærdómi katólsku kirkjunnar myndast smátt og smátt; því betrun mannsins eða helgunin fer ekki fram allt í einu, heldur skapast hún með stöðugum framförum mannsins fram að takmarki fullkomlegleikans. Þetta kennir líka katólska kirkjan með berum orðum, þar eð hún talar um vöxt og framfarir í rjettlætingunni[2]. En af þessum

---

þ. e.: Guðs kærleikur út hellist í hjörtu þeirra, sem rjettlætast, og verður þeim íbúandi; þess vegna innrætist manninum, sem gróðursettur er á J. Kr., og veitist þetta allt í einu í sjálfri rjettlætingunni, bæði von, trú og kærleikur.

¹) *„Justificatio non est sola peccatorum remissio, sed et s a n c t i f i c a t i o et renovatio interioris hominis per voluntariam susceptionem gratiae et donorum. Unde homo ex injusto fit justus, ex inimico amicus dei". Syn. Trid.*

þ. e.: Rjettlætingin er ekki einber syndafyrirgefning, heldur og h e l g u n, og endurnýjung hins innra manns fyrir sjálfviljuga móttöku náðarinnar og gjafa hennar, svo að maðurinn úr ranglátum verður rjettlátur, úr óvini vinur guðs.

²) *„Hoc vero justitiae incrementum petit sancta*

lærdómi katólsku kirkjunnar leiðir aptur, að rjettlætingin verður ófullkomin og ekki nema hálfverk, því samvizkan segir öllum mönnum, að þeir sjeu ófullkomnir, lögmálið ásakar jafnan hvern einn fyrir, að hann fullnægi aldrei kröfum þess, og hin siðferðislega afleiðing af þessari samsteypu katólsku kirkjunnar á rjettlætingu og helgun verður sú fyrir manninn, að hann aldrei getur verið viss um rjettlætingu sína, getur aldrei fengið sálarfrið, en hlýtur að lifa í sífelldri sálarangist, og leiðast til örvæntingar[1].

Prótestantiska kirkjan telur því með rökum þessa kenningu um veg frelsisins skaðlega aflögun hins hreina kristilega lærdóms. Samkvæmt trúarfræði prótestanta er fyrirgefning syndanna, eins og áður er sagt, aðalatriðið í rjettlætingunni; hún er það verk

---

*ecclesia, cum orat: Da nobis, domine, fidei, spei et caritatis augmentum“. Syn. Trid.*

Þ. e.: En um þennan rjettlætisins vöxt biður heilög kirkja, þegar hún fram ber bæn sína: „Auk oss, drottinn, trú, von og kærleika“.

[1]) *„Si fides accipit remissionem peccatorum propter dilectionem, semper erit incerta remissio peccatorum, quia nunquam diligimus tantum, quantum debemus, imo, non diligimus, nisi certo statuant corda, quod donata sit nobis remissio peccatorum“. Apol. conf.*

Þ. e.: Ef trúin öðlast fyrirgefningu syndanna vegna kærleikans, þá mun fyrirgefning syndanna jafnan verða óviss, því kærleikur vor er aldrei eins mikill, og hann á að vera, já, hvað meira er, vjer höfum ekki kærleikann, nema hjörtu vor hafi fullvissu um, að fyrirgefning syndanna sje oss veitt.

guðs, að hann tekur hinn synduga mann í sátt við sig án hans verðugleika, en einungis fyrir Krists sakir. Þessi náðartaka er annað en helgunin; hún veitist ekki eins og helgunin, smátt og smátt, heldur veitist fyrirgefning syndanna manninum allt í einu, þar eð rjettlætingin er dómsúrskurður guðs, og trúin er manninum fullvissa um og pantur upp á náðartöku sína. Rjettlætingin er því guðs verk, en ekkert mannlegt verk; hún er grundvöllurinn fyrir betrun mannsins, skilyrðið fyrir allri dyggð hans; því það er ómögulegt, að maðurinn geti elskað guð, betrazt og sýnt góðverk, á meðan hann veit sig að vera barn reiðinnar, og í ósátt við guð. Þar á móti, eptir að maðurinn hefur þekkt guð eins og náðugan guð, og veit, að hann af einberri miskun sinni hefur tekið sig í sátt, verður það fyrst mögulegt, að þakklæti, kærleikur, og aðrar sannkristilegar dyggðir vakni í brjósti hans, svo að hann verði nýr og annar maður, eða með öðrum orðum, að helgun mannsins og framfarir í dyggð spretti af rjettlætingunni. Af þessum samanburði er auðsjeð, að í hinni prótestantisku kenningu felst miklum mun dýpri siðferðisleg alvara, heldur en í lærdómi katólsku kirkjunnar. Hin katólska kirkja, sem lætur rjettlætinguna vera fólgna í helguninni, en gleymir náðartökunni, kennir með því, að maðurinn sjálfur sje höfundur betrunar sinnar, rjettlætist af eigin kröptum, og kastar þannig rýrð á guðs náð og verðskuldun Krists, og hinir siðferðislegu ávextir, sem spretta af þessari kenningu fyrir manninn, verða annaðhvort sjálfstraust og andvaraleysi, eða sálarangist og örvænt-

ing, þegar lögmálið ræðst á manninn og á samvizku hans með átölum sínum og ákærum. Prótestantiska kirkjan þar á móti, sem byggir helgunina á rjettlætingunni, kennir með því, að öll betrun og helgun mannsins sje guðs verk; hún útilykur því allan verkahelgunaranda, og byggir sáluhjálpina, samkvæmt ritningarinnar lærdómi, einungis á guðlegri náð og verðskuldun Krists. Þessi kenning staðfestir sannleika sinn með hinum blessunarríku áhrifum, sem hann hefur á mannlegt hugarfar og hjarta, því þessi lærdómur er einn fœr um, að leysa manninn undan hræðslunni, sem fylgir meðvitund syndarinnar, hugga hrelldar samvizkur, en innrœta manninum hið barnlega hugarfar, traust og kærleika til guðs, og þetta verður manninum uppsprettulind til framfara í dyggð og helgun[1].

Hvergi er samt ágreiningurinn milli kirknanna meiri í þessum lærdómi heldur en um t r ú n a, og trúarjátningar vorar bregða katólsku kirkjunni optar um afbökun á

---

[1]) *„Piae conscientiae vident in hac doctrina uberrimam consolationem sibi proponi, quod videlicet credere et certo statuere debent, quod propter Christum habeant placatum patrem, non propter nostras justitias, et quod Christus adjuvet tamen, ut facere etiam legem possimus“. Apol. conf.*

Þ. e.: Guðhræddar sálir finna í þessum lærdómi ríkulega huggun hjörtum sínum, með því þær mega trúa og treysta því staðfastlega, að þær fyrir Krists sakir eigi föðurinn friðþægðan, og að Kristur muni veita oss styrk til þess, að vjer jafnvel getum hlýtt guðs lögmáli.

þessari trúargrein, heldur en nokkrum öðrum lærdómi. Hin prótestantiska trúarfræði kennir, samkvæmt ritningarinnar lærdómi, að maðurinn rjettlætist af guðs náð fyrir trúna eina, en ekki af verkum sínum[1]. Því eins og guðs náð er ein orsökin til fyrirgefningar syndanna, eða rjettlætingarinnar, eins er trúin hið eina skilyrði, sem útheimtist frá mannsins hálfu, til þess að guðs náð og kærleikur festi rætur hjá manninum og verði hans eign. Því trúin er hið lifandi traust og fullvissa mannsins um, að guð fyrir Krists sakir hafi tekið sig til náðar án alls eigin verðugleika. Þess vegna er hún hið auðmjúka hugarfar, sem er gagntekið af meðvitundinni um eigin óverðugleika, en hrifið af tilfinningunni um guðs líknarfullu náð, og setur allt traust sitt til Krists verðugleika, en ekkert til eigin krapta. Þetta hugarfar, þessi lögun mannlegs anda, er sá eini vegur, að guðleg náð nái inngöngu hjá manninum; trúin er hæfilegleiki hjá manninum til að taka á móti Kristi, og guðs náð,

---

[1]) *„Docent, quod homines non possint justificari coram deo propriis viribus, meritis aut operibus, sed gratis justificentur propter Christum, per fidem, cum credant se in gratiam recipi, et peccata remitti propter Christum, qui sua morte pro nostris peccatis satisfecit“. Conf. Aug.*

Þ. e.: Prótest. kenna, að mennirnir geti ekki rjettlætzt í augliti guðs af eigin kröptum, verðugleikum eða verkum, en að þeir rjettlætist af náð fyrir Krists sakir fyrir trúna, þegar þeir trúa því, að þeir sjeu náðaðir, og þeim sje veitt fyrirgefning syndanna vegna Krists, sem með dauða sínum fullnægði fyrir vorar syndir.

eða með öðrum orðum: maðurinn rjettlætist af trúnni einni. Þó er þetta ekki svo að skilja, að maðurinn rjettlætist fyrir trúna í þeirri þýðingu, eins og væri hún verðugleiki mannsins, og hann gæti talið sjer hana til gildis, eins og eitthvert sjerlegt góðverk, heldur í þeim skilningi, að hún er hið eina meðal fyrir manninn til að geta tekið á móti Kristi, og geta orðið guðs náðar aðnjótandi[1]. En allt fyrir það, er trúin ekki ávaxtarlaus, því hún er guðs verk í manninum, hinn nýi lífsgrundvöllur, sem getur af sjer samsvarandi nýja breytni; eins og gott trje ber góða ávexti, eins hlýtur því trúin að fæða af sjer samsvarandi góðverk, og komi þau ekki í ljós, þá er þar ekki sönn trú inni fyrir hjá manninum[2].

Þar á móti leggur hin katólska trúarfræði annað í trúna. Eptir skoðun katólsku kirkjunnar er trúin einungis dauð þekking, án þess hún um leið hrífi hjarta mannsins og vilja; eptir kenningu prótestanta

---

1) *„Nam fides non ideo justificat aut salvat, quod ipsa sit opus per se dignum, sed tantum quia accipit misericordiam dei“. Apol. conf.*

Þ. e.: Því trúin rjettlætir ekki eða gjörir sáluhólpinn manninn af þeirri ástæðu, að hún sje af sjálfri sjer fullnægjulegt verk, heldur af því hún tekur á móti líknarfullri náð guðs.

2) *„Hanc fidem, renovationem et remissionem peccatorum sequuntur bona opera; dicimus praeterea: ubi non sequuntur bona opera, ibi fidem esse falsam et non veram“. Art. Smal.*

Þ. e.: Þessari trú, endurnýjungu og fyrirgefningu syndanna fylgja góðverk; vjer segjum enn fremur, að þar sem ekki koma fram góðverk, þar sje trúin ósönn, en ekki sönn.

er trúin þar á móti hið nýja lífsmagn, sem gagntekur allt andalíf mannsins, þekkingu, tilfinningu og vilja, og verður því uppsprettulind til endurnýjungar lífsins, sannrar dyggðar og góðra verka. Í þessari upprunalegu og sannkristilegu þýðingu kannast hin katólska kirkja ekki við trúna, og þess vegna taka trúarjátningar prótestantisku kirkjunnar svo opt fram á móti katólskum, að hið eiginlega eðli trúarinnar sje ekki þekking, heldur traust til guðs[1]. Af því katólskir einskorða þannig trúna við þekkingu og skilning, verður hún ekki eptir þeirra skoðun undirstaðan fyrir hinu sanna siðferðislega lífi, og þess vegna neita þeir hinum evangeliska lærdómi, að maðurinn rjettlætist af trúnni einni[2]. Katólskir segja, að trúin rjettlæti fyrst, þegar hún verði samverkandi kærleikanum, því kær-

---

[1]) *„Fides non est tantum notitia in intellectu, sed etiam fiducia in voluntate, hoc est: est velle et accipere hoc, quod in promissione affertur, videlicet reconciliationem et remissionem peccatorum“. Apol. conf.*

Þ. e.: Trúin er ekki að eins þekking í skilningnum, heldur einnig traust í viljanum; það er: hún er það að vilja og taka á móti því, sem fram boðið er í fyrirheitinu, nl. friðþægingunni og fyrirgefningu syndanna.

[2]) *„Si quis dixerit fidem justificantem nihil aliud esse quam fiduciam divinae misericordiae, vel eam fiduciam solam esse, qua justificamur, anathema sit“. Syn. Trid.*

Þ. e.: Ef einhver segir, að hin rjettlætandi trú sje ekkert annað en traust til miskunsemi guðs, eða að vjer rjettlætumst af þessu trausti einu, sá sje bölvaður.

leikurinn gefi henni afl sitt, og í honum verði trúin fyrst fullmynduð (*fides caritate formata*).

Þessum lærdómi neita prótestantar, því hann er gagnstæður guðsorði, og segja með rökum, að í þessari kenningu katólsku kirkjunnar komi fram Pelagíusar villulærdómur, sem kennir beint á móti lærdómi kristindómsins, að maðurinn rjettlætist af verkum lögmálsins. Því þegar katólska kirkjan segir, að maðurinn rjettlætist af kærleikanum, en ekki af trúnni, þá kennir hún með því, að maðurinn geti með eigin veikum kröptum sínum aflað sjer guðs velþóknunar, hann geti af eigin rammleik fullnægt kröfum lögmálsins, rjettlætt sig sjálfur, og verið sinn eiginn endurlausnari með því, að bera fyrir sín ófullkomnu verk, og telja sjer þau til gildis í augliti drottins. Því kærleikur vor er, eins og öll vor verk, jafnan ófullkominn, og því má ekki fremur eigna honum rjettlætinguna, heldur en verkunum; en kærleikurinn er, eins og góðverkin, ávöxtur trúarinnar; hann sprettur af trúnni, eins og góður ávöxtur af góðu trje, en þar fyrir má ekki slengja saman trú og kærleika, eins og katólskir gjöra, heldur er nauðsynlegt, að að greina hvottveggja, eins og að greina verður orsökina frá afleiðingunni[1].

---

[1]) *„Sola fide in Christum, non per dilectionem, non propter dilectionem aut opera consequimur remissionem peccatorum, etsi dilectio sequitur fidem". Apol. conf.*

Þ. e.: Vjer öðlumst fyrirgefningu syndanna fyrir trúna eina á Krist, en ekki fyrir kærleikann, eða vegna kærleikans, eða sökum verka vorra, þótt kærleikurinn fylgi með trúnni.

## 6. grein.

### Um guðlega náð og mannleg góðverk.

Í lærdóminum um guðs náð kynni í fyrsta áliti að virðast sem ekki sje mikill ágreiningur; því katólska kirkjan við hefur opt og víða sömu orð og orðatiltœki í þessum lærdómi, sem prótestantiska kirkjan. Hún segir, eins og prótestantar, að maðurinn frelsist ekki af eigin kröptum án guðs náðar; hún talar, eins og prótestantar, um verkanir náðarinnar, upplýsingu, endurfœðingu og helgun; hún talar sömuleiðis um guðs náð, sem sje undanfari betrunarinnar (*gratia praeveniens*), sem verki hana (*gratia operans*), og sje í samverki með manninum (*gratia cooperans*). En þetta samkomulag er í rauninni einungis að orðunum til; hvor kirkja leggur sína þýðingu inn í orð sín, sem hefur rót sína í ólíkri skoðun hvorrartveggja á þeim lærdómum, sem útlistaðir eru að framan, lærdómunum um syndafallið og rjettlætinguna. Þar eð katólska kirkjan kennir, að maðurinn hafi ekki gjörsamlega týnt í syndafallinu hinum œðri andlegu kröptum sínum, verður eptir hennar skoðun, guðs náð að eins styðjandi og styrkjandi (*gratia juvans*). Eptir kenningu prótestanta er guðs náð skapandi (*gratia creans*). Samkvæmt þessari katólsku kenningu verður þá maðurinn jafnan samverkandi guðlegri náð á öllum betrunarvegi sínum. Þó katólskir segi, að guðs náð byrji betrunarverkið, þá meina þeir með því einungis, að náðin veki til starfsemi hina meðfœddu krapta mannsins, sem að eins liggi í dái, og þurfi einungis upphvatningar til hins góða, og verður maðurinn þannig, eptir þeirra áliti,

þegar frá öndverðu samverkandi náðinni. Eptir lærdómi prótestantisku kirkjunnar lýsa hinar fyrstu verkanir guðlegrar náðar (*gratia praeveniens*) sjer í því, að hún vekur syndarann með lögmálinu til meðvitundar um eymdahag sinn, vekur átölur samvizkunnar, óttann og sálarangistina, og undir býr með því hina fyrstu betrun. Þar næst lýsa sjer, eptir lærdómi prótestanta, guðs náðarverkanir í því (*gratia operans*), að drottinn skapar nýja krapta í mannlegum anda, endurskapar og endurfæðir mannlegt eðli, án þess að maðurinn af eigin kröptum geti nokkuð gjört til þessarar betrunar sinnar, heldur er guðs náðarkraptur einn verkandi, skapar í manninum trúna, og rjettlætir hann án nokkurrar hans verðskuldunar. Eptir skoðun katólskra er þessi starfsemi náðarinnar einungis fólgin í því, að styrkja og styðja hina upphaflegu krapta mannsins, svo að maðurinn er stöðuglega samverkandi; því samkvæmt lærdómi katólsku kirkjunnar um rjettlætinguna getur maðurinn undir búið sig sjálfur undir náðina, og guðs verkandi náð (*gratia operans*) lýsir sjer þá í því, að guð gjörir hinn undirbúna mann góðan og rjettlátan, með því að gróðursetja í honum rjettlæti Krists, innræta honum trú, von og kærleika; því, eins og áður er sagt, slengir katólska kirkjan saman rjettlætingu og helgun. Eptir trúarfræði prótestanta lýsir guðs samverkandi náð (*gratia cooperans*) sjer í hinum stöðugu áhrifum heilags anda á hugarfar og breytni hins endurfædda manns, og þó maðurinn á þessu betrunarstigi sínu sje samverkandi, þá eru það ekki hans meðfæddu náttúrlegu

kraptar, sem eru samvinnandi náðinni, heldur hinir nýju andlegu kraptar, sem guðs náð hefur kallað til lífs í honum. Eptir lærdómi katólskra er maðurinn þar á mót samverkandi með sínum upphaflegu kröptum, einungis studdur af náðinni.

Þannig verður samkvæmt trúarfræði katólsku kirkjunnar guðleg náð jafnan komin undir kröptum mannsins og bundin við þá. Maðurinn hefur þegar frá öndverðu, eptir lærdómi katólskra, krapta frelsisins að vísu nokkuð veikta af syndafallinu, en þó engan veginn alveg þrotna, og eptir því sem maðurinn beitir þessum kröptum sínum, eptir því lagar guðleg náð sig. Samkvæmt því kennir katólska kirkjan, að maðurinn með áreynslu krapta sinna geti búið sig undir rjettlætinguna[1]; en af því leiðir, að koma náðarinnar, eða hin fyrsta byrjun í betrunarverki mannsins, verður með fram mannsins eigið verk, og hlýtur að teljast honum til gildis. Prótestantiska kirkjan játar að vísu, að siðferðisástand mannsins í vissum skilningi undir búi komu náðarinnar, með því að lögmálið vekur þekkingu syndarinnar, Róm. 3, 20., leiðir manninn til játningar syndarinnar og iðrunar-

---

[1]) *„Si quis dixerit sola fide impium justificari, et nulla ex parte necesse esse, eum suae voluntatis motu praeparari atque disponi, anathema sit“. Syn. Trid.*

Þ. e.: Ef einhver segir, að hinn rangláti rjettlætist af trúnni einni, og á engan hátt sje nauðsynlegt, að hann af hreifingu vilja síns undir búi sig og lagi undir rjettlætinguna, sá sje bölvaður.

innar, og undirbýr með því rjettlætinguna. En þetta er ekki mannsins verk, og getur ekki talizt honum til gildis, heldur eru það verkanir guðs náðar, sem byrjar betrun mannsins, og dregur hann til frelsisins, „því enginn kemur til sonarins, nema faðirinn dragi hann“; Jóh. 8, 44. Eptir lærdómi katólskra er þessi undirbúningur þar á móti verðskuldun mannsins; því eins og áður er sagt, slengja katólskir saman rjettlætingu og helgun. Þeir segja, að rjettlætingin sje helgun, og fari sívaxandi, eptir því sem maðurinn beiti kröptum sínum, það er með öðrum orðum: að góðverk mannsins auki og margfaldi rjettlætingu hans, og gjöri hann rjettlátan fyrir guði. Þetta kennir líka katólska kirkjan með berum orðum, þar eð hún setti á fundinum í Tríent þá trúargrein, að góðverk mannsins auki guðs náð[1]. Með þessum lærdómi eru auðsjáanlega náðarverkanir guðs bundnar við verk og breytni mannsins, og betrun hans talin honum og verkum hans til gildis. Þess vegna setti katólska kirkjan líka á fundinum í Tríent þá trúargrein, sem einnig er fullkomlega í anda katólskunnar, að mað-

[1]) *„Si quis dixerit justitiam acceptam non augere coram deo per bona opera, sed opera ipsa fructus solummodo et signa justificationis adeptae. non autem ipsius gratiae augendae causam, anathema sit“. Syn. Trid.*

Þ. e.: Ef einhver segir, að hið þegna rjettlæti aukist ekki frammi fyrir guði fyrir góðverkin, og kallar þau einungis ávexti og merki rjettlætingarinnar, en ekki orsök til þess að auka náðina sjálfa, sá sje bölvaður.

urinn geti uppfyllt lögmálið og verðskuldað eilífa sáluhjálp[1]. Og skýrast kveður fundurinn í Tríent upp með hinn pelagíanska lærdóm um verkahelgun og sjálfsrjettlætingu katólsku kirkjunnar, þegar hann setur hiklaust þá trúargrein, að góðverkin sjeu ekki eintóm guðs gjöf, heldur verðskuldun mannsins jafnframt, og leggur bannfæringu yfir alla, sem annað segja[2].

Allri þessari kenningu katólsku kirkjunnar neitar prótestantiska kirkjan, og telur hana ókristilegan villulærdóm. Prótestantiska kirkjan kennir samkvæmt lærdómi ritningarinnar, að öll betrun mannsins sje verk guðs skapandi náðar, en ekki mannsins verk, og geti ekki í neinu tilliti talizt honum til gildis. Prótestantar aðgreina helgun og rjettlætingu, sem

---

[1]) *„Non timemus adserere posse hominem gratiae adjutorio et legem implere, et ea impletione vitam aeternam promereri“. Syn. Trid.*

þ. e.: Vjer hikum ekki við að fullyrða, að maðurinn geti með aðstoð náðarinnar, bæði uppfyllt lögmálið, og með þeirri lögmálsuppfyllingu verðskuldað eilíft líf.

[2]) *„Si quis dixerit hominis justificati bona opera ita esse dona dei, ut non sint etiam bona ipsius justificati merita, aut etiam ipsum justificatum bonis operibus non vere mereri augmentum gratiae et vitam aeternam, anathema sit“. Syn. Trid.*

þ. e.: Ef einhver segir, að góðverk hins rjettlætta manns sjeu svo mjög gjöf guðs, að þau ekki jafnframt sjeu verðskuldun mannsins sjálfs, eða að ekki ávinnist fyrir góðverk hins rjettlætta aukning náðarinnar og eilíft líf, sá sje bölvaður.

katólskir slengja saman; rjettlætingin er náðartaka syndarans, fyrirgefning syndanna fyrir Krists sakir án nokkurra verðugleika mannsins; helgunin, hinar stöðugu framfarir trúaðs manns á betrunarinnar vegi, er sömuleiðis verk heilags anda, en þó má ekki slengja henni saman við rjettlætinguna. Því þó helgunin sje ávöxtur rjettlætingarinnar, þá er hún vegna breyskleika mannanna hjer í heimi jafnan ófullkomin, en hjá engum algjör eða fullkomin[1]. Sömuleiðis að greina prótestantar verkin og trúna, sem katólskir ranglega slengja saman á þann hátt, að þeir setja verkin í trúarinnar stað beint á móti lærdómi kristindómsins. Því trúin er rótin og grundvöllurinn, góðverkin eru ávöxturinn, sem nauðsynlega hljóta að spretta af sannri trú, en þar fyrir má ekki setja þau í hennar stað; því verk allra, eins þeirra beztu, eru jafnan ófullkomin; enginn getur borið fyrir sig verk sín í augliti drottins og talið sjer þau til gildis, því enginn mað-

---

[1]) *„Similiter et renovatio seu sanctificatio, quamvis et ipsa sit benificium mediatoris Christi et opus spiritus sancti, non tamen ad articulum aut negotium justificationis coram deo pertinet, sed eam sequitur, quia propter carnis nostrae corruptionem in hac vita imperfecta est, et nondum omnibus numeris absoluta". Form. con.*

þ. e.: Á líkan hátt er varið endurnýjungunni eða helguninni; þó hún sje velgjörningur meðalgangarans Krists og verk heilags anda, þá má ekki telja hana til greinarinnar um rjettlætinguna fyrir guði, heldur er hún ávöxtur hennar, því vegna spillingar holds vors er hún ófullkomin í þessu lífi, og enn þá ekki algjör.

ur getur fullnægt lögmáli guðs eða uppfyllt það; en það hlyti maðurinn að gjöra, ef hann ætti að geta rjettlætzt af verkum sínum, því lögmálið átelur og ákærir manninn, á meðan hann hefur ekki uppfyllt það allt[1]. En þó enginn geti rjettlætzt af verkum sínum, eða verðskuldað vegna þeirra guðlega náð, eru samt verk hins trúaða, þó þau sjeu ófullkomin, engu síður guði þóknanleg; ekki í þeim skilningi, sem katólskir kenna, að maðurinn verðskuldi vegna þeirra nokkurt endurgjald hjá guði, heldur vegna þess þau eru vottur um trúna, og helgast af henni[2]. það er því á engri hœfu byggt, þegar katólskir bera kenningu prótestanta á brýn, að hún gjöri lítið úr góðverkunum, og brjóti

---

[1]) *„Quodsi remissio peccatorum non contingit gratis propter Christum, sed propter nostram dilectionem, nemo habiturus est remissionem peccatorum, nisi ubi totam legem fecerit, quia lex non justificat, donec nos accusare potest“. Apol. conf.*

þ. e.: Ef fyrirgefning syndanna fæst ekki af náð vegna Krists, heldur vegna kærleika vors, þá mun enginn öðlast syndakvittun, fyr en hann hefur uppfyllt allt lögmálið, því lögmálið rjettlætir ekki, á meðan það getur ákært oss.

[2]) *„Bona opera quanquam fiunt in carne nondum prorsus renovata, quae retardat motus spiritus sancti, tamen propter fidem sunt opera sancta, divina, sacrificia“. Apol. conf.*

þ. e.: þó góðverkin sjeu framkvæmd í veikleika af holdinu, sem ekki er fullkomlega endurnýjað, og sem aptrar náðarverkunum heilags anda, þá eru þau samt sem áður vegna trúarinnar heilög verk, guðdómleg, sannar fórnir.

með því niður sannarlegt siðferði[1]. Þvert á móti verður kenning prótestantisku kirkjunnar grundvöllur fyrir sönnu siðferði, af því hún er hreinn lærdómur guðsorða, þar sem kenning katólsku kirkjunnar kippir grundvellinum undan sannarlegu siðferði, af því hún afbakar hreinan lærdóm Krists, og er þvert á móti orði hans; því með lærdómi sínum um góðverkin og rjettlætingu mannsins af þeim endurnýjar katólska kirkjan ekki að eins hinn gyðinglega villulærdóm, að maðurinn geti rjettlætzt af verkum lögmálsins, og prjedikar og innrætir með því sjálfbyrgingsskap og siðferðislegan ofmetnað, heldur gjörir hún með þessari kenningu guðs náð að engu, gefur kröptum mannanna dýrðina, og metur einkis endurlausnarverk drottins vors. Lærdómur katólsku kirkjunnar er í rauninni hinn gyðinglegi lærdómur í endurnýjaðri mynd, sem ýmsir villukennendur vildu smeygja inn í kristnina á dögum postulanna, og sem postulinn Páll sýndi fram á að miðaði til þess, að ónýta grundvallarlær-

---

1) *„Hinc facile apparet, hanc doctrinam non esse accusandam, quod bona opera prohibeat, sed multo magis laudandam, quod ostendit, quomodo bona opera facere possimus. Nam sine fide nullo modo potest humana natura primi aut secundi praecepti opera facere“. Conf. Aug.*

þ. e.: Af þessu er auðsjeð, að þessari kenningu verður ekki gefið að sök, að hún banni góðverkin, heldur er hún lofsverð, því hún sýnir, hvernig vjer getum gjört góðverk. Því án trúarinnar getur mannleg náttúra með engu móti hlýtt skipunum fyrsta eða annars boðorðsins.

dóm kristinnar trúar, lærdóminn um Krist sem friðþægjara, endurlausnara, og einan meðalgangara milli guðs og manna; því það stendur stöðugt, sem postulinn segir, Gal. 3, 21.: „Ef rjettlætingin fengist af lögmálinu, þá væri Kristur dáinn til einkis“[1].

Í þessum lærdómi um samband guðlegrar náðar við mannlegt frelsi og góðverk er ágreiningur í katólsku kirkjunni sjálfri. Þessi ágreiningur hefur staðið síðan á 5. öld, en opt legið í dái og lítið látið til sín heyra, en gosið upp með afli, þegar eitthvert tilefni hefur gefizt. Fyrst kom þessi ágreiningur skilmerkilega í ljós og varð að þrætuefni í kirkjunni á 5. öld í trúarágreiningnum milli þeirra Augustínusar og Pelagíusar. Pelagíus, munkur frá Bretlandi, neitaði eðlisspillingu mannsins, og kenndi, að allir fæddust óspilltir, eins og hinir fyrstu menn hefðu komið frá hendi skaparans; eðli mannsins hefði ekki spillzt af synd Adams, og kraptar hans ekki veiklazt, og þess vegna gæti maðurinn með upphaflegum kröptum

---

[1]) *„Nam adversarii, cum neque quid remissio peccatorum, neque quid fides, neque quid gratia, neque quid justitia sit, intelligant, misere contaminant hunc locum, et obscurant benificia et gloriam Christi, et eripiunt piis conscientiis propositas in Christo consolationes“. Apol. conf.*

þ. e.: því þar eð mótstöðumenn vorir (o: katólskir) ekkert skynbragð hafa á því, hvorki hvað fyrirgefning syndanna er, nje trú, nje náð, nje rjettlæti, umhverfa þeir aumkunarlega þessum lærdómi, varpa rýrð á velgjörðir og dýrð Krists, og svipta guðhræddar sálir þeirri huggun, sem þeim er framboðin í Kristi.

náttúru sinnar náð takmarki siðferðislegs fullkomlegleika, og fullnægt lögmáli drottins. Augustínus, biskup í Hippó í Afríku, flutti hinn gagnstæða lærdóm, að mannlegt eðli hefði spillzt og aflagazt með syndafalli Adams, mannlegt frelsi og kraptar til hins góða hefðu gjörsamlega glatazt, svo maðurinn gæti ekkert stuðlað að frelsi sínu, en guðs náð væri ein starfandi í betrunarverki mannsins. Þó trúarfræði Augustínusar yrði að nafninu ofan á í kirkjunni á ýmsum kirkjufundum á 5. og 6. öld, smeygði sjer þó inn í anda kirkjunnar hinn pelagíanski lærdómur í nokkuð mýkri lögun, heldur en Pelagíus hafði flutt hann, og festist hjá flokki þeirra manna, sem hölluðust að kenningu Pelagíusar, og síðar voru kallaðir *„Semipelagiani“*. Báðar þessar trúarfræðisstefnur gengu jafnhliða alla miðöldina, og höfðu aðsetur sitt einkanlega hjá 2 munkaflokkum, Dominíkusmunkum og Fransiskusmunkum; fylgdu þeir fyrnefndu kenningu Augustínusar, hinir síðari Pelagíusi. Með siðabótinni vaknaði þessi ágreiningur með nýju afli; því höfundar siðabótarinnar aðhylltust trúarfræði Augustínusar; katólska kirkjan hallaðist þar á móti að anda Pelagíusar, eins og lýsti sjer á fundinum í Tríent, þó fundurinn leitaðist við að draga dulur á villulærdóm sinn. Einkanlega urðu jesúítar oddvitar og flutningsmenn hinnar pelagíönsku stefnu, og spunnust út úr því langvinnar trúarstyrjaldir á 17. öld milli þeirra og mótstöðumanna þeirra, jansenista, sem fylgdu lærdómi Augustínusar. Í þessu ákafa trúarstríði gat ekki dulizt hin sanna andastefna katólsku kirkjunnar,

að hún drógst í rauninni að kenningu Pelagíusar, en hafði óbeit á lærdómi Augustínusar, því kirkjan studdi jafnan í þessum ágreiningi jesúíta á móti jansenistum. Jansenius, biskup í Ypern, † 1638, ljet eptir sig rit, sem kom út eptir dauða hans. Þetta rit flutti skýrt og trúlega hreina kenningu Augustínusar um guðlega náð, spillingu mannlegs eðlis, og kraptaleysi viljans, og stefndi í öllu beint á móti trúarfræði jesúíta. Þess vegna risu jesúítar fljótt upp, og beittu öllum brögðum til að sporna við því, að andi þessa rits næði að festast í kirkjunni. Rit Janseníusar lögðu þeir í eineltu, og komu því til leiðar, að leikmönnum var bannað að lesa það, og Innócentíus páfi 10. lagði bannfœringu yfir nokkrar setningar í því, og lýsti þeim villulærdómi. Þetta vakti megna óánœgju hjá öllum flokki Janseníusar, sem eptir honum var kallaður jansenistar. Ákafari varð ágreiningurinn í byrjun 18. aldar, þegar saman við hann tvinnaðist óróinn, sem reis út af nýja testamenti því, sem presturinn Qvesnel gaf út. Þessi maður hafði vandað útgáfu sína, sem bezt hann gat, og út búið hana mörgum uppbyggilegum athugasemdum og skýringum, og þar á meðal mörgum í anda Augustínusar og Janseníusar. En 1711 gaf Clemens páfi 11., eptir undirlagi jesúíta, út hina orðrœmdu tilskipun „*Unigenitus*“, sem lagði bannfœringu yfir 100 setningar í þessu riti, og dœmir þær villulærdóm. Þessi tilskipun páfans œsti allan flokk jansenista; þeir sögðu skilið við páfa, og neituðu honum ekki að eins um œðsta dómsvald í trúarefnum, heldur jafnvel í kirkju-

stjórnarefnum. Einkanlega sagði öll katólska kirkjan í Hollandi, þar sem söfnuðir jansenista voru fjölmennastir, páfanum upp allri trú og hollustu. Jansenistar neituðu ekki einungis lærdóminum um einveldi páfans, og voru í því samdóma flokki biskupsmanna, heldur voru þeir í lærdóminum um guðlega náð miklu samþykkari prótestöntum, heldur en katólsku kirkjunni, þar eð jansenistar aðhylltust, eins og prótestantar, lærdóm Augustínusar um spillingu mannlegs eðlis af synd Adams, kraptleysi viljans, og skapandi vald guðs náðar, sem þeir játuðu að ein væri starfandi í betrunarverki mannsins. Samt vildu jansenistar ekki heyra, að kenning þeirra væri ósamhljóða trúarsetningum fundarins í Tríent; þeir báru jafnan fyrir sig orð fundarins, og sama gjörðu mótstöðumenn þeirra, jesúítar. Þetta verður skiljanlegt af því, að kirkjufundurinn í Tríent hafði stýlað orð sín sem tvíræðast honum var unnt, svo teygja mátti út úr þeim gagnstæðar þýðingar; hafði fundurinn eflaust gjört það af ásetningi, bæði til þess, að þóknast báðum flokkum, jansenistum og jesúítum, og til þess, að draga fjöður yfir hina pelagíönsku trúarstefnu kirkjunnar.

Í prótestantisku kirkjunni hefur lýst sjer sömuleiðis nokkur ágreiningur í þessum lærdómi um guðs náð og mannlegan vilja; því þar hefur komið í ljós trúarstefna, sem mýkja vildi nokkuð lærdóm Augustínusar, sem kenndi, að guðs náð væri ein starfandi í apturhvarfi mannsins, en kraptar mannlegs vilja megnuðu ekkert í hinu góða. Í því var þessi stefna

frábrugðin Augustínusi, að hún flutti þá kenningu, að vilji mannsins væri að nokkru leyti samverkandi guðlegri náð í betrunarverkinu. Þess vegna var þessi lærdómur kallaður *„synergismus“* (samvinnukenning). Í raun og veru hafði þessi kenning upptök sín frá Melanchthon, því hann hafði eignað mannlegum vilja sinn þátt í betrunarverkinu, þegar hann talar um þetta efni í trúarfræði sinni[1]. Lærisveinn hans Strígelíus hjelt á fram þessari kenningu í anda Melanchthons, og kenndi, að kraptar viljans væru ekki gjörsamlega afmáðir með syndafallinu, en stórvægilega veiktir og lamaðir, og að þessir kraptar væru samverkandi náðinni í betrunarverki mannsins, þegar náðin væri búin að vekja þá til lífs. Lúter og trúarjátningar prótestantisku kirkjunnar höfðu ekki neitað samvinnu mannlegra krapta í vissum skilningi; en það skildi kenningu Strígelíusar og skoðun Lúters, að minnsta kosti hvað orðatiltæki snerti, að Strígelíus kenndi, að þessir samverkandi kraptar væru hinir upphaflegu kraptar mannlegs anda, sem honum hefðu verið áskapaðir, og ekki hefðu gjörsamlega týnzt í syndafallinu; en Lúter hafði kveðið svo að orði, að í betrunarverki mannsins væru að eins samverkandi hinir nýju kraptar, sem guðleg náð veitti mann-

---

[1]) *„Tres sunt causae concurrentes, verbum, spiritus, et voluntas hominis, non sane otiosa, sed repugnans infirmitati suae“. Mel. loc. theol.*

Þ. e.: Þrjár eru samverkandi orsakir, orðið, andinn, og vilji mannsins, sem ekki er aðgjörðalaus, en berst á móti breyskleika sínum.

inum í endurfœðingunni, af því þeir upphaflegu hefðu algjörlega glatazt. Með þessum kröptum mannsins átti Strígelíus auðsjáanlega ekki við annað en hœfilegleika mannlegs vilja, til að lýsa sjer í starfsemi og framkvæmd, og sem hann játaði um að í tilliti til hins góða væri svo bundinn og fjötraður af valdi syndarinnar, að mannlegum kröptum væri eigi auðið, að koma sjer við, nema guðs skapandi náð vekti þá til lífs að nýju. Kenning Strígelíusar var því í alla staði frábrugðin lærdómi Pelagíusar. Pelagíus kenndi, að maðurinn gæti sjálfur af eigin megni sínu byrjað betrun sína. Því var Strígelíus alveg mótfallinn; hann kenndi, að hvorki væri mannlegur vilji af eigin kröptum fœr um, að byrja betrun sína, nje halda henni á fram; maðurinn gæti að eins látið ógjört, að sýna mótþróa guðlegri náð og verkunum hennar. Samkvæmt þessari kenningu getur því maðurinn í engu tilliti talið sjer til gildis betrun sína; því þó Strígelíus segði, að viljakraptur mannsins hefði ekki algjörlega slokknað út í syndafallinu, þá kenndi hann jafnframt, að þessi kraptur væri svo veiktur orðinn og lamaður af syndinni, að honum væri eigi auðið, að stefna til betrunar, nema guðs náð drœgi manninn. Þess vegna út byggði þessi kenning fullkomlega, eins og lærdómur Lúters, verkahelgun og sjálfsrjettlætingu katólsku kirkjunnar, og öllum lærdómi hennar um verðskuldun mannsins. Strígelíus var samdóma mótstöðumönnum sínum í því, að betrun mannsins gæti með engu móti átt sjer stað, nema guðs náð höndlaði hann að fyrra bragði. Enn fremur

kom honum og þeim saman í því, að af eigin kröptum gæti maðurinn ekkert unnið að betrun sinni. Í rauninni voru því hvorirtveggja samdóma í aðalefninu; því hvorirtveggja játuðu samhuga, að apturhvarf mannsins og helgun væri guðsverk, og að enginn hefði neitt að telja sjer til gildis.

## 7. grein.
## Um sakramentin.

Báðum kirkjum kemur saman um það, að auk orðsins sjeu sakramentin guðlegar tilskipanir, tilsettar af lausnaranum, til að við halda trúarlífi kirkju hans, og að þau þess vegna sjeu sjerstakleg náðarmeðul. En þar eð lærdómur beggja kirkna um rjettlætinguna og guðlega náð er mismunandi, verður líka mikill ágreiningur milli þeirra í lærdóminum um sakramentin, ekki einungis um tölu þeirra, heldur og um eðli þeirra og verkanir. Katólska kirkjan telur 7 sakramenti, og kirkjufundurinn í Tríent gjörði þessa tölu að túargrein[1].

---

[1]) *„Si quis dixerit sacramenta novae legis non fuisse omnia a Jesu Christo, domino nostro, instituta, aut esse plura vel pauciora quam septem: baptismum, confirmationem, evcharistiam, poenitentiam, extremam unctionem, ordinem, et matrimonium, anathema sit“. Syn. Trid.*

þ. e.: Ef einhver segir, að sakramenti hins nýja lögmáls sjeu ekki öll innsett af drottni vorum J. K., eða að þau sjeu fleiri eða færri en 7, skírn, ferming, kveldmáltíð, skriptir, síðasta smurning, vígsla klerka, og hjónavígsla, sá sje bölvaður.

Þessari tölu getur prótestantiska kirkjan ekki verið samdóma, því þar eð sakramentin eru meðul guðlegrar náðar, tilsett af lausnaranum sjálfum, til að afreka rjettlætingu og helgun mannsins, þá verður að að greina þau frá öllum öðrum kirkjulegum athöfnum og siðvenjum, sem af mönnum eru tilsettar, til að við halda kirkjulegri reglu og skipulagi. Væri sakramenti það sama sem sjerhver hátíðleg eða helg athöfn (*res sacra*), þá gæti þessi tala katólsku kirkjunnar átt sjer stað. En katólska kirkjan leggur ekki þessa þýðingu í sakramenti sín; hún kennir, að þau öll jafnt sjeu náðarmeðul, setur þau öll í sömu röð, og leggur bannfæringu yfir hvern, sem ekki játar, að allar þessar 7 athafnir sjeu sakramenti[1]. Í þessari ákvörðun katólsku kirkjunnar um sjötölu sakramentanna lýsir sjer auðsjáanlega klerkavaldsandi hennar; katólska kirkjan hrífur sjer einnig hjer valdið til að breyta tilskipunum lausnarans, og setja sínar tilskipanir jafnhliða hans. Prótestantiska kirkjan segir með fullum rökum, að eptir þessum lærdómi katólsku kirkjunnar mætti kalla sakramenti hverja kirkjulega siðvenju, hverja mannasetningu, sem klerkavaldinu kynni að þóknast að setja beint á móti guðsorði. Til þess að af stýra þessari villu, bindur prótestantiska kirkjan sig því við orð Krists, og játar ekki

---

[1]) *„Si quis dixerit aliquod horum septem non esse vere et proprie sacramentum, anathema sit“. Syn. Trid.*

þ. e.: Ef einhver segir, að eitthvert þessara 7 sje ekki í raun og sannleika sakramenti, sá sje bölvaður.

aðra kirkjusiði sakramenti heldur en þá, sem með berum orðum er tilgreint um í ritningunni að tilsettir sjeu af lausnaranum sjálfum, og einkenna sig á því, að þeir eru byggðir á guðlegri tilskipun, og hafa fyrirheiti um guðlega náð[1]. Eptir þessari ákvörðun geta engir kirkjusiðir talizt sakramenti nema skírn og kveldmáltíð; því um enga aðra helgisiði verður það sagt, og hjá engum á það heima, að þeir sjeu beinlínis tilskipun drottins, og sjeu sýnilegur pantur guðlegrar náðar. Þegar því katólska kirkjan býður, að kalla sakramenti: fermingu, prestsvígslu, hjónavígslu, skriptir og síðustu smurningu, þá eignar hún með því sínum eigin tilskipunum og setningum guðdómlegt gildi og krapt; hún eignar sjer myndugleika til þess, að gefa fyrirheiti um náðina, og hrífur sjer það vald, sem er guðs eins, að setja náðarmeðul[2]. Kat-

---

[1]) *„Sacramenta vocamus ritus, qui habent mandatum dei, et quibus addita est promissio gratiae". Apol. conf.*

Þ. e.: Sakramenti köllum vjer þá kirkjusiði, sem eru skipaðir af guði, og gefið er fyrirheiti náðarinnar.

[2]) *„Estne tolerabile, quod sacramenti honos transferatur ad eos ritus, quos homines vel ex se excogitarunt, vel saltem sine expresso dei mandato observant? Hoc fortiter retinendum est sacramenti instituendi arbitrium, non nisi penes d e u m u n u m e s s e". Calv. inst. rel. chr.*

Þ. e.: Er það þolandi, að tign sakramentisins sje eignuð þeim kirkjusiðum, sem menn annaðhvort hafa upp hugsað af sjálfum sjer, eða sem við gangast án skýrrar skipunar guðs?

ólska kirkjan kennir, að öll sakramenti hennar sjeu tilsett af Kristi, en kirkjufundurinn í Tríent, sem fullyrðir þetta, tilgreinir ekkert, á hverju hann byggir það. Þetta er líka eðlilegt, og í alla staði samkvæmt stefnu katólsku kirkjunnar. Því samkvæmt þeim myndugleika, sem hún eignar sjer, ætlast hún til þess af öllum börnum sínum, að þau taki orð sín og setningar gild, án þess að grennslast eptir, á hverjum rökum þær eru byggðar, og að allir þess vegna sjálfsagt játi, að öll 7 sakramenti kirkjunnar sjeu innsett af Kristi, fyrst katólska kirkjan hefur úrskurðað, að svo sje. Samt hafa margir katólskir guðfræðingar vitnað til nýja testamentisins, og viljað byggja sakramenti sín á ýmsum stöðum þess: ferminguna á Post. G. 8, 17.; prestsvígslu á 1. Tím. 4, 14.; 2. Tím. 1, 6.; skriptir á Matt. 18, 18.; Jóh. 20, 23.; hjónavígslu á Efes. 5, 32.; síðustu smurningu á Jak. 5, 14. Aðalröksemd katólsku kirkjunnar er þó jafnan sögusögnin (*traditio*); á henni byggir kirkjan vanalegast, að þessir helgisiðir sjeu sakramenti. Hvað nú snertir þessar ritningargreinir, sem katólskir til færa, þá segir prótestantiska kirkjan, að katólskir misskilji þær og teygi út úr þeim ranga þýðingu, og að þær sanni ekkert það, sem þeir ætlist til. Því hvorki er nokkur af þeim helgisiðum, sem nefndir eru á þessum stöðum, tilgreindur sem tilskipun lausnarans, nje heldur fyrirheiti gefið um guðlega náðargjöf, sem þeim skuli vera samfara, og þess vegna eru skírn og kveld-

---

Menn verða fastlega að gæta þess, að það er einkis, nema guðs eins, að innsetja sakramenti.

máltíð í því ólík öllum hinum, að hvortveggja eru beinlínis tilskipun drottins sjálfs, þar sem hin 5 sakramenti katólsku kirkjunnar hafa enga fótfestu í ritningunni sem sakramenti.

Þegar sakramentin eru skoðuð frá trúarfræðislegu sjónarmiði, þá liggur í augum uppi, að þau sem náðarmeðul hljóta að hafa sama tilgang, stefna öll að sama miði, og vera samtaka í því, að afreka rjettlætingu og helgun mannsins, og tengja hann í lífssamfjelag við drottin. Þetta á líka fullkomlega heima hjá skírnar- og kveldmáltíðar-sakramentinu. Skírnin er sakramenti trúarinnar og endurfæðingarinnar; með þessu náðarmeðali gróðursetur drottinn trúna, leggur grundvöll hins kristilega lífs í manninum; hún er sýnilegur pantur guðlegrar náðarkosningar, sem útvelur manninn, og stofnsetur í honum lífssamfjelagið við drottin. Kveldmáltíðin er sakramenti helgunarinnar og kærleikans; með þessu náðarmeðali styrkir og endurnýjar drottinn lífssamfjelag hins trúaða við sig, eflir og festir hann í trú, von og kærleika. Hvorttveggja snertir þá sameiginlega sálarvelferð mannsins, því bæði þessi sakramenti hafa samtaka það mið, að gjöra guðlega náð, Krists endurlausn, blessunarríka og ávaxtarsama fyrir líf mannsins, og að við halda, styrkja og staðfesta lífssameiningu hans við drottin. Þetta á þar á móti ekki heima hjá 5 sakramentum katólsku kirkjunnar; þau hafa ekki á sjer hin sönnu einkenni sakramentisins. Því bæði er það, að þau snerta að eins einstakar hliðar lífsins, og sum þeirra ná ekki nema til vissra stjetta,

t. a. m. prestavígsla og hjónavígsla ná að eins til þeirra, sem ganga í prestastjett og bindast hjúskap. En einkum er það talandi vottur móti sakramentum katólskra, að þau reka sig hvert á annað, komast í mótsögn sín á milli, og brjóta sig með því sjálf niður. Þannig geta prestavígsla og hjónavígsla, eins og kunnugt er, ekki samrýmzt í katólsku kirkjunni, því hinum æðri klerkum (biskupum, prestum, djáknum, og súbdjáknum) bannar katólska kirkjan að lifa í hjónabandi. Sömuleiðis kemst skírnin í bága við hjónabandið, því guðsifjar (*cognatio spiritualis*) leggja samkvæmt trúarsetningum katólsku kirkjunnar með ýmsu móti meinbugi (*impedimenta*) á hjónabandið[1], og getur páfinn einn leyst menn undan þeim. Þannig er auðsætt, hvort heldur menn líta til ritningarinnar, eða bera sakramentin saman sín á milli, að þessi 5 sakramenti katólsku kirkjunnar geta ekki komizt í röð með skírn og kveldmáltíð, heldur eru það siðvenjur, sem enga fótfestu hafa í ritningunni sem sakramenti; það eru setningar kirkjunnar, en ekki tilskipanir Krists sjálfs. Þetta sanna líka vitnisburðir sögunnar ljóslega. Skírn og kveldmáltíð hafa jafnan allt frá dögum postulanna mótmælalaust verið játuð tilskipanir drottins og sakramenti. En snemma fóru menn að telja fleiri kirkjusiði til sakramenta, og setja í röð með hinum. Talan var lengi óákveðin; sumir töldu 5, aðrir 6, aptur aðrir 7 sakramenti. Á þessu

---

[1]) Smbr. Jón Ólafsson: *Diatribe de cognatione spirituali.*

gekk allt fram á 12. öld, að ekkert var fast ákveðið um tölu sakramentanna. En guðfræðingarnir á miðöldunum einskorðuðu þessa sjötölu, og frá dögum Pjeturs Lombardusar, † 1164, festist þessi sjötala í kirkjunni. Þó töldu menn þessi sakramenti ekki öll jöfn, en gjörðu mun á þeim. Þannig sýnir sagan, að 7 sakramenti katólsku kirkjunnar eru ekki upphaflegar tilskipanir, heldur setningar kirkjunnar, sem smátt og smátt komu upp, og sem kirkjufundurinn í Tríent samþykkti og gjörði að trúarlærdómi, eins og marga aðra villu miðaldanna.

Hvað snertir gildi og verkanir sakramentanna, kemur báðum kirkjum saman um, að þau sjeu ekki einungis ytri tákn, sem merki guðlega náð, ekki heldur einber játningarmerki eða vottur um það, að maðurinn sje kristinn. Þess vegna er gildi þeirra ekki bundið við hugarfar þess, sem veitir þeim þjónustu, eða þess sem þjónustaður er, heldur er gildi þeirra og tign byggð á því, að sakramentið er guðleg tilskipun, samtengd náðarríku fyrirheiti drottins. Því eins og guð er trúr, þó maðurinn sje ótrúr, eins stendur gildi sakramentisins stöðugt fyrir það, þó trú mannsins bregðist, því ekki er það mannsins vilji, sem skapar tign sakramentisins[1], heldur guðs vilji, sem hefur samtengt við

---

[1]) *„Accedente aquae verbo, baptismus rectus habendus est, etiam non accedente fide; neque enim fides mea facit baptismum, sed baptismum percipit et apprehendit“. Cat. major.*

Þ. e.: Ef orðið sameinast vatninu, má álíta skírnina gilda,

það fyrirheiti sitt. Þess vegna játa líka prótestantar, eins og katólskir, að sakramentið sje gilt, þegar það fer fram rjettilega eptir tilskipun lausnarans, hvort sem presturinn, er þjónustu veitir sakramentinu, er trúaður eða vantrúaður[1].

En úr þessu skilur samleið kirknanna; því katólska kirkjan kennir, að guðs náð sje óaðgreinanlega bundin við sakramentin, og veitist því ekki að eins sumum, heldur öllum óumflýjanlega í og með þeim, þegar þeim er veitt rjettileg þjónusta, og hinn þjónustaði gjörir ekki mótspyrnu af ásetningi[2]. Katólska kirkjan hugsar sjer því verkanir sakramentisins bundnar við athöfnina sjálfa, og kennir samkvæmt því, að sakramentin inniloki í sjer guðs náð. Samkvæmt því kennir katólska kirkjan enn fremur, að sakramentin

---

þó trúna vanti; því ekki skapar mín trú skírnina, heldur tekur hún á móti henni og höndlar hana.

1) *„Et sacramenta et verbum propter ordinationem et mandatum Christi sunt efficacia, etiamsi per malos exhibeantur“. Conf. Aug.*

Þ. e.: Bæði sakramentin og orðið eru kröptug vegna innsetningar og tilskipunar Krists, þó þeim sje úthlutað af vondum mönnum.

2) *„Si quis dixerit sacramenta novae legis non continere gratiam, quam significant, aut gratiam ipsam non ponentibus obicem non conferre, anathema sit“. Syn. Trid.*

Þ. e.: Ef einhver segir, að sakramenti hins nýja sáttmála inniloki ekki í sjer náðina, sem þau tákna, eða veiti ekki sjálfa náðina þeim, sem ekki gjöra henni mótspyrnu, sá sje bölvaður.

veiti guðlega náð „af verkinu sjálfu“[1] (*ex opere operato*). Kirkjufundurinn í Tríent tilgreinir reyndar hvergi ljóslega, hvað skiljast eigi við þessi orð: „af verkinu sjálfu“. En hinn vanalegi skilningur á þeim í katólsku kirkjunni er sá, sem guðfræðingarnir á miðöldunum höfðu, að með þessum orðum táknist athöfnin sjálf, eða þjónusta sakramentanna. Þegar því katólska kirkjan kennir, að sakramentin veiti guðs náð „af verkinu sjálfu“, þá er meining hennar sú, að öll áhrif og verkanir sakramentanna sjeu eingöngu komnar undir hinni ytri athöfn, undir því, að þjónusta sakramentanna fari fram eptir rjettum fyrirskipuðum reglum, en ekkert sje að líta á það, með hverju hugarfari maðurinn veitir sakramentinu móttöku; trú mannsins komi ekki til skoðunar, og útheimtist ekki til þess, að sakramentin hafi sáluhjálplegar verkanir fyrir manninn; því sumir guðfræðingar á miðöldunum fluttu þá kenningu, að sakramentin innibyrgðu í sjer, eins og líkamleg læknameðul, læknandi krapt, og flytti sálum manna óumflýjanlega lækningu, svo að einber ytri þjónusta og nautn sakramentanna jafnan hlyti að hafa blessunarrík áhrif fyrir sálarvelferð

---

1) *„Si quis dixerit, per sacramenta ex opere operato non conferri gratiam, sed solam fidem divinae promissionis ad gratiam consequendam sufficere, anathema sit“. Syn. Trid.*

Þ. e.: Ef einhver segir, að náðin veitist ekki með sakramentunum af verkinu sjálfu, en að trúin ein á guðs fyrirheiti nægi til þess, að verða náðarinnar aðnjótandi, sá sje bölvaður.

mannsins, eins og smyrsl læknanna græða líkamleg sár manna. Að vísu hafa sumir katólskir guðfræðingar neitað þessum skilningi orðanna, og kallað það ósannan áburð á katólsku kirkjuna, að hún eigni eintómri ytri þjónustu sakramentanna verkanir og áhrif, án tillits til trúarinnar hjá þeim, sem neytir þeirra, heldur segja þeir, að þessi orð, „af verkinu sjálfu", eigi að skiljast um hina guðlegu tign, sem sakramentin hafa í sjálfum sjer, vegna þess þau eru guðlegar tilskipanir, og eru ekki bundin við trúarásigkomulag þess, sem þjónar þeim. En þessi útlegging er eintóm viðbára, og ósamkvæm anda katólsku kirkjunnar. Katólska kirkjan sjálf leggur sömu þýðingu í orðin, sem guðfræðingarnir á miðöldunum; það sýnir hún með því, að hún hefur hvergi mótmælt útleggingu þeirra á þeim, og enn þá ljósar með því, að lýsa bannfæringu yfir þá, sem kenna, að trúin útheimtist frá hálfu mannsins, til þess að nautn sakramentisins geti haft á hann blessunarrík áhrif.

Þessum lærdómi um áhrif sakramentanna af verkinu sjálfu neitar prótestantiska kirkjan sem hættulegum villulærdómi. Því með þessari kenningu sinni, að sakramentin flytji manninum guðs náð án trúarinnar, eignar katólska kirkjan þeim auðsjáanlega töfraverkanir. Lærdómur katólsku kirkjunnar gjörir úr sakramentunum töframeðul, sem inniloka í sjer guðs náð eins og líkamlegt efni, og gróðursetja hana með ómótstæðilegu afli hjá hverjum, sem neytir þeirra, hvernig sem hugarfar hans er ásigkomið og trúarástand. Þvílík kenning um sakramentin er ókristi-

leg hjátrú og villa, og í siðferðislegu tilliti mjög hættuleg, þar eð hún brýtur niður hina kristilegu trú á sakramentin, sem andleg náðarmeðul, og innrætir manninum hjátrúarfullt oftraust á hinni ytri þjónustu og nautninni einni, og leiðir með því til verkahelgunar og farísea-anda, sem hugsar sjer nóg, að hafa yfirskin guðhræðslunnar, þó maðurinn afneiti krapti hennar[1]. Prótestantiska kirkjan kennir því, að sakramentin sjeu sýnilegur pantur guðs náðar, guðleg náðarmeðul, sem flytja og fram bjóða manninum guðs náð; þau eru verkfæri guðs, til að leiða manninn til trúarinnar, og festa hann í trúnni *(causae instrumentales)*; því sakramentin eru, eins og orð guðs, í sýnilegri mynd, og hafa því sömu verkanir sem orðið; áhrif og verkanir hvorstveggja eru andlegar, hvorttveggja veitir heilagan anda[2]. En einmitt af því

[1]) *„Judaica opinio est sentire, quod per caeremoniam justificemur sine bono motu cordis, hoc est: sine fide, et tamen haec impia et superstitiosa opinio magna auctoritate docetur in toto regno pontificio". Apol. conf.*

þ. e.: það er gyðinglegur hugsunarháttur, að gjöra sjer í lund, að vjer munum rjettlætast af ytri siðvenju, án þess góðar hreifingar vakni í hjartanu, það er að skilja: án trúarinnar, og þó er þessi óguðlega og hjátrúarfulla kenning flutt með miklum myndugleika í öllu ríki páfans.

[2]) *„Sicut praeclare dictum est ab Augustino sacramentum est verbum visibile, quia ritus oculis accipitur, et est quasi pictura verbi, idem significans, quod verbum. Quare idem est utriusque effectus". Apol. conf.*

þ. e.: Eins og Augustínus hefur snilldarlega komizt að orði,

þau eru andleg náðarmeðul, er guðleg náð ekki bundin við þau með töfravaldi; þó þau flytji og fram bjóði guðs náð, innilykja þau hana ekki eins og líkamlegt efni, og þess vegna flytur ekki eintóm ytri nautn þeirra óumflýjanlega blessunina öllum, sem neyta þeirra, heldur er trúin skilyrði fyrir blessunarríkum og sáluhjálplegum áhrifum þeirra, svo að nautn sakramentanna getur orðið þeim einum að sálargagni, sem veita þeim móttöku með trúuðu hugarfari. Þess vegna neitar prótestantiska kirkjan lærdómi katólskra um verkanir sakramentanna án trúarinnar[1]. Því þó guðs náð standi stöðug, og allir eigi opinn aðgang að henni í hans náðarmeðulum, þá útheimtist hjá manninum hæfilegleikinn til mótstöðu, trúin og traustið til guðs fyrirheita, til þess að guðs náðarríka gjöf geti fengið inngöngu hjá manninum, geti fest rætur í hans innra manni, og með því móti haft sáluhjálpleg áhrif og verkanir á hann[2].

---

er sakramentið sýnilegt orð; því augun sjá hina helgu athöfn, og hún er eins og afmálun orðsins, táknandi hið sama sem orðið. Þess vegna eru áhrif hvorstveggja hin sömu.

[1]) *„Damnant illos, qui docent, quod sacramenta ex opere operato justificent, nec docent fidem requiri in usu sacramentorum, quae credat remitti peccata“. Conf. Aug.*

Þ. e.: Prótestantar leggja áfellisdóm á þá, sem kenna, að sakramentin rjettlæti af verkinu sjálfu, og segja, að í nautn sakramentanna útheimtist ekki trúin, sem trúir á fyrirgefningu syndanna.

[2]) *„Docemus, quod in usu sacramentorum fides debeat accedere, quae credat promissisonibus, et ac-*

## 8. grein.

### Um hvert sakramenti sjer í lagi.

Um skírnina er enginn verulegur ágreiningur milli kirknanna; því báðar játa þær, að skírnin sje innsett af Kristi sjálfum, og viðurkenna, að hún sje sakramenti. Báðar neita þær villu endurskírandanna, að skírnina megi endurtaka, og báðar játa barnaskírnina, og neita samtaka villu skírandanna (*Baptista*). Ágreiningurinn milli kirknanna í lærdóminum um sakramentin byrjar með ferminguuni, sem katólska kirkjan telur sakramenti. Katólska kirkjan aðgreinir efni (*materia*) sakramentanna og form þeirra (*forma*). Til hins fyrra telur hún hið sýnilega efni sakramentisins, og til hins síðara hin fyrirskipuðu orð, sem lesin eru við þjónustuna. Efni fermingarinnar telur hún hina helgu krismu (*chrisma*), smyrsli, tilbúin úr viðsmjöri og balsami. Eptir lögum katólsku kirkjunnar má enginn þjóna þessu sakramenti nema biskup[1], og þess vegna kölluðu forfeður

---

*cipiat res promissas, quae ibi in sacramento offeruntur. Promissio est inutilis, nisi fide accipiatur*". *Apol. conf.*

Þ. e.: Vjer kennum, að í nautn sakramentanna útheimtist trúin, sem trúi fyrirheitinu og taki á móti fyrirheitinu, sem framboðið er í sakramentinu. Fyrirheitið er gagnslaust, ef trúin ekki höndlar það.

[1]) „*Si quis dixerit sanctae confirmationis ordinarium ministrum non esse solum episcopum, sed quemvis simplicem sacerdotem, anathema sit*". *Syn. Trid.*

Þ. e.: Ef einhver segir, að reglulegur þjónustumaður hei-

vorir á dögum katólskunnar ferminguna stundum öðru nafni: biskupan. Biskup sá, sem þjónustuna veitir, gjörir krossmark með hinni helguðu krismu á enni þess, sem fermdur er, og segir þessi orð: „*Signo te signo crucis, et confirmo te chrismate salutis*" (Jeg signi þig krossmarki, og staðfesti þig með sáluhjálplegri krismu). Katólska kirkjan kennir, að þetta sakramenti, sem hún svo kallar, auki og fullkomni náð skírnarinnar, og þessar verkanir bindur hún við hina vígðu krismu, og eignar með því auðsjáanlega þessari athöfn töfraverkanir[1].

Prótestantiska kirkjan neitar fermingunni um gildi sem sakramenti, bæði vegna þess að hún er ekki tilskipun drottins sjálfs[2], og vegna þess að katólska kirkjan rýrir tign skírnarinnar með því, að eigna fermingunni jafnmikið, eða jafnvel meira gildi en

lagrar fermingar sje ekki biskupinn einn, heldur hver rjettur og sljettur prestur, sá veri bölvaður.

[1]) „*Si quis dixerit injurios esse spiritui sancto eos, qui sacro confirmationis chrismati virtutem aliquam tribuunt, anathema sit*". *Syn. Trid.*

þ. e.: Ef einhver segir, að þeir hallmæli heilögum anda, sem eigna krismu heilagrar fermingar einhvern æðri krapt, sá sje bölvaður.

[2]) „*Confirmatio et extrema unctio sunt ritus accepti a patribus, quos ne ecclesia quidem tanquam necessarios ad salutem requirit, quia non habent mandatum dei*". *Apol. conf.*

þ. e.: Ferming og síðasta smurning eru kirkjusiðir frá dögum feðranna, en ekki telur kirkjan þá nauðsynlega til sáluhjálpar, því þeir styðjast ekki á guðs skipun.

skírninni, þar sem þó engin merki eru þess, að postularnir eða fornkirkjan hafi eignað ferminguuni jafngildi við skírn og kveldmáltíð, eða þekkt hana í þeirri lögun, sem katólska kirkjan hefur hana. Prótestantiska kirkjan játar því ferminguna einungis sem hátíðlega kirkjulega athöfn, og virðir hana sem tilskipun kirkjunnar, lagaða til þess, að styrkja söfnuðinn í skírnarsáttmála sínum. Í prótestantisku kirkjunni er fermingin því sameinuð uppfræðingu ungmennanna í kristilegri trú, og lögleidd í prótestantiskum löndum, til þess að ungmennin, þegar þau eru komin til vits og ára, geti sjálf með eigin játningu í safnaðarins viðurvist gjört grein fyrir trúarþekkingu sinni, og staðfest skírnarheiti sitt. Þannig er fermingin í prótestantisku kirkjunni hátíðlegur og uppbyggilegur kirkjusiður, lagaður til þess, að styrkja trúarlíf safnaðarins alls, vera til uppbyggingar söfnuðinum öllum, eins eldri mönnum sem yngri; þar á móti er í katólsku kirkjunni engin uppfræðing eða opinber játning samtengd fermingunni, og þessi athöfn verður þar ekki annað en dauð og óuppbyggileg ytri siðvenja.

Katólska kirkjan telur skriptir sakramenti (*sacramentum poenitentiae absolutionis*). Prótestantiska kirkjan neitar þessum helgisið sem sakramenti, þar eð hann ekki er tilskipun Krists, jafnvel ekki postulanna, og fornkirkjan taldi aldrei skriptir sakramenti allt fram að dögum Pjeturs Lombardusar, sem fyrstur setti þennan kirkjusið í sakramentaröð. Til efnis þessa sakramentis síns telur katólska kirkjan 3 atriði: iðrun (*contritio cordis*), syndajátningu (*confessio oris*), og

fullnustugjörð (*satisfactio operis*). Form þessa sakramentis telur katólska kirkjan aflausn prestsins, og í henni felst einkanlega kraptur þessa sakramentis samkvæmt lærdómi katólskra, því þeir segja, að aflausn prestsins v e i t i fyrirgefningu syndanna, en tákni hana ekki. Að þessu öllu afloknu á maðurinn að vera rjettlættur og fullkomlega í sátt við guð, með því að hann á að hafa fullnægt kröfum guðlegs rjettlætis[1]. Hvað iðrunina snertir, segir katólska kirkjan, að sú sanna iðrun sje fólgin í viðbjóð við drýgðum syndum, og föstu áformi mannsins, að byrja nýtt líf; en þar eð iðrun flestra manna sje ekki þessi sanna iðrun, heldur ófullkomin, sprottin af ótta fyrir reiði guðs og eilífri glötun, þá sje hitt atriðið, syndajátningin, tilsett af guði, með því hann hafi gefið klerkdóminum lyklavaldið, valdið til að leysa og binda syndirnar. En til þess þarf presturinn, sem kemur fram í nafni

---

[1]) „*Si quis negaverit, ad integram et perfectam peccatorum remissionem requiri tres actus in poenitente, quasi materiam sacramenti poenitentiae, contritionem, confessionem et satisfactionem, quae tres poenitentiae partes dicuntur, aut dixerit duas tantum esse poenitentiae partes, terrores scilicet incussos conscientiae agnito peccato, et fidem conceptam ex evangelio, anathema sit*“. *Syn. Trid.*

þ. e.: Ef einhver neitar því, að 3 atriði útheimtist til fullkominnar syndafyrirgefningar hjá þeim, sem skriptast, sem eini skriptasakramentisins, iðrun, játning, og fullnægjugjörð, sem samtals heita atriði skriptanna, eða ef einhver segir, að 2 sjeu einungis atriði í yfirbótinni, nl. sálarangistin af viðurkenningu syndarinnar, og trúin, sem spretti af evangelíó, sá sje bölvaður.

kirkjunnar, að vita gjörlega um siðferðislegt ástand sjerhvers. Þess vegna er hverjum einum gjört að skyldu í katólsku kirkjunni, að skriptbera allar syndir sínar, jafnvel hinar heimulegustu, að minnsta kosti einu sinni á ári, og skýra um leið skriptaföður sínum hreinskilnislega frá öllum atvikum og kringumstæðum, sem samfara voru brotinu (*confessio secreta, auricularis*). Hið þriðja atriði, fullnustugjörðin, innibindur í sjer þau yfirbótarverk, sem presturinn leggur skriptabörnum sínum á herðar, um leið og hann leysir þau. Þessi yfirbótarverk eru eptir trúarfræði katólsku kirkjunnar, bæði kirkjulegar hegningar fyrir drýgðar syndir, bætur hins seka til heilagrar kirkju, og jafnframt eru þau betrunarmeðul fyrir syndarann; optast eru þessar bætur látnar vera fólgnar í ýmsum ytri verkum, bænum, föstum, eða ölmusugjöfum. Þessi meðferð katólsku kirkjunnar á yfirbótarlærdóminum er beinlínis ávöxtur af lærdómi hennar um rjettlætinguna; því með þessum skriptalærdómi sínum og tilskipunum um yfirbótina staðfestir katólska kirkjan í verkinu lærdóm sinn um sjálfsrjettlætingu og verkahelgun mannsins, og jafnframt kemur hjer fram að nýju klerkavaldsandi katólsku kirkjunnar, sem hjer, eins og annarstaðar, setur sig í guðs stað, hrífur sjer valdið, til að fyrirgefa syndirnar, og gjörir sig að dómara yfir hjarta og samvizku manna.

Prótestantiska kirkjan neitar því meströllum þessum lærdómi katólskra um yfirbótina. Hún kennir, að til sannrar yfirbótar útheimtist iðrunin og trúin[1].

[1]) *Constat poenitentia proprie duabus his parti-*

Iðrunin er innileg hryggð og angist yfir syndinni, en hún er, eptir lærdómi prótestanta, ekki mannsins verk, heldur verk guðlegrar náðar, því heilagur andi vekur með lögmálsins prjedikun þekkingu syndarinnar, lætur syndarann sjá djúp spillingarinnar í ástandi sínu, og undir býr með því hina fyrstu betrun mannsins[1]. Ekki er sönn iðrun heldur að eins vanþóknun á einstökum syndum, heldur innileg hryggð yfir ástandi syndarinnar.

Hinu öðru atriði, sem katólska kirkjan telur til yfirbótar, neitar prótestantiska kirkjan í þeirri lögun, sem hjá katólskum er fyrirskipað, að sjerhver skuli skriptbera og hvísla prestinum í eyra allar syndir sínar. Þvílíkum heimulegum skriptum neitar próte-

---

*bus: altera est contritio, seu terrores incussi conscientiae, agnito peccato; altera est fides, quae concipitur ex evangelio, et credit propter Chr. remitti peccata, et consolatur conscientiam et ex terroribus liberat". Conf. Aug.*

þ. e.: Yfirbótin innibindur þessi 2 atriði: iðrunina, eða sálarangistina, sem vaknar af viðurkenningu syndarinnar; hitt atriðið er trúin, sem sprettur af evangelíó, og treystir fyrirgefningu syndanna fyrir Krists sakir, huggar hjartað, og leysir það frá óttanum.

1) *„Haec contritio ita fit, quando verbo dei arguuntur peccata, quia haec est summa praedicationis evangelii arguere peccata, et offerre remissionem peccatorum". Apol. conf.*

þ. e.: þessi iðrun verður á þann hátt, að guðsorð sannfærir um syndirnar, því það er aðalefnið í boðskap evangelíi, að gjöra syndirnar opinberar og sannfæra um þær, og fram bjóða fyrirgefningu þeirra.

stantiska kirkjan[1]; því það er ómögulegt manninum, að telja upp allar syndir, og þvílík tilskipun er, eins og Lúter kallaði hana, kvalabekkur sálnanna (*carnificina conscientiarum*); því hún miðar til þess, að steypa sálum manna í örvæntingu. Því sje fyrirgefning syndanna bundin við upptalningu þeirra, þá getur hjarta mannsins aldrei fengið frið, af ótta fyrir, að hafa gleymt einhverri synd í upptalningu sinni; en hina andvaralausu hlýtur þessi lærdómur að stæla í skeytingarleysinu og leiða til glötunar, með því þeir treysta játningu sinni, eins og fullnustugjörð, og kaupa sjer með henni leyfi til að syndga að nýju[2]. Hin sanna syndajátning er, samkvæmt lærdómi próte-

---

[1]) *„Non est necessaria enumeratio delictorum, nec sunt onerandae conscientiae cura enumerandi omnia delicta, quia impossibile est omnia delicta recitare, ut testatur Ps. 19, 13: Delicta quis intelligit". Conf. Aug.*

Þ. e.: Ekki er nauðsynleg upptalning einstakra synda, og ekki má ofþyngja samvizku manna með henni, því það er eigi auðið, að telja upp allar syndir, eins og skáldið segir: hver veit, hvað opt honum yfirsjest.

[2]) *„Haec doctrina adegit multas pias mentes in desperationem, quae non potuerunt acquiescere, quia sentiebant jure divino esse necessariam enumerationem, et tamen experiebantur impossibilem esse". Apol. conf.*

Þ. e.: Þessi kenning hefur steypt mörgum guðhræddum sálum í örvæntingu, og svipt menn sálarfriði, þar eð þeir hjeldu, að upptalning væri nauðsynleg eptir guðlegum rjetti, en komust þó að raun um, að hún er ómöguleg.

stanta, ekki fólgin í syndaþulu varanna, heldur í einlægri viðurkenningu hjartans fyrir guði, og er því í eðli sínu sama sem iðrunin[1]. Í skriptalærdómi katólsku kirkjunnar lýsir sjer þar á móti ekki að eins fullkominn misskilningur á sönnu eðli iðrunarinnar og syndajátningarinnar, heldur og klerkavaldsandi, sem gefur prestinum dómsvald yfir samvizku manna. Því samkvæmt lærdómi katólsku kirkjunnar kemur hinn katólski skriptafaðir fram útbúinn guðlegu dómsúrskurðarvaldi, svo að syndalausn hans er, eptir trú katólskra, ekki boðun fyrirgefningarinnar, heldur í raun og veru fyrirgefning syndanna[2]. Eptir lærdómi prótestantisku kirkjunnar eru skriptamálin, samkvæmt anda kristilegrar trúar, útlistun og boðun hins huggunarríka lærdóms evangelíí, sem heitir fyrirgefningu syndanna hverjum sanniðrandi syndara, og syndalausnin er því ekki dómsúrskurður prestsins í hans eigin nafni, heldur boðskapur um líknarfulla náð guðs til handa hverjum þeim, sem iðrast og trúir *(annuntiatio*

---

[1]) *„Talis confessio peccati, quae deo fit, est ipsa contritio. Nam cum deo fit confessio, corde fieri necesse est, non solum voce“. Apol. conf.*

Þ. e.: Sú syndajátning, sem maðurinn gjörir fyrir guði, er einmitt iðrunin sjálf. Því þegar játningin er gjörð guði, hlýtur hún að gjörast með hjartanu, en ekki einungis með vörunum.

[2]) *„In sacerdote, qui in eum* l e g i t i m u s j u d e x *sedet, Christi domini personam et potestatem veneretur“. Cat. Rom.*

Þ. e.: Presti þeim, sem í skriptastólnum situr l ö g l e g u r d ó m a r i hans, skal hann lúta eins og Kristi sjálfum, og valdi hans eins og valdi Krists.

*declarativa)*. Í katólsku kirkjunni er ekkert minnzt á trúna í skriptalærdóminum, og í því lýsir sjer einkanlega afbökun katólskra á yfirbótarlærdóminum. Þar á móti leggur hinn katólski prestur, um leið og hann leysir af syndunum, skriptabarni sínu á herðar ýmisleg yfirbótarverk, eða bætur, til að fullnægja heilagri kirkju. Þetta er þriðja atriðið í yfirbótinni eptir lærdómi katólskra.

Þessu atriði neitar prótestantiska kirkjan að öllu leyti, því áþreifanlega lýsir sjer í því verkahelgunarandi katólsku kirkjunnar, sem skipar börnum sínum, að treysta eigin verkum, en gleyma algjörlega þeirri fullnaðargjörð, sem ein er næg, verðskuldun Jesú Krists. Þess vegna minnist katólska kirkjan ekki einu orði á trúna í lærdómi sínum um iðrun og apturhvarf, en setur ytri verk í hennar stað[1]. Prótestantiska kirkjan kennir, að trúin, sem höndlar guðs náð og Krists friðþægingu, sje aðalatriðið í apturhvarfi mannsins og

[1]) *„Antea immodice extollebantur satisfactiones, fidei et meriti Christi ac justitiae fidei nulla fiebat mentio; quare in hac parte minime sunt culpandae ecclesiae nostrae. Nam hoc etiam adversarii tribuere nobis coguntur, quod doctrina de poenitentia diligentissime a nobis tractata et patefacta sit“. Conf. Aug.*

Þ. e.: Áður var vandi, að hefja til skýjanna fram úr öllu hófi fullnaðargjörð manna, en trúarinnar var að engu getið, nje verðskuldunar Krists, nje rjettlætingarinnar af trúnni; þess vegna eru söfnuðir vorir ekki vítaverðir í þessu efni. Því það hljóta jafnvel mótstöðumenn vorir að játa, að vjer höfum með mestu alúð útskýrt og útlistað lærdóminn um apturhvarfið.

betrun. Því eins og iðrunin, hin innilega hryggð yfir syndinni, sem lögmálið vekur, er dauði hins gamla manns, eins er trúin, sem veitist af náðarboðskap Krists, lífgun hins nýja manns, og grundvöllurinn fyrir endurnýjungu mannsins í dyggð og guðsótta. Trúin, hið óbifanlega traust til guðs náðar, huggar hin hrelldu hjörtu, hún hrekur óttann á dyr, og innrætir manninum hugarfar barnanna, vekur kærleikans anda í brjósti mannsins, en burt rýmir þrældómsandanum, og brynjar manninn þreki og þolinmæði til að veita syndinni mótspyrnu. Það leiðir því af sjálfu sjer, að prótestantiska kirkjan neitar öllum fullnaðargjörðarlærdómi katólsku kirkjunnar, eins og ókristilegri villutrú, þar eð hann leiðir frá trúnni á Krists verðskuldun, en kennir og prjedikar manninum sjálfsrjettlætingaranda, og er vel lagaður til þess, að innræta hræsni og yfirdrepskap, kenna manninum að tigna drottin sinn með vörunum, en vera langt fjarlægur honum í hjarta sínu.

Katólska kirkjan telur hjónavígslu með sakramentum, og byggir það, eins og áður er sagt, á Efes. 5, 32., en á rangri útleggingu orðanna. Þó prótestantiska kirkjan játi, að hjúskapur sje heilög stjett, neitar hún því, að hjónavígsla sje sakramenti, eða geti talizt í röð með skírn og kveldmáltíð. Því væri það rjett, að kalla hjónavígslu sakramenti, þá væri það ekki síður rjett, að kalla sakramenti aðrar tilskipanir, sem samkvæmar eru guðs orði og vilja, t. a. m. bæn, valdstjórn, o. s. frv.[1] Þar að auki er

[1]) *„Quodsi matrimonium propterea habebit ap-*

hjúskapur ekki upprunaleg tilskipun kristilegrar trúar. Trúarbrögð Gyðinga játuðu heilagleika hjónabandsins, því lögmál drottins bauð, að hafa hjúskapinn í heiðri. Annar ágreiningur, sem minna er varið í, er sá, að katólska kirkjan telur fleiri meinbugi á hjónavígslu heldur en prótestantiska kirkjan, ekki einungis líkamlegan, heldur og andlegan skyldugleika (guðsifjar). Sömuleiðis kennir katólska kirkjan, að hjónabandið sje órjúfanlegt, og leyfir aldrei hjónaskilnað, einungis leyfir hún skilnað að samvistum, eða að borði og sæng (*separatio quoad thorum et mensam*).

Enn fremur telur katólska kirkjan til sakramentanna síðustu olean (*extremum oleum, extrema unctio*), og kennir, að hún sje tilsett, til að veita hinum deyjandi manni sjerlega náð guðs, til að afmá allar syndir hans, sem hann hafi drýgt, eptir að hann gekk til síðustu skripta, og til að leysa hann undan angist dauðans. Þjónusta þessarar athafnar fer fram á þann hátt, að presturinn smyr þann, sem oleaður er, helguðu viðsmjöri, bæði andlit hans, hendur, fætur og mjaðmir, og mælir yfir honum þessa bæn: „Fyrir krapt þessarar helgu smurningar virðist guð

---

*pellationem sacramenti, quia habet mandatum dei, etiam alii status seu officia, quae habent mandatum dei, poterunt vocari sacramenta, sicut magistratus*". *Apol. conf.*

Þ. e.: Ef kalla ætti hjónavígslu sakramenti vegna þess, að hún er byggð á skipun guðs, þá mætti eins kalla aðrar stjettir og aðrar skyldur, sem byggðar eru á skipun guðs, sakramenti, t. a. m. valdstjórn.

að fyrirgefa þjer sjerhvað það, sem þú ert við hann brotlegur orðinn með sjón, ilman eða tilfinningu“ (*per istam sanctam unctionem indulgeat tibi deus quicquid oculorum, sive narium, sive tactus vitio deliquisti*). Katólska kirkjan byggir þetta sakramenti sitt á sögusögninni; þó ber hún einnig fyrir sig orð ritningarinnar, Mark. 6, 12., þar sem sagt er frá, að lærisveinar Krists hafi læknað sjúka og smurt þá með viðsmjöri; á þessari sögu vill katólska kirkjan sanna, að lausnarinn hafi innsett smurninguna sem sakramenti; sömuleiðis ber. hún fyrir sig orð postulans Jak., 5, 14., 15. Prótestantiska kirkjan segir, að þessir biflíustaðir, sem katólska kirkjan vitnar til, sanni ekkert það, sem hún ætlast til; því í fyrri staðnum er talað um viðsmjörs-brúkun að eins sem læknismeðal við þá, sem heilbrigðir urðu, og ekkert fyrirheiti gefið um, að þessi lækniskraptur skyldi ganga í erfðir til klerkavaldsins. Í síðari staðnum er einungis ráðlegging postulans um kristilega meðferð á sjúklingum, en hvorki talar hann einu orði um hana sem tilskipun Krists, nje fyrirskipar hana sem almenna reglu. Prótestantiska kirkjan neitar því ekki einungis, að þessi siður sje sakramenti, heldur telur hún hann með öllu óþarfa-siðvenju. Kristur hefur ekkert sjerstaklegt sakramenti innsett handa þeim, sem liggja á banasænginni. Þau 2 sakramenti, sem hann hefur innsett, ná til allra manna og yfir allt líf þeirra, eins þegar þeir fæðast til þessa lífs, eins og þegar þeir eiga að leysast burt úr þessu lífi. Þess vegna kennir prótestantiska kirkjan, að kveldmáltíð drottins vors sje

manninum hið eina sanna veganesti (*viaticum*) á burtför hans hjeðan úr þessu lífi, og aðrar tilskipanir sjeu óþarfar; því hvort sem vjer lifum eða deyjum, er Jesús Kristur einn talsmaður vor hjá föðurnum, og hann mun engan frá sjer reka, sem til hans kemur með sanniðrandi og trúuðu hjarta, heldur mun sjerhver, sem með lifandi löngun leitar eptir sameiningu við drottin sinn, eilíflega lifa, þó hann deyi.

Mestur ágreiningur er milli kirknanna um kveldmáltíðarsakramentið. Í því einu kemur þeim báðum saman, að hið sýnilega efni, brauð og vín, sje eptir helgunina meira en eintómt brauð og vín; en í hverjum skilningi og á hvern hátt þetta sje, um það kemur kirkjunum ekki saman. Katólska kirkjan kennir, að jafnskjótt og presturinn helgar brauð og vín í kveldmáltíðinni, verði það óskiljanlega kraptaverk, að hvorttveggja breytist líkamlega í hold og blóð lausnarans þannig, að ekkert sje eptir af eðlilegu efni brauðs og víns, þó hin ytri mynd standi óbreytt[1].

---

[1]) *„Si quis dixerit in sacrosancto evcharistiae sacramento remanere substantiam panis et vini unacum corpore et sanguine domini nostri Jesu Christi, negaveritque mirabilem illam et singularem conversionem totius substantiae panis in corpus, et totius substantiae vini in sanguinem, manentibus duntaxat speciebus panis et vini, quam quidem conversionem catholica ecclesia aptissime transsubstantiationem appellat, anathema sit“. Syn. Trid.*

Þ. e.: Ef einhver segir, að eðli brauðs og víns standi óbreytt í heilögu kveldmáltíðarsakramenti, ásamt holdi og blóði

þessa breytingu hefur katólska kirkjan frá dögum Innócentíusar páfa 3. kallað *„transsubstantiatio“* (eðlisbreyting). Til styrkingar þessum lærdómi grípa katólskir guðfræðingar til ýmissa röksemda, sem þó ekkert sanna það, sem þeir ætlast til. Því þegar þeir vilja byggja þennan lærdóm á innsetningarorðunum sjálfum, þá segja orð lausnarans: „Þetta er minn líkami; þetta er mitt blóð“, hvergi, að eðlilegt efni brauðs og víns skuli gjörsamlega verða að engu, eða þó svo væri, þá skuli mönnum engu að síður verða sú missýning, að sjá með líkamlegum augum eintómt brauð og vín; og þegar katólskir guðfræðingar bera fyrir sig, að guði sje ekkert ómáttugt, en hann geti allt, sem hann vill, og færa þennan sannleika sem ástæðu fyrir breytingarlærdómi sínum, þá er auðsjáanlega þessi ályktun þeirra röng, og hefur engan sönnunarkrapt, því hún sýnir ekki það, sem fyrst og fremst þurfti að sýna, sem er það, að guð hafi viljað breytinguna á þann hátt, sem katólskir hugsa sjer hana. Vanalegast lætur þó katólska kirkjan sjer nægja, að skýrskota til guðlegs myndugleika síns, og býður börnum sínum, að trúa þessum

---

drottins vors Jesú Krists, og neitar þeirri undrunarverðu og aðdáanlegu breytingu, sem verður, að allt eðli brauðs snýst í líkama, og allt eðli víns í blóð, þannig að einungis stendur óbreytt hin ytri mynd, og kallar katólska kirkjan þá breytingu *„transsubstantiatio“* (eðlisbreytingu), eins og vel á við, sá sje bölvaður.

lærdómi, af því kirkjan, það er að skilja: klerkdómurinn á miðöldunum, hefur sett hann[1].

Þessum lærdómi katólsku kirkjunnar, sem kennir, að efni brauðs og víns verði að engu, og breytist á líkamlegan hátt í hold og blóð Krists, neitar prótestantiska kirkjan, og telur hann einbera hjegilju, með því hann á sjer enga fótfestu í heilagri ritningu, eða elztu sögu kirkjunnar, en gjörir sakramenti drottins að töfraverki, og kollvarpar andlegum áhrifum þess[2]. Lúterska kirkjan kennir þar á móti, að eðlilegt efni brauðs og víns verði ekki að engu í altarissakramentinu, heldur sameinist í hinni helgu máltíð líkami og blóð drottins verulega og sannarlega brauði og víni, og veitist í, með og undir (*in, cum, et sub*) hvorutveggja þeim, sem ganga til drott-

[1]) *„Quum credunt sanctam ecclesiam catholicam, necessario sequitur, ut simul credant eam esse, quam explicavimus, hujus sacramenti veritatem“. Cat. Rom.*

þ. e.: þar eð þeir trúa heilagri almennilegri kirkju, þá hljóta þeir sjálfsagt að trúa því um leið, að eðli þessa sakramentis sje í sannleika svo háttað, sem nú höfum vjer skýrt frá.

[2]) *„De transsubstantiatione subtilitatem sophisticam nihil curamus, qua fingunt, panem et vinum relinquere et amittere naturalem suam substantiam, et tantum speciem et colorem panis, et non verum panem remanere“. Art. Smal.*

þ. e.: Hvað eðlisbreytinguna snertir, þá hirðum vjer ekkert um þann hjegiljulærdóm, sem katólskir flytja. að brauð og vín týni náttúrlegu eðli sínu, og að eins standi óbreytt ytri mynd og litur brauðsins, en ekki sannarlegt brauð.

ins borðs, hvort sem þeir eru trúaðir eða vantrúaðir[1]. En sá er munurinn, að þeir síðari, sem ganga óverðugir að borði drottins, vanvirða náðargjöf hans, eta og drekka sjer dóm, svo að hin heilaga máltíð verður þeim ekki til blessunar, heldur til áfellis[2].

Af þessum lærdómi katólsku kirkjunnar um eðlisbreytingu brauðs og víns spretta ýmsir fleiri lærdómar um kveldmáltíðina, sem prótestantiska kirkjan neitar. Þar á meðal er sú kenning, beinlínis afleiðing af breytingarlærdómi katólskra, að hin yfirnáttúrlega breyting brauðs og víns standi eptir helgunina stöðug, bæði fyrir og eptir nautnina, svo að brauð og vín sje ekkert annað en líkami og blóð Krists,

---

1) *„Docent, quod corpus et sanguis Christi vere adsint et distribuantur vescentibus in coena domini“. Conf. Aug.*

Þ. e.: Prótestantar kenna, að líkami og blóð Krists sjeu sannarlega nálæg í máltíð drottins, og úthlutist þeim, sem neyta hennar.

2) *„Pii corpus et sanguinem Christi in certum pignus et confirmationem accipiunt, quod peccata ipsis certo sint remissa, et quod Christus in ipsis habitet, atque efficax esse velit; impii vero idem corpus et eundem sanguinem etiam ore suo, sed ad judicium et damnationem sumunt“. Form. conc.*

Þ. e.: Trúaðir neyta líkama og blóðs Krists til fullvissu og staðfestingar um, að syndirnar sjeu þeim vissulega fyrirgefnar, og að Kristur búi í þeim, og vilji vera í þeim kröptugur; vantrúaðir veita sömuleiðis móttöku hinum sama líkama og sama blóði með munni sínum, en sjer til dóms og áfellis.

hvort sem sakramentinu er úthlutað eða ekki[1]. Samkvæmt því einskorðar katólska kirkjan yfirnáttúrlegar verkanir sakramentisins ekki við nautnina, heldur kennir hún, að hinn guðdómlegi kraptur sje bundinn við og inniluktur í hinu helgaða efni sjálfu. Af þessum lærdómi er sá siður kirkjunnar sprottinn, að helga brauð og vín, þó hvorugt sje ætlað til úthlutunar, geyma síðan líkama og blóð Krists vandlega, og ganga með hvorttveggja í hátíðlegum prósessíum. Mikil hjátrú hefur jafnan verið samfara þessum sið í katólsku kirkjunni, því opt hafa menn þar brúkað líkama og blóð Krists eins og töframeðal, til að af stýra drepsóttum, eldsvoða, eða öðrum ytri háska. Enn fremur er það í alla staði samkvæmt lærdómi katólsku kirkjunnar, að hún fyrir skipar, að veita altarissakramentinu guðlega tilbeiðslu, því eptir kenningu

---

1) *„Si quis dixerit, peracta consecratione, in admirabili evcharistiae sacramento non esse corpus et sanguinem domini nostri Jesu Christi, sed tantum in usu, dum sumitur, non autem ante vel post, et in hostiis vel particulis consecratis, quae post communionem reservantur, vel supersunt, non remanere verum corpus domini, anathema sit". Syn. Trid.*

þ. e.: Ef einhver segir, að í heilögu kveldmáltíðarsakramenti sje ekki líkami og blóð drottins vors Jesú Krists, jafnskjótt að aflokinni helgun, heldur að eins í nautninni, meðan því er úthlutað, en ekki fyrir eða eptir nautnina, og að ekki við haldist óbreyttur líkami drottins í fórnunum, eða hinu helgaða efni, sem lagt er til geymslu eða afgangs verður, sá veri bölvaður.

katólskra er brauð og vín að engu orðið, og hið sýnilega efni er ekkert annað en drottinn sjálfur líkamlega nálægur, sem eins á tilbeiðslu skilið af mönnum, eins og þegar hann var hjer á jörðu í líkamans lífi[1]. Þess vegna fyrirskipar katólska kirkjan öllum kristnum knjefall, jafnskjótt og presturinn, að aflokinni helgun brauðs og víns, hefur upp sakramentið frá altarinu söfnuðinum til sýnis, og er þá um leið vísbending gefin með altarisbjöllunni um, að allir skuli falla fram til dýrkunar; hver, sem gengur fram hjá altari, þar sem stendur á líkami og blóð Krists, sýnir sömuleiðis lotningu hinu helga efni með knjefalli, og sje sakramentið borið sjúkum manni, er öllum, sem heyrt geta, gefin um það vísbending með bjöllu-

---

[1]) „*Si quis dixerit in sancto evcharistiae sacramento Christum unigenitum dei filium non esse cultu latriae etiam externo adorandum, atque ideo nec festiva peculiari celebritate venerandum, neque in processionibus, secundum laudabilem et universalem ecclesiae sanctae ritum et consvetudinem solenniter circumgestandum, vel non publice, ut adoretur, populo proponendum, et ejus adoratores esse idololatras, anathema sit*“. *Syn. Trid.*

Þ. e.: Ef einhver segir, að í heilögu altarissakramenti eigi ekki að veita Kristi, eingetnum syni guðs, ytri guðlega tilbeiðslu, og þess vegna hvorki tigna hann með sjerlegri hátíðlegri viðhöfn, nje bera hann í hátíðlegum prósessíum eptir algengum og loflegum sið og venju heilagrar kirkju, og ekki eigi að bera hann opinberlega fram almenningi til sýnis, til þess að menn veiti honum tilbeiðslu, og að dýrkendur hans sjeu skurðgoðadýrkendur, sá veri bölvaður.

hljómi; allir hætta þá á svipstundu vinnu sinni, og ferðamenn, sem verða á vegi, þar sem sakramentið er borið, stíga af hestbaki eða úr vagni sínum, til að falla á knje, og veita guðlega lotningu líkama og blóði drottins. Mest viðhöfn og virðing er sýnd sakramentinu á líkamahátíð Krists (*festum corporis Christi*), sem sett var 1264 af Úrbanusi páfa 4. sjerstaklega til dýrkunar líkama Krists. Þessi hátíð er haldin í katólsku kirkjunni með hinni mestu viðhöfn; þá er líkami Krists borinn í hátíðlegri prósessíu um stræti borganna, svo almenningur geti sýnt honum guðlega lotningu, og taka konungar í katólskum löndum með hirð sinni þátt í þessari hátíð.

Prótestantiska kirkjan neitar þessum lærdómi katólsku kirkjunnar, sem eignar helgun prestsins töfraverkanir og töfravald, til þess að innilykja líkama drottins í jarðnesku efni, eins og hvern annan sýnilegan hlut, því þessi kenning hefur enga fótfestu í heilagri ritningu. Lúterska kirkjan kennir þar á móti, eins og áður er sagt, að líkami og blóð drottins sameinist hinu sýnilega efni á leyndardómsfullan hátt, án þess þó að það verði að engu, og að þessi yfirnáttúrlega sameining eigi sjer stað einungis þar, sem sakramentinu er rjett þjónað eptir innsetningu Krists sjálfs, eða með öðrum orðum: þegar helgun brauðs og víns er samfara úthlutun og nautn hvorstveggja[1].

---

[1]) „*Quanquam negant fieri transsubstantiationem, nec sentiunt fieri localem inclusionem in pane, aut durabilem aliquam conjunctionem extra usum sacramenti, tamen concedunt sacramentali unione panem*

Samkvæmt því kennir prótestantiska kirkjan þess vegna, að hin rjetta þjónusta altarissakramentisins innibindi í sjer 3 atriði: helgunina *(consecratio)*, úthlutunina *(distributio)*, og nautnina *(sumptio)*. Þessi 3 atriði eru beinlínis tilskipun drottins sjálfs, og þau innibinda í sjer öll samtals fullkomlega kveldmáltíð drottins. Ekkert þeirra má því að greina, en vanti eitthvert, þá er altarissakramentið afbakað, og því ekki veitt rjett þjónusta samkvæmt tilskipun drottins. Prótestantiska kirkjan neitar allri þjónustu kveldmáltíðarinnar, sem nautn ekki er samfara; þess vegna neitar hún siðvenju katólsku kirkjunnar, að leggja til geymslu hið helgaða brauð, án þess því sje úthlutað til nautnar, eða bera það um í prósessíum, og fram bera til dýrkunar, og kallar þá siðvenju með fullum rjetti afbökun sakramentisins, af því hún enga fót-

---

*esse corpus Christi, hoc est: porrecto pane, sentiunt, simul adesse et vere exhiberi corpus Christi. Nam extra usum, dum reponitur, aut asservatur in pyxide, aut ostenditur in processionibus, ut fit apud Papistas, sentiunt non adesse corpus Christi". Form. conc.*

Þ. e.: Þó þeir (ɔ: Lúterskir) neiti, að eðlisbreyting verði, og álíti, að ekki eigi sjer stað líkamleg innilukning í brauðinu, eða varanleg sameining fyrir utan nautn sakramentisins, þá játa þeir samt, að brauðið í einingu sakramentisins sje líkami Krists; það er: þeir álíta, að líkami Krists sje nálægur í hinu úthlutaða brauði, og í sannleika framboðinn með því; því ekki ætla þeir, að Krists líkami sje nálægur án nautnarinnar, ef brauðið er lagt til geymslu, í bakstursbauknum, eða sýnt í prósessíum, eins og vandi er hjá páfamönnum.

festu á sjer í tilskipun Krists, en er beint á móti henni[1]. Prótestantiska kirkjan játar, að kveldmáltíð drottins sje, eins og skírnin, hið helgasta og háleitasta í kristilegri guðsþjónustu, því hvortveggja er sakramenti hans; hún ber því dýpstu lotningu fyrir hinni heilögu þjónustu, og telur það vott vantrúaðs og vanheilags hugarfars, að kunna ekki að að greina líkama og blóð drottins frá annari fæðu. En engu síður neitar hún algjörlega lærdómi katólskra, að sýna eigi guðlega dýrkun hinu sýnilega efni í altarissakramentinu; því, eins og áður er sagt, neitar prótestantiska kirkjan breytingarlærdómi katólsku kirkjunnar, og kennir, að brauð og vín haldi í sakramentinu sínu náttúrlega eðli í sameiningu við líkama og blóð drottins. Samkvæmt lærdómi prótestanta getur því ekki átt sjer stað sá siður, að veita hinu líkamlega efni í sakramentinu guðlega dýrkun, því það væri að tigna skepnuna í staðinn fyrir skaparann. Dýrkun prótestantisku kirkjunnar í nautn heilagrar kveldmáltíðar stefnir ekki að hinu sýnilega líkamlega efni, held-

---

[1]) „*Ad externam actionem requiritur consecratio, distributio et sumptio. Et quum extra hunc usum panis in missa pontificia non distribuitur, sed vel offertur, vel includitur, vel circumgestatur, aut adorandus proponitur, non est ille pro sacramento agnoscendus*“. *Form. conc.*

Þ. e: Til ytri þjónustu útheimtist helgun, úthlutun og nautn. En þar eð brauðinu ekki er úthlutað í messu páfamanna, heldur annaðhvort borið fram til fórnar, eða lagt til geymslu, eða borið um, eða sett fram til dýrkunar, þá geta menn ekki játað, að það sje sakramenti.

ur að lausnaranum, sem ósýnilega er nálægur í hinni heilögu athöfn, og hún lýsir sjer ekki, eins og hjá katólskum í margbreytilegri ytri þjónustu og sýnilegri viðhöfn, heldur í innri ósýnilegri andakt hjartans, í kyrrlátri þjónustu hins innra manns, sem lyptir hjarta sínu og hugskoti með bœn og þakkargjörð, með auðmýkt og trúnaðartrausti til frelsisins uppsprettu, guðs, föður allrar miskunar, og til drottins vors, sem elskaði oss, og gaf sig sjálfan út fyrir oss[1].

Katólska kirkjan skipar öllum, sem komnir eru til vits og ára, konum sem körlum, að neyta altarissakramentisins að minnsta kosti einu sinni á ári um páska (*saltem paschate*). Kirkjufundurinn í Tríent byggir þessa tilskipun sína á áliti heilagrar kirkju, og hefur með því fyrir augum ákvörðun Innócentíusar 3., sem gjörði þennan sið að kirkjulögum á fundi í Rómaborg 1215. Prótestantiska kirkjan fyrirskip-

[1]) *„Rejicimus errorem, quum docent, elementa illa, seu visibiles species benedicti panis et vini adorari oportere. Quod autem Christus ipse, verus deus et homo, qui in coena sua, in legitimo nimirum ejus usu, vere et substantialiter praesens est, in spiritu et in veritate adorari debeat, id nemo nisi haereticus negaverit". Form. conc.*

þ. e.: Vjer höfnum þeirri villu, þegar þeir (nl. katólskir) kenna, að hið líkamlega efni, eða hin sýnilega mynd hins helgaða brauðs og víns, eigi að hljóta guðlega tilbeiðslu. En því mun enginn neita, nema villutrúarmenn, að Krist sjálfan eigi að tilbiðja í anda og sannleika, sannan guð og mann, sem sannarlega og verulega er nálægur í máltíð sinni, það er að skilja: í rjettilegri þjónustu hennar.

ar enga fasta reglu í þessu tilliti; því í orðum Krists, Lúk. 22, 19., 20., og postulans, 1. Kor. 11, 25.: „í hvert sinni, sem þjer það etið og drekkið“, er engin föst regla sett, hve opt menn skuli neyta máltíðar drottins, og enginn viss dagur ákveðinn til nautnarinnar; auk þess álítur prótestantiska kirkjan, að þessi tilskipun katólskra geti, ef til vill, orðið fremur til þess, að aptra mönnum frá, heldur en hvetja þá til, að ganga til guðsborðs. Prótestantiska kirkjan kennir, að kristinn maður eigi ekki að þurfa fyrirskipaðar reglur og kirkjulög, til þess að ganga til máltíðar drottins, heldur eigi hann að gjöra það af innri hvöt andans, eins opt og hann finnur hjá sjer sanna andlega löngun til að leita sjer styrks og huggunar í hinni heilögu kveldmáltíð. Prótestantiska kirkjan fyrirskipar því enga vissa daga fyrir altarisgöngu manna; því trú og guðrækni festa ekki rætur í hjörtunum með kirkjulegri harðstjórn eða ytri kúgunarmeðulum, heldur með sannfærandi krapti guðsorða[1].

Katólska kirkjan hefur enn fremur sett þau kirkjulög samkvæmt ákvörðunum kirkjufundanna í Cost-

---

[1]) *„Quare qui cupit Christi discipulus esse, huic curae sit, ut haec verba sibi cordi sint, non quidem ex coactione, velut impulso ab hominibus, verum ut Christo domino obsequatur et obediat“. Cat. major.*

þ. e.: Hver, sem girnist að vera lærisveinn Krists, láti sjer annt um, að hafa þessi orð sjer í hjarta, ekki af nauðung, eins og væri hann tilknúður af mönnum, heldur til þess, að hlýðnast og láta að vilja Krists drottins síns.

nitz og Basel, sem kirkjufundurinn í Tríent staðfesti, að í altarisgöngunni skuli ekki úthluta nema brauðinu einu öllum leikmönnum og klerkum, nema þeim presti, sem þjónustuna veitir, og segir kirkjan, að þessi þjónusta sakramentisins í einni tegund *(sub una specie)* sje nægileg. Að vísu neitar katólska kirkjan engan veginn, að úthlutun hvorstveggja, brauðs og víns, sje samkvæm heilagri ritningu; hún játar, að Kristur hafi, eins og guðspjöllin skýra frá, út býtt hvorutveggja, og að fornkirkjan hafi almennt fylgt þeim sið. En engu síður kennir hún, að kirkjan af myndugleika sínum hafi vald til, að einskorða, í hverri lögun sakramentinu sje þjónað, og að hún af gildum ástæðum *(justis causis)* hafi fyrirskipað útbýtingu brauðsins eins í altarisgöngunni, en þó tilfærir katólska kirkjan hvergi þessar „gildu ástæður“[1]. Yfir höfuð byggir katólska kirkjan þessa aðferð sína á myndugleika kirkjunnar, og skýrskotar í því tilliti til fornrar kirkjuvenju, þó þessi siður yrði ekki að almennri reglu, fyr en á 15. öld; því kirkjufundurinn

---

[1]) *„Si quis dixerit, sanctam ecclesiam catholicam non justis causis adductam fuisse, ut laicos atque etiam clericos non conficientes sub panis tantummodo specie communicaret, aut in eo errasse, anathema sit“. Syn. Trid.*

þ. e.: Ef einhver segir, að heilagri almennilegri kirkju hafi ekki gengið til þess gildar ástæður, að hún út býtir brauðinu einu í altarisgöngunni öllum leikmönnum, og sömuleiðis klerkum þeim, sem ekki veita þjónustu sakramentinu, eða að hún hafi villzt í því, sá sje bölvaður.

í Costnitz 1415 gjörði fyrst að trúarlærdómi og kirkjulögum undandrátt kaleiksins í altarissakramentinu, og fyrirbauð klerkum kirkjunnar, að úthluta nokkrum leikmanni í máltíð drottins nema brauðinu einu, og hótaði bannfœringu að öðrum kosti. Kirkjufundurinn í Costnitz dró ekki dulur á klerkavaldsandann, sem rjeð fyrir í þessari aðferð; því hann lýsti því, að reyndar hefði Kristur innsett sakramentið í báðum tegundum, og út býtt bæði brauði og víni, og að fornkirkjan hefði fylgt þessum sið Krists; en þrátt fyrir það (*hoc non obstante*) skuli þó deila brauðinu einu öllum leikmönnum í altarisgöngunni; og upp frá þeim tíma hefur kirkjan barizt fyrir þessum lærdómi sínum og sið með öllum vopnum. Katólska kirkjan kennir, að þó ekki sje út býtt nema öðrum hluta sakramentisins, sje sú þjónusta engu síður fullkomið sakramenti Krists, og hver, sem neyti brauðsins eins, verði jafnmikils aðnjótandi, sem honum væri deilt hvorutveggja, brauði og víni. Þennan lærdóm byggir katólska kirkjan á hjegiljulegum heilaspuna, sem guðfrœðingar á miðöldunum settu saman um óaðgreinanlega samfylgd (*concomitantia*) líkama og blóðs Krists í altarissakramentinu. Þessir guðfrœðingar kenndu, að Kristur væri allur með sál og líkama í hvorum hluta sakramentisins fyrir sig, eins brauði sem víni, svo að sjerhverjum manni, sem til altaris gengi, veittist Kristur heill og óskertur (*totus et integer*), hvort sem honum væri út hlutað mikið eða lítið, hvort sem hann neytti brauðsins eins, eða bergði víninu einu, eða neytti hvorstveggja, brauðs

og víns. Þennan lærdóm samþykkti kirkjufundurinn í Tríent, og hefur gjört hann að kirkjulærdómi[1]. Fastheldni katólsku kirkjunnar við úthlutun brauðsins eins í altarissakramentinu er þá auðsjáanlega ekki af því, að hún álíti útbýtingu hvorstveggja rangan sið eða heimildarlausan. Katólska kirkjan álítur þjónustu kveldmáltíðarinnar í báðum myndum engan veginn villusetningu; hún fyrirdæmir að eins þá kenningu, sem segir, að ekki sje önnur þjónusta sakramentisins rjett, heldur en sú, sem úthlutar bæði brauði og víni, og hún meinar leikmönnum bergingu vínsins í sakramentinu, einungis fyrir þá sök, að hún sjálf hefur sett þau lög, að þeir skuli neyta brauðsins eins, og heimtar, að öll börn sín hlýði skilyrðislaust þeirri skipun, sem hin heilaga móðir, kirkjan, hefur sett af myndugleika sínum á 3 aðalkirkjufundum: í Costnitz, Basel og Tríent. Þannig ræður fyrir í þessu efni hinn sami klerkavaldsandi hjá katólsku kirkjunni, sem drottnandi er í annari aðferð hennar. Katólska kirkjan lítur ekki á það, hvort setningar hennar eru samkvæmar

---

[1]) *„Si quis negaverit, totum et integrum Christum sub una panis specie sumi, quia ut quidam falso asserunt, non secundum ipsius Christi constitutionem sub utraque specie sumatur, anathema sit“. Syn. Trid.*

Þ. e.: Ef einhver neitar því, að Kristur veitist heill og óskertur í brauðinu einu, fyrir þá sök að sakramentisins sje ekki neytt eptir tilskipun sjálfs Krists í báðum myndum, eins og sumir ranglega fullyrða, sá sje bölvaður.

guðsorði í heilagri ritningu eða ekki; hún hirðir alls ekkert um, þó þær sjeu þvert á móti tilskipunum Krists sjálfs; hún fer einungis því þráðbeint fram, sem hún sjálf hefur skipað, og bannfærir sem guðleysu hvers konar efa um myndugleika kirkjunnar og óhlýðni við tilskipanir kirkjulegs valds[1]. Af þessum ástæðum reis katólska kirkjan með alefli á miðöldunum móti hinum evangelisku flokkum, valdensum og hússítum, sem sögðu, að þjónusta kirkjunnar í einni mynd væri á móti tilskipun Krists, og átöldu katólsku kirkjuna harðlega fyrir afbökun á tilskipun drottins sjálfs, og heimtuðu úthlutun vínsins í sakramentinu. Því kirkjunni þótti þessi kenning ganga sjer of nærri, og hún áleit hana ósvífna árás á móðurvald heilagrar kirkju, sem eignar sjer myndugleika til, að setja lærdóma og lög eptir velþóknun. Aptur á móti hefur katólska kirkjan stundum leyft úthlutun vínsins í kveldmáltíðinni ásamt brauðinu þeim mönnum, sem í hógværð og auðsveipni hafa sótt um það leyfis hjá kirkjunni, þegar þeir jafnframt hafa verið

---

1) *„Sancta mater ecclesia hanc consuetudinem sub altera specie communicandi approbavit, et pro lege habendam decrevit; quam reprobare, aut sine ipsius ecclesiae auctoritate pro libito mutare non licet". Syn. Trid.*

þ. e.: Heilög móðir, kirkjan, hefur samþykkt þessa venju, að úthluta sakramentinu í einni mynd, og ákveðið, að sá siður skuli vera lög; því er engum leyfilegt, að finna að þessari siðvenju, eða breyta henni án myndugleika sjálfrar kirkjunnar, eptir eigin velþóknun.

fúsir á að játa, að úthlutun brauðsins eins væri fullgild þjónusta sakramentisins. Þannig hafa kristnir söfnuðir í austurlöndum, sem játa yfirstjórn rómversku kirkjunnar, það einkaleyfi, að mega neyta bæði brauðs og víns í altarisgöngunni. Kirkjufundurinn í Basel veitti þessi sömu rjettindi hússítunum, og Frakklandskonungum hefur páfinn veitt það einkaleyfi, að neyta sakramentisins í báðum tegundum einu sinni á æfi þeirra, þegar þeir eru krýndir.

Þessum sið katólsku kirkjunnar, undandrætti kaleiksins í altarissakramentinu, mótmælir prótestantiska kirkjan fastlega, og telur hann með fullum rjetti afbökun sakramentisins og ósvífna árás á tilskipun Krists sjálfs; því þessi tilskipun katólsku kirkjunnar er á móti berum innsetningarorðum drottins sjálfs, og þvert á móti siðvenju fornkirkjunnar frá dögum postulanna allt fram að 12. öld. Því það verður sannað með gildum rökum sögunnar, að fornkirkjan allt fram á miðöld hefur gætt vandlega þjónustu kveldmáltíðarinnar í þeirri lögun, sem Kristur innsetti hana. Það eru til úrskurðir margra rómverskra biskupa, eptir Leó mikla, † 460, Gelasíus 1., síðast á 5. öld, Úrbanus 2., † 1099, og Pascalis 2., †1118, og sömuleiðis ákvarðanir margra kirkjufunda á Spáni, Frakklandi og Englandi, sem dæma það villulærdóm og afbökun sakramentisins, að draga kaleikinn undan í altarisgöngunni. Því þó fáein dæmi verði tilfærð frá fornkirkjunni, að sakramentisins hafi verið neytt í einni tegund, t. a. m. í ofsóknum, eða þegar sjúkum mönnum var úthlutað brauðinu einu, dýfðu

í vínið *(evcharistia intincta)*, eða þegar menn tóku heim með sjer hið helgaða brauð, til að neyta þess í heimahúsum, eins og Tertúllíanus getur um, þá eru þessi dœmi einungis undantekning, en engin almenn regla, sem kirkjan fylgdi, og þess vegna sanna þau alls ekki það, sem katólskir vilja. Prótestantiska kirkjan kennir því, að ekkert vald á jörðu, hvorki kirkjulegt vald, nje nokkurt annað, hafi heimild til þess, að kollvarpa tilskipun drottins sjálfs, sem hann með skýrum orðum hefur fyrirskipað. Því þó hugsazt geti, að manninum veitist jafnmikið í öðrum hluta sakramentisins sem báðum, þá er úthlutun brauðsins eins ekki samkvæm tilskipun drottins, en beint á móti þeirri reglu, sem hann hefur fyrirskrifað kirkju sinni, og því verða hvers konar afbrigði frá tilskipun Krists, sem ekki geta samþýðzt innsetningu drottins, að álítast kollvörpun sakramentisins, svo að engin þjónusta kveldmáltíðarinnar, sem ósamþýðanleg er innsetningarorðum Krists, getur talizt sakramenti[1]. En þó prótestantiska kirkjan mótmæli öllum afbrigð-

---

[1]) *„Non tantum unam speciem esse dandam sentimus. Etsi enim verum esse forte possit, quod sub una tantum sit, quantum sub utraque, tamen una species non est tota ordinatio et institutio per Christum facta, tradita et mandata“. Art. Smal.*

þ. e.: Ekki álítum vjer, að út býta eigi að eins öðrum hluta sakramentisins. Því þó það, ef til vill, geti verið satt, að jafnmikið sje í öðrum hlutanum sem báðum, þá innibindur annar hlutinn ekki alla tilskipun og innsetningu Krists, sem hann tilsetti, kenndi og bauð.

um frá tilskipun Krists, þá telur hún þó miklu vítaverðari þær ástæður og rök, sem stjórna katólsku kirkjunni í þessari aðferð; hún leggur þyngstan áfellisdóm á katólsku kirkjuna fyrir hið taumlausa sjálfræði hennar, að hún hrífur sjer myndugleika til að breyta og ónýta tilskipun Krists sjálfs, og svífist ekki, að leggja bannfæringu yfir aðra fyrir það, að þeir vilja fylgja tilskipun drottins, sem hann með skýrum orðum hefur boðið í orði sínu, og setur sig með því ekki einungis á móti Kristi, heldur upp yfir hann[1]. Þannig er auðsjeð, að ágreiningurinn í þessu efni milli kirknanna stendur ekki einn sjer, heldur hefur hann rætur sínar í grundvallarágreiningnum milli beggja, í lærdóminum um eðli og vald kirkjunnar. Katólska kirkjan, sem samkvæmt klerkavaldsstefnu sinni eignar sjer guðlegan myndugleika, og álítur sig sannleikans uppsprettu, þykist eiga sjálfsagt æðsta dómsvald í öllum trúarefnum, án þess

[1]) *„Imprimis vero damnamus et execramur in nomine domini omnes eos, qui non tantum utramque speciem omittunt, verum etiam tyrannice eam prohibent, damnant et blasphemant, ut haeresin, et ita se ipsos supra et contra Christum, dominum et deum nostrum, extollunt, opponentes et praeponentes se Christo“. Art. Smal.*

þ. e.: En einkanlega fyrirdæmum vjer og bannfærum í nafni drottins alla þá, sem ekki að eins vanrækja úthlutun sakramentisins í báðum myndum, heldur einnig banna hana með harðstjórn, dæma hana villulærdóm, og mæla gegn henni lastyrði, og hefja sjálfa sig þannig upp yfir og móti Kristi, drottni vorum og guði.

nokkur megi móti mæla. Prótestantiska kirkjan þar á móti, sem í trúar- og sáluhjálpar-málefnum mótmælir öllu mannlegu dómsvaldi, og viðurkennir engan æðsta dómara annan en Krist og hans orð, álítur sig bundna við tilskipanir drottins, sem hann í orði sínu hefur fyrirskrifað kirkju sinni.

Katólska kirkjan kennir, að kveldmáltíðin sje ekki einungis sakramenti, heldur og fórn og fórnarþjónusta (*sacrificium*). Þó katólska kirkjan að greini hvorttveggja, kveldmáltíðina sem sakramenti og sem fórn, þá er þó þessi fórnarlærdómur beinlínis ávöxtur af breytingarlærdómi kirkjunnar; því samkvæmt honum á hin yfirnáttúrlega breyting að verða jafnskjótt og helgunin fer fram; frá þeirri sömu stundu, sem presturinn helgar brauðið og vínið, eiga hinar yfirnáttúrlegu og leyndardómsfullu verkanir að innilykjast í og verða óaðgreinanlegar frá hinu sýnilega efni. Þar af leiðir þá, að þessar verkanir eru, samkvæmt lærdómi katólskra, ekki bundnar við úthlutun og nautn sakramentisins, en geta sýnt áhrif sín jafnvel dásamlegar á annan hátt, og það á einkanlega að lýsa sjer, þegar þessi helga athöfn kemur fram sem fórnarþjónusta í heilagri messu. Samkvæmt því kennir þá katólska kirkjan, að hin dýrðlegasta og dásamlegasta þýðing kveldmáltíðarinnar sje sú, að hún sje ítrekun fórnarþjónustu Krists, þegar hann fram bar sjálfan sig guði sem blóðuga fórn á krossinum. Því (þessi er lærdómur katólsku kirkjunnar) þegar Kristur innsetti heilaga kveldmáltíð, þjónaði hann sem fórnarprestur, hann bar hold sitt og blóð, eða

sjálfan sig, fram guði sem friðþægingarfórn í líkingu brauðs og víns, og kom með því fram bæði sem prestur og fórn. En um leið stofnaði hann hið kristilega prestsembætti, og tilskipaði þá jafnframt í kirkju sinni ævarandi fórnarþjónustu; því með orðunum: „Gjörið það í mína minningu“, bauð Kristur postulunum og klerkdóminum, eptirmönnum þeirra, að endurnýja og halda á fram um aldur og æfi þessari fórnarþjónustu. Sjerhver prestur, sem í heilagri messu helgar brauð og vín, kemur þá fram í Krists nafni og í hans stað, og fram ber guði Krists eiginn líkama og blóð, sem friðþægingarfórn til að afplána syndir manna; því þá sömu fórn, sem Kristur fram bar þá nótt, sem hann innsetti heilaga kveldmáltíð, og þá sömu fórn, sem hann fram bar blóðuga á krossinum, þessa sömu fórn fram ber presturinn í messunni óblóðuga (*sacrificium incruentum*). Samkvæmt þessum lærdómi katólsku kirkjunnar er þá messufórnin ekki í andlegum skilningi þakklætis- eða endurminningar-fórn, heldur sýnileg, líkamleg fórn, sem ítrekar og endurnýjar stöðuglega hina blóðugu fórn Krists á krossinum til friðþægingar fyrir syndir manna, bæði lifandi og framliðinna[1]. Eptir þessu eignar kirkjan messu-

[1]) *„Si quis dixerit, missae sacrificium esse nudam commemorationem sacrificii in cruce peracti, non autem propitiatorium, vel soli prodesse sumenti, neque pro vivis et defunctis offerri debere, anathema sit“. Syn. Trid.*

þ. e.: Ef einhver segir, að messufórnin sje eintóm endurminning fórnarinnar, sem fram borin var á krossinum, en ekki

fórn sinni sama gildi og endurlausnarkrapt, sem fórn Krists á krossinum, og í því skyni kennir hún með berum orðum, að hinn sami Kristur, sem fórnfœrði sjer á krossinum, sje í messufórninni fram borinn af prestinum til friðþægingar fyrir syndir lifandi og dauðra; einungis sje hin ytri aðferð frábrugðin að því leyti, sem messufórnin er óblóðug, þar sem hin var blóðug. Þetta leiðir beinlínis af breytingarlærdómi katólsku kirkjunnar; hann er auðsjáanlega fóturinn undir fórnarlærdómi hennar. Einmitt af því hún kennir, að hið helgaða efni sje ekki brauð og vín, heldur einungis líkami og blóð Krists, kennir hún líka, að messufórn hennar sje ekki í andlegum eða óeiginlegum skilningi þakkarfórn, heldur í sannleika sýnileg og líkamleg fórnarþjónusta, sem í öllu tilliti hafi sama gildi og krapt, og gangi jafnhliða fórninni á krossinum. Samkvæmt því segir katólska kirkjan, að á sama hátt sem Kristur friðþægði með dauða sínum fyrir syndir vorar, og sætti oss við guð, á sama hátt afreki messufórnin daglega friðþæginguna fyrir syndir manna og afbrot, og fullnœgi guðlegu rjettlæti[1]. Og þar eð katólska kirkjan enn fremur kennir, að messufórnin hafi krapt sinn og gildi, þó

friðþægingarfórn, eða að hún gagni einungis þeim, sem neytir hennar, en ekki eigi að bera hana fram til fórnar fyrir lifendur og framliðna, sá sje bölvaður.

[1]) *„Sacrificium missae non merendi solum, sed etiam satisfaciendi efficientiam continet. Nam uti Christus in passione sua pro nobis meruit et satisfecit, sic qui hoc sacrificium offerunt, quo nobis*

ekki sje henni samfara nautn, og þeir sjeu ekki viðstaddir eða eigi nokkurn þátt í henni, sem njóta eiga góðs af henni, en að sú messa, sem presturinn syngur einn, án þess nokkur sje viðstaddur (*missae privatae*), hafi sama friðþægjandi krapt, nái eins til lifandi, hvort sem þeir eru viðstaddir eða ekki, sem framliðinna, þá eignar hún með því hinni ytri athöfn og þjónustu sjálfri friðþægingarkrapt, bindur áhrifin og verkanirnar við hina sýnilegu ytri athöfn, og eignar þjónustu og fórn prestsins töfraverkanir, sem af verkinu sjálfu (*ex opere operato*) hafi óumflýjanlega þau áhrif, sem til er ætlazt, að afmá syndirnar og fullnægja guðlegu rjettlæti. Þannig verður katólska kirkjan stöðug friðþægingarstofnun, sem með daglegri fórnfæringarþjónustu sinni afrekar fyrirgefningu syndanna. Í lærdóminum um messufórnina kemur klerkavaldslærdómur katólskunnar fram í fullkomnustu mynd og á efsta stigi. Því með fórnarlærdómi sínum gjörir katólska kirkjan sig að ótakmörkuðum ráðsmanni yfir guðs náð, og kennir, að enginn geti orðið hennar aðnjótandi, nema sá, sem snýr sjer til hins katólska klerkdóms, að enginn geti komið til guðs nema gegn-

---

*communicant dominicae passionis fructum, merentur et satisfaciunt“. Cat. Rom.*

Þ. e.: Messufórnin innibindur í sjer krapt, ekki einungis til verðskuldunar, heldur og til fullnaðargjörðar. Því eins og Kristur með pínu sinni ávann verðung og fullnaðargjörð í vorn stað, eins afreka þeir verðskuldun og fullnaðargjörð, sem fram bera þessa fórn, og gjöra oss með henni hluttakandi í blessun drottinlegrar pínu.

um hinn katólska klerkdóm, sem í messufórninni gjörir sig að friðþægjara og meðalgangara milli guðs og manna. Samkvæmt lærdómi katólsku kirkjunnar um messufórnina getur enginn kristinn maður sjálfur beinlínis átt aðgang til guðs eða Krists, heldur er aðgangurinn að guðs náð bundinn við hina kirkjulegu fórnargjörð, við fórnina, sem þjónar kirkjunnar fram bera. Þessi lærdómur er þannig hið kœnasta bragð klerkavaldsins, til að koma fram harðstjórn sinni, til að geta bundið kristna menn andlegu ófrelsi, og hneppt samvizku þeirra undir kirkjulegt þrældómsok. Þess vegna er það skiljanlegt, að þessi þjónusta, messufórnin, verði aðalatriðið í hinni katólsku guðsþjónustu, með því hið kirkjulega klerkavald lýsir sjer í allri dýrð sinni í þessari athöfn. Upphaflega var messan (*missa*) í kirkjunni sannkristileg guðsþjónusta. Hin kristilega skoðun á sakramentinu var þá drottnandi; söfnuðirnir neyttu kveldmáltíðar drottins samkvæmt hans eigin tilskipun. En frá byrjun 7. aldar breyttist þetta. Lærdómurinn um fórn tók að ryðja sjer til rúms, og bola út lærdóminn um hina helgu athöfn sem sakramenti drottins. Menn fóru að skoða þessa þjónustu sem fórnargjörð prestsins, eptir því sem álit klerkavaldsins fór svo óðum vaxandi. Með þessu móti varð frá dögum Gregoríusar páfa mikla, † 604, þessi helga athöfn að fórnarþjónustu, sem aðgreind var frá úthlutun kveldmáltíðarinnar, og þannig er orðin til hin katólska messa, eins og hún nú tíðkast í katólsku kirkjunni. Frá þeim tíma varð það þá almennur siður, að messu-

þjónustan fór fram, án þess söfnuðurinn væri viðstaddur (*missae privatae*), og því algengari varð þessi siður, sem sú trú fór að festast í kirkjunni, að messufórnin gagnaði eins þeim, sem ekki neyttu máltíðar drottins, og hana mætti eins fram bera fyrir þá, sem fjærstaddir væru. Þessi kenning var síðan sett í samband við lærdóminn um hreinsunareldinn, og skapaðist úr því sá lærdómur, að messufórnin snerti ekki að eins lifandi menn, heldur megnaði hún að losa framliðna úr kvölum hreinsunareldsins. Af þessu kom upp sá siður, að syngja messur fyrir framliðnum (hinar svo nefndu sálnamessur). Þessi messusöngur varð tíðari, eptir því sem fram liðu stundir. Á miðöldunum voru messur fluttar fyrir öllu, sem nafni tjáir að nefna, og hin ógurlegasta hjátrú varð, eins og eðlilegt var, ávöxturinn af þessum lærdómi. Því þar eð menn eignuðu fórnargjörð prestsins friðþægingarkrapt, og sjálfsagt framkvæmdarvald hjá guði, gjörðu menn sjer von um, að geta með fórn sinni knúð drottin til að veita bænheyrslu alls konar óskum. Af þessum rökum voru messur sungnar í alls konar skyni, til frelsis framliðnum úr kvölum hreinsunareldsins, til þess að af stýra slysum og óhöppum, fyrir sálum villutrúarmanna og vantrúaðra, fyrir sjúkum, eða fyrir þeim, sem í einhverjum háska voru staddir, o. s. frv.; og því tíðari sem þessi messusöngur varð, því fremur varð hann klerkum kirkjunnar að óþrjótandi auðœfa-uppsprettu, en um leið að hættulegu freistingarefni, til þess að ala og auka hjátrú alþýðunnar á töfravaldi messufórnarinn-

ar. Kirkjufundurinn í Tríent hefur að vísu harðlega bannað öllum klerkum messusöng í ábataskyni. En þetta bann er í rauninni þýðingarlaust, og getur alls ekki leyst katólsku kirkjuna undan þeim ábyrgðarhluta, sem hún með því ætlar að koma af sjer; því þar eð kirkjan í trúarsetningum sínum kennir opinberlega, að menn geti keypt sjer syndafyrirgefningu, með því að borga prestinum messusöng fyrir sálu sinni, þá hefur hún auðsjáanlega um leið staðfest hina hættulegustu hjátrú, gefið tilefni til hneykslanlegrar messuverzlunar, og freistað klerka sinna, að líkindum margra yfir megn fram, með því að opna þeim og vísa á veg að ótæmandi auðæfa-uppsprettu.

Öllum þessum lærdómi katólsku kirkjunnar neitar prótestantiska kirkjan sem gagnstæðlegum anda kristilegrar trúar og siðvenju fornkirkjunnar. Því ef menn athuga söguna, þá þekkti kristin kirkja ekkert til þessa lærdóms katólsku kirkjunnar eða fórnarþjónustu hennar allt fram að 7. öld. En eptir það að klerkavaldsandinn fór að gjöra vart við sig, og því fremur sem hann magnaðist, því fremur aflagaðist líka hin upphaflega guðsþjónusta, og færðist í þá mynd, sem bezt var löguð til þess, að gjöra klerkdóminn sem dýrðlegastan, og að greina hann frá leikmönnum. En til þess var enginn vegur betur lagaður, heldur en sá, að gjöra hina kristilegu guðsþjónustu að ytri fórnarþjónustu. Samkvæmt þessari tilhögun gat hinn katólski prestur komið fram sem meðalgangari milli guðs og manna, eins og æðsti prestur Gyðinga á dögum gamla testamentisins, sem einn gat fram borið

fórn fyrir syndir þjóðarinnar, og friðþægt hana við guð, og þessa lögun fjekk hin katólska messugjörð frá 7. öld, eins og hún nú er orðin að venju í katólsku kirkjunni. En eins og þessi lærdómur er gagnstæður lærdómi og sið fyrstu alda kirkjunnar, eins er hann líka gagnstæður anda kristindómsins. Lærdómur katólsku kirkjunnar um messufórnina getur ekki samþýðzt lærdómi kristilegrar trúar um guð sem anda, eða lærdómi hennar um hina sönnu guðsdýrkun, sem ekki er fólgin í líkamlegum fórnum og ytri siðvenjuþjónustu, heldur í þjónustu andans í hreinu og heilögu hugarfari og líferni; Jóh, 4, 24.; Róm. 12, 1. En þar að auki er þessi lærdómur algjörlega gagnstæður þeim grundvallarlærdómi kristilegrar trúar, að Jesús Kristur sje einn frelsari heimsins og friðþægjari; því kristindómurinn kennir, að Kristur hafi opnað oss aðgang til föðursins; að hann með dauða sínum hafi afmáð og ónýtt fórnir heimsins, því hin eina sanna friðþægingarfórn hafi gjört óþarfar allar ytri friðþægingarfórnir, og að þessa fórn þurfi ekki aptur að ítreka, heldur nái blessunarrík áhrif hennar og frelsisverkanir til allra manna á öllum tímum, sem aðhyllast Krist í iðrun og trú. Þennan grundvallarlærdóm kristindómsins ónýtir messufórnarlærdómur katólsku kirkjunnar. Því þar eð katólska kirkjan hefur stofnsett stöðuga fórnarþjónustu, eins og heiðnir menn eða Gyðingar, í því skyni, að friðþægja menn við guð og afreka fyrirgefningu syndanna, þá gjörir hún með því ráð fyrir, að mönnum sje enn þá lokaður aðgangurinn til guðs

náðar, og hefur með því úrskurðað, að friðþægingardauði Krists sje ónógt og óviðunanlegt frelsismeðal[1].

Prótestantiska kirkjan telur því messufórnina með fullum rjetti andstyggilega hjáguðadýrkun; því með þessum sið vekur katólska kirkjan að nýju til lífs í kristninni heiðinglega hjátrú, stofnsetur heiðinglega fórnarþjónustu, sem eignar ytri líkamlegum fórnarsiðum töfrakrapt til þess, að afmá syndirnar[2]. Þessi lærdómur er þar að auki hin ógurlegasta ósvífni, því hann ónýtir grundvallarlærdóm kristilegrar trúar, að Kristur sje einn meðalgangari milli guðs og manna,

---

1) *„Contumelia est evangelii sentire, quod caeremonia ex opere operato sine fide sit sacrificium reconcilians deum et satisfaciens pro peccatis; horribilis oratio est, tantum tribuere operi sacerdotis, quantum morti Christi“. Apol. conf.*

þ. e.: það er að misbjóða evangelíó, að hugsa, að ytri siðvenja sje af verkinu sjálfu án trúarinnar fórnargjörð, sem friðþægi menn við guð, og fullnægi fyrir syndirnar; það er ógurleg ræða, að eigna þjónustu prestsins jafnmikið sem dauða Krists.

2) *„Haeret in regno pontificio cultus Baaliticus, hoc est: abusus missae; et videtur hic Baaliticus cultus unacum regno pontificio duraturus esse, donec veniet Christus ad judicandum, et gloria adventus sui perdet regnum Antichristi“. Apol. conf.*

þ. e.: Við ríki páfans er áföst Baalsdýrkun, það er að skilja: ósiður messufórnarinnar; og svo lítur út, sem þessi Baalsdýrkun muni standa, þangað til Kristur kemur til dómsins, og eyðir ríki Antíkrists með dýrðartilkomu sinni.

og kennir, að friðþægingar- og frelsis-verk drottins hafi ekki verið nœgilegt[1].

Katólska kirkjan telur prestsvígslu með sakramentum sínum. Þetta stendur í sambandi við lærdóm hennar um messufórnina; því aðalætlunarverk katólskra klerka er fórnarþjónustan, og allt álit þeirra byggist á messufórninni, og því hefur katólska kirkjan gjört prestsvígsluna að sakramenti. Til efnis þessa sakramentis telja katólskir handa-áleggingguna, og hina ýmislegu helgu hluti, sem afhentir eru þeim vígða, og sem tákna ýmislega þjónustu klerkanna, eptir því vígslustigi, sem þeir standa á; þannig er biskupunum afhentur hringur og bagall, prestum kaleikur með víni og patína með brauði, djáknum guðspjallabók, subdjáknum kaleikur og patína, o. s. frv. Form þessa sakramentis telja katólskir vígsluorð þess, sem þjónustuna veitir: „*accipe potestatem,*“ etc. (veit þú móttöku valdi, etc.); og eru þessi orð stýluð ýmislega, eptir þeirri

[1]) „*Missa in papatu maxima et horrenda est abominatio hostiliter e diametro pugnans contra articulum primum. Statuerunt enim, quod sacrificium istud, seu opus missae, etiam ab impio et perdito nebulone praestitum, liberet homines a peccatis, cum in hac vita, tum in purgatorio, cum tamen solus agnus dei nos liberet*“. *Art. Smal.*

Þ. e.: Messufórn páfadómsins er mesta og ógurlegasta viðurstyggð, fjandskapur gegn fyrsta boðorðinu. Því þeir hafa með því ætlazt til, að þessi fórn, eða þjónusta messunnar, þó spilltur og guðlaus bófi flytti hana, frelsi menn frá syndunum, bæði í þessu lífi og í hreinsunareldinum, þar sem þó eitt lambið guðs frelsar oss.

vígslu, sem maðurinn er vígður. Þessi kenning katólsku kirkjunnar um prestsvígsluna er í óaðgreinanlegu sambandi við lærdóm hennar um klerkavaldið. Eins og áður er sagt, þegar talað var um embætti kirkjunnar, aðgreinir katólska kirkjan klerkastjettina, sem heilaga stjett, frá öllum öðrum stjettum, þar eð hún sje kjörin til þess, að vera meðalgöngustjett milli guðs og manna. Þessi meðalgöngu-starfsemi klerkanna kemur nú áþreifanlegast og dýrðlegast fram í fórnarþjónustu kirkjunnar, þegar hinn katólski prestur friðþægir með fórn sinni fyrir syndirnar. Þannig er auðsjeð, að katólska kirkjan tengir lærdóm sinn um prestsvígsluna í óaðgreinanlegt samband við fórnarlærdóm sinn, og verður þetta bersýnilegast af því, hvernig kirkjan bindur kenningu sína um stofnun prestsembættisins við messufórnarlærdóm sinn. Því katólska kirkjan kennir, að þegar Kristur innsetti kveldmáltíðina, þá hafi hann með orðunum: „Gjörið þetta“, um leið sett postula sína til presta, og skipað þeim að fram bera líkama sinn og blóð til fórnar í kveldmáltíðinni, og þessi þjónusta hafi gengið í erfðir til klerkdómsins, eptirmanna postulanna. Samkvæmt þessu verður þá hið prestlega embætti í katólsku kirkjunni fórnarembætti í gyðinglegum skilningi; hinn katólski prestur er fórnarprestur, eins og hjá Gyðingum forðum, eingöngu kallaður til þess, að breyta brauði og víni með helgun sinni í líkama og blóð drottins, og fram bera síðan guði daglega messufórn til friðþægingar bæði fyrir lifendur og dauða. Katólska kirkjan einskorðar þannig prestsembættið við hina ytri fórnar-

þjónustu, og prestsvígslan er, eptir hennar lærdómi, það sakramenti, sem veitir yfirnáttúrlega náðargáfu og vald til þess, að fram bera þessa fórn. Í því skyni leggur katólska kirkjan áherzlu á orðin: „Gjörið þetta“, og leggur í þau skipun til þess, að breyta brauði og víni í líkama og blóð Krists, og bera fram messufórnina, eins og orðin hljóðuðu: breytið þessu, fram berið þetta[1]. Á þessum lærdómi um prestsembættið byggist nú allur klerkavaldslærdómur katólsku kirkjunnar, lærdómurinn um hin ýmislegu vígslustig klerkdómsins, og um aðgreiningu hans frá leikmönnum og yfirburði yfir þá, eins og áður er skýrt frá.

---

[1]) *„Cum in N. T. sanctum evcharistiae sacramentum visibile ex domini institutione catholica ecclesia acceperit, fateri etiam oportet, in ea novum esse, visibile et externum sacerdotium, in quod vetus translatum est, hoc autem ab eodem domino nostro institutum esse, atque apostolis eorumque successoribus in sacerdotio potestatem traditam consecrandi, offerendi, et ministrandi corpus et sanguinem ejus, nec non et peccata remittendi sacrae litterae ostendunt, et catholicae ecclesiae traditio semper docuit“. Syn. Trid.*

Þ. e.: Með því almennileg kirkja hefur eptir tilskipun drottins tekið við heilögu, sýnilegu kveldmáltíðarsakramenti nýja testamentisins, verða menn að játa, að í henni sje líka sýnilegt ytra prestsembætti, sem tekið hefur við af hinu gamla, og sýna helgar ritningar, og sögusögn almennilegrar kirkju hefur jafnan kennt, að þetta embætti sje stofnað af drottni, og að postularnir og eptirmenn þeirra í prestsembættinu hafi af honum þegið í hendur valdið, til að helga, bera fram til fórnar, og þjónusta líkama og blóð hans, og til að fyrirgefa syndirnar.

Eins og prótestantiska kirkjan neitar lærdómi katólsku kirkjunnar um eðli og starfsemi hins kennimannlega embættis, eins neitar hún lærdómi katólskra um prestsvígsluna. Prótestantar játa, að prestsvígslan sje hátíðleg og helg kirkjuleg athöfn, en ekki er hún sakramenti; hún er ekki náðarmeðal í þeirri þýðingu sem skírn og kveldmáltíð. Hún er ekki ætluð öllum mönnum eða öllum stjettum, eins og hin 2 sakramentin, en er bundin til einstakra manna; hún er ekki, eins og hin 2, beinlínis tilskipun drottins sjálfs, heldur er hún tilskipun kirkjunnar, en samkvæmt anda kristilegrar trúar. Því þar eð kristindómurinn á sjer enga fórnarþjónustu, eins og gamla testamentið, þá er hið kristilega kennimannsembætti ekki fórnarembætti, heldur andleg þjónusta, innifalin í því, að þjóna sakramentunum, prjedika og boða frelsisorð evangelíí, lærdóminn um friðþægingunа fyrir Krist, sem bar sjálfan sig fram á krossinum til fyrirgefningar syndanna og sáluhjálpar öllum trúuðum; þess vegna kallar líka postulinn Páll hina kristilegu prjedikun, boðun lærdómsins: „orð krossins“; 1. Kor. 1, 18.[1]. Hið kristilega prestsembætti er ekki fólgið í

---

[1]) *„Sacerdotium Novi Testamenti est ministerium spiritus, ut docet Paulus 2. Cor. 3., ideo unicum habet sacrificium Christi satisfactorium pro peccatis aliorum“. Apol. conf.*

þ. e.: Prestsembætti nýja testamentisins er þjónusta andans, eins og Páll kennir, 2. Kor. 3.; þess vegna á það einungis eina fórn Krists, sem er fullkomin fullnaðargjörð fyrir syndir annara.

því, að fram bera drottni líkamlegar fórnir, heldur andlegar, fórn trúarinnar og kærleikans í heilögu líferni. Í þessum skilningi er hið kennimannlega embætti almennt; í þessari þýðingu eiga allir kristnir hlutdeild í hinu kennimannlega embætti, allir eru í skírninni innvígðir til þess, og hið sjerstaklega prestsembætti styðst á hinu almenna. Samkvæmt lærdómi prótestantisku kirkjunnar er prestsvígslan hátíðleg athöfn; með henni felur kirkjan þeim vígða á hendur hið sjerstaklega prestsembætti, kallar hann til að prjedika evangelíum, og veita þjónustu sakramentunum eptir innsetningu drottins[1]. Þar á móti veitir hún enga yfirnáttúrlega æðri hæfilegleika, eða að greinir hinn vígða á andlegan hátt frá leikmönnum, og kemur klerkunum ekki í leyndardóms-samband við Krist á þann hátt, sem katólskir kenna, heldur hefur hún gildi sitt frá skírninni. Kraptur hennar er kominn undir því, hvernig hinn vígði færir sjer í nyt náðargáfu skírnarinnar, hvernig hann hefur undir búið sig undir köllun sína, og hve trúlega og dyggilega hann stendur í þeirri þjónustu, sem drottinn hefur kallað

[1]) *„Ideo sacerdotes vocantur, non ad ulla sacrificia velut in lege pro populo facienda, ut per ea mereantur populo remissionem peccatorum, sed vocantur ad docendum evangelium et sacramenta porrigenda populo“. Apol. conf.*

þ. e.: þess vegna eru prestar kallaðir, ekki til þess, að starfa að fórnarþjónustu fyrir menn, eins og undir lögmálinu, svo að þeir með henni afreki mönnum fyrirgefningu syndanna, heldur eru þeir kallaðir, til að boða fagnaðarlærdóminn, og útluta sakramentunum.

hann til og trúað honum fyrir. Prótestantiska kirkjan játar því, að hin kirkjulega vígsla geti og eigi, eins og hver önnur helg og hátíðleg kirkjuleg athöfn, að vera prestinum siðferðislegt uppbyggingarmeðal, vera honum til styrkingar og staðfestu í trúnni, og á þann hátt veita honum krapt til að þjóna embættinu með trú og árvekni.

## 9. grein.

## Um dýrkun helgra manna, helgra mynda, og helgra dóma.

Kirkjufundurinn í Tríent hefur verið mjúkur í orðum og varkár fremur venju í lærdóminum um helga menn, þar eð hann hvorki hefur lýst bannfæringu yfir þá, sem neita dýrkun helgra manna, en segir að eins, að þeir menn lýsi vantrúuðu hugarfari (*impie sentiunt*), nje heldur kveður fastar að orði en svo, „að það sje gott og nytsamt, að ákalla helga menn“. Eptir þessu orðatiltæki kynni að virðast, sem katólska kirkjan leggi enga sjerlega áherzlu á þennan lærdóm, og gjöri engum að skyldu, að fylgja honum, en láti mönnum það í sjálfsvald. Þó er þetta ekki þannig að skilja. Allur lærdómur katólsku kirkjunnar um engla og helga menn og framkvæmdarvald þeirra hjá guði sýnir, að kirkjufundurinn hefur lagt dýpri þýðingu í orð sín, en þau í fyrsta áliti sýnast að benda til. Því fundurinn í Tríent segir, að menn eigi að flýja til helgra manna, af því þeir beri fram bænir sínar fyrir menn, og leita fulltingis þeirra, þar eð þeir megni svo mikils hjá guði, og geti aflað oss

hjá honum sjerlegra velgjörninga[1]. Af þessu er auðsjeð, að katólska kirkjan eignar helgum mönnum meðalgöngumanna-starfsemi; hún hugsar sjer þá að vera árnaðarmenn vora hjá guði, og eignar fyrirbænum þeirra krapt til þess, að útvega mönnum margt, sem þeir að öðrum kosti ekki yrðu aðnjótandi. Og katólska kirkjan lætur sjer ekki nægja, að eigna fyrirbænum þeirra framkvæmd hjá guði; hún kennir, að meðalganga þeirra vor vegna megni mikils vegna sjerlegra verðugleika þeirra[2]. Katólska kirkjan að greinir að vísu, samkvæmt ákvörðun fundarins í Nícæa 787, guðlega dýrkun (λατρεία, *adoratio*) frá lotningu fyrir helgum mönnum (δουλεία, *veneratio*), og fyrirskipar því, að ákalla heilaga þrenningu með bænarávarpinu: „*Miserere nobis! audi nos!*" (miskuna oss! heyr oss), en helga menn með ávarpinu:

---

[1]) „*Bonum et utile est, suppliciter invocare sanctos, et ob benificia impetranda a deo ad eorum orationes, opera, auxiliumque confugere*". *Syn. Trid.*

þ. e: það er gott og nytsamt, að ákalla helga menn í auðmjúku bænarávarpi, og að flýja til bæna þeirra, verka og fulltingis vegna velgjörninga þeirra, sem þeir afla oss hjá guði.

[2]) „*Ob eam causam colendi et invocandi sunt sancti, quod pro salute hominum preces assidue faciunt, multaque eorum merito et gratia deus in nos confert benificia*". *Cat. Rom.*

þ. e: Fyrir þá sök eiga menn að dýrka og ákalla helga menn, að þeir án afláts gjöra fyrirbænir fyrir velferð manna, og guð veitir oss marga velgjörninga þeirra vegna, og vegna verðugleika þeirra.

*„Ora pro nobis!"* (bið fyrir oss!)[1]. Sömuleiðis segir katólska kirkjan, að „þó messur sjeu sungnar til heiðurs helgum mönnum, þá sje fórn ekki fram borin þeim, heldur guði, sem hafi krýnt þá dýrðarkórónu og þeim sigurinn gefið", og leitast við að fegra með því lærdóm sinn um dýrkun helgra manna, og láta á sjer skilja, að hún viðurkenni engu að síður lærdóminn um Krist sem endurlausnara heimsins, og meðalgangara milli guðs og manna. En það liggur í augum uppi, að þessir lærdómar geta ekki samrýmzt. Lærdómur katólskra um meðalgöngu engla og helgra manna getur ekki samþýðzt þeim grundvallarlærdómi kristindómsins, að Kristur hafi opnað oss aðgang til guðs, að hann einn sje talsmaður vor hjá föðurnum, og að vjer eigum að snúa oss til föðursins með bæninni í Jesú nafni. Þegar þess vegna katólska kirkjan býður, að ákalla helga menn í bænum jafnhliða Kristi, og heita á fulltingi þeirra ekki síður en hans, þá kennir hún með því, að Kristur sje ekki einn talsmaður vor hjá föðurnum, ekki einn milligöngumaður milli guðs og manna, eða með öðr-

---

[1]) *„Hinc duas adhibemus precandi formulas, modo differentes; ad deum enim proprie dicimus: miserere nobis; audi nos!; ad sanctum: ora pro nobis!" Cat. Rom.*

þ. e.: þess vegna brúkum vjer tvenns konar bænagjörðir: því guð einan áköllum vjer í bæninni: miskuna oss! heyr oss! en helga menn: bið fyrir oss!

um orðum: að friðþægingar- og frelsis-verk hans sje ekki einhlítt[1].

Prótestantiska kirkjan játar, að það sje bæði loflegur og leyfilegur siður, að minnast hinna framliðnu bræðra, sem hjer á vegferð sinni voru trúir stríðsmenn drottins, og börðust góðri baráttu trúarinnar allt til æfiloka; því bæði getur það orðið meðal til að styrkja þakklæti vort, traust og kærleika til drottins, sem sýndi sig máttugan í þeirra breyskleika, og líka eru hin lofsverðu dæmi þeirra öflug upphvatningarmeðul fyrir trú vora og dyggð[2]. En fastlega neitar prótestantiska kirkjan allri dýrkun og bæna-ákalli helgra manna, því

---

[1]) *„Quum alii mediatores praeter Christum quaeruntur, collocatur fiducia in alios, obruitur tota notitia Christi. Invocationem prodigiosi et plus quam ethnici abusus secuti sunt". Apol. conf.*

Þ. e.: Þegar menn leita til annara meðalgöngumanna auk Krists, þá setja menn traust til annara, og þekkingin á Kristi verður að engu. Áköllun helgra manna hefur haft í för með sjer hjátrúarfulla vanbrúkun, verri en heiðinglega.

[2]) *„Confessio nostra probat honores sanctorum: nam hic triplex honos probandus est: primus est gratiarum actio; secundus cultus est confirmatio fidei nostrae; tertius honos est imitatio primum fidei. deinde ceterarum virtutum". Apol. conf.*

Þ. e.: Trúarjátning vor fellst á, að hafa í heiðri helga menn; því minningu þeirra má heiðra á þrennan hátt; fyrst með þakkargjörð; því næst er styrking trúar vorrar þeim til heiðurs; og í þriðja lagi sýnum vjer þeim virðingu með því, að breyta eptir trú þeirra fyrst og fremst, og síðan eptir öðrum dyggðum þeirra.

sá siður hefur enga fótfestu í heilagri ritningu[1], og getur ekki talizt annað en ókristileg þjónusta, ósamþýðanleg anda kristilegrar trúar. Því dýrkun engla og helgra manna kennir mönnum að gleyma guði, en eignar breyskum mönnum þá tign, sem guði einum ber, kennir mönnum að gleyma hinum eina sáluhjálpara, og að tigna skepnuna fram yfir skaparann. Til sönnunar helgra manna dýrkun bera katólskir opt fyrir, að menn biðji hjer á jörðu hver fyrir öðrum. En þetta er auðsjáanlega allt annað mál, og sannar alls ekki það, sem þeir ætlast til. Því þó það vel geti verið, að hinir framliðnu biðji á himninum fyrir oss á jörðu, þá leiðir engan veginn af því, að vjer eigum að sýna þeim guðlega lotningu, tigna þá, eins og katólskir gjöra, með bœna-ákalli, fórnarþjónustu, messusöng. Því ekki ákalla kristnir menn, ekki tilbiðja þeir eða sýna hver öðrum guðlega lotningu, þó þeir fram beri bœnir hver fyrir öðrum hjer á jörðu.

---

[1]) *„De cultu sanctorum docent, quod memoria sanctorum proponi potest, ut imitemur fidem eorum et bona opera juxta vocationem. Sed scriptura non docet invocare sanctos, seu petere auxilium a sanctis, quia unum Christum nobis proponit mediatorem, propitiatorium, pontificem et intercessorem". Conf. Aug.*

Þ. e.: Um dýrkun helgra manna kenna þeir, að minning helgra manna geti verið til fyrirmyndar, svo vjer breytum eptir trú þeirra og góðverkum, samkvæmt köllun vorri. En ritningin kennir ekki, að ákalla helga menn, nje leita fulltingis þeirra, því hún kennir oss, að Kristur sje einn meðalgöngumaður, friðþægjari, œðsti prestur, og árnaðarmaður vor.

Samkvæmt skýrum lærdómi heilagrar ritningar eigum vjer að tilbiðja guð einan, og því geta prótestantar ekki annað en talið þennan lærdóm katólskra heiðinglega hjáguðadýrkun[1].

Í lærdóminum um helgar myndir og helga dóma gætir kirkjufundurinn í Tríent sömu varhygðar í trúarsetningum sínum sem í lærdóminum um helga menn. Því kirkjufundurinn eignar ekki beinlínis myndunum sjálfum, eða hinum líkamlegu leifum þau tákn og stórmerki, sem þær eiga að gjöra, heldur segir hann, að guð gjöri þessi stórmerki „fyrir hina helgu dóma“[2]; og sömuleiðis segir fundurinn, að sú dýrkun, sem menn sýna hinum helgu myndum, stefni ekki að þeim sjálfum, heldur að frummyndunum, að hinum helgu mönnum, sem hinar sýnilegu myndir tákna[3]. Og

[1]) *„Invocatio sanctorum est etiam pars abusuum et errorum Antichristi pugnans cum primo principali articulo, et delens cognitionem Christi. Est cultus idololatricus, et hic honos soli deo tribuendus est“. Art. Smal.*

þ. e.: Að ákalla helga menn er líka ein tegund af ósiðum og villu Antíkrists, beint á móti fyrsta og helzta boðorðinu, og til niðurdreps þekkingunni á Kristi. Það er hjáguðadýrkun; því tilbeiðslu á að sýna guði einum.

[2]) *„Per corpora sanctorum multa benificia hominibus a deo praestantur“. Syn. Trid.*

þ. e.: Guð veitir mönnunum marga velgjörninga fyrir líkami helgra manna.

[3]) *„Honos, qui eis exhibetur, refertur ad prototypa, quae illae repraesentant“. Syn. Trid.*

þ. e.: Virðing sú, sem þeim er sýnd, heimfærist til frummyndanna, sem myndirnar tákna.

þar að auki varar kirkjufundurinn við allri hjátrú, sem geti lýst sjer samfara dýrkun helgra manna og mynda. En bersýnilega hefur kirkjunni ekki verið full alvara með þessari áminningu sinni. Því kirkjufundurinn í Tríent skýrskotar um leið til fundarins í Nícæa 787, sem samþykkti og staðfesti alla hina hjátrúarfullu og hneykslanlegu dýrkun helgra manna, sem þá var farin að tíðkast, og sem upp frá þeim tíma varð almenn í kirkjunni. Með því að vitna til þessa fundar, hefur katólska kirkjan bezt skýrt frá, hver verið hefur hennar góði og velþóknanlegi vilji; því með þeirri bendingu hefur hún þegjandi staðfest alla hjátrú kirkjunnar í þessum lærdómi, eins og hún þá var drottnandi; og því getur viðvörun katólsku kirkjunnar við hjátrú í þessu efni ekki skilizt öðruvísi en sem tilraun, til að verjast ámælum fyrir það, að hún beinlínis hafi boðið ókristilegan lærdóm. En engan veginn hefur það verið tilgangur katólsku kirkjunnar, að reisa skorður við, eða upp ræta með þessari áminningu sinni hina andstyggilegu hjátrú, eins og hún var rótföst orðin í kirkjunni fyrir mörgum öldum, og var drottnandi á 16. öld. Þetta er líka auðsjeð af því, að katólska kirkjan mótmælir hvergi nokkurri sjerstaklegri tegund þessarar hjátrúar, og tilgreinir engan einstakan ósið, en hefur miklu fremur látið standa óátalda og óhaggaða alla hina heiðinglegu alþýðutrú á helga menn og helga dóma. Þannig hefur katólska kirkjan hvergi mótmælt þeirri almenningstrú, að hver helgur maður á himnum eigi sjer skjólstæðing á jörðu, að hver maður eigi að kjósa sjer verndar-

engil, og snúa bœnum sínum til hans í öllum vanda. Hvergi hefur katólska kirkjan mótmælt þeirri alþýðutrú, að til sjeu myndir helgra manna, sem dýrðlega sýni mátt sinn, jafnvel á sýnilegan hátt, með því að renna augum, hneigja höfuð, og tárfella. Slíkum myndum eignar alþýða í katólskum löndum mátt til, að gjöra tákn og stórmerki, og sögur ganga um manna á milli, að þær hafi opt af stýrt líkamlegum voða, eldi, drepsóttum, o. s. frv. Þvílíkar myndir eru opt bornar í hátíðlegum prósessíum, og alþýða flykkist þá saman, til að veita þeim guðlega lotningu. Pílagrímar drífa á ári hverju þúsundum saman til þeirra staða, sem slíkar myndir hafa aðsetur, í því skyni, að verða einhvers góðs aðnjótandi, og menn keppast á, að fœra þeim kostulegar fórnir í gulli, silfri, og öðrum dýrgripum. Ógrynni fjár rennur þá með þessu móti úr öllum áttum í hendur hins katólska klerkdóms, og það er svo langt frá því, að katólska kirkjan á síðari tímum hafi leitazt við, að aptra þvílíkum pílagrímsferðum, eða amast við þeim hag, sem klerkar kirkjunnar hafa af þeim, að hún miklu fremur hefur hlynnt að þeim með ýmsu móti. Og það er ekki nóg með því, að katólska kirkjan hvergi mótmælir nje setur skorður þessari hjátrú; hún hefur beinlínis staðfest hana og samþykkt með því, að hún hefur áskilið sjálfri sjer rjett til þess, að rannsaka og fullgilda nýja helga dóma í kirkjunni. Því kirkjufundurinn í Tríent setti þau lög, að engar nýjar myndir nje nýja dóma mætti taka upp í kirkjunni, nema þeir væru áður prófaðir og samþykktir af biskupunum eða

páfanum. Í því skyni er stöðug nefnd í Rómaborg, sem hefur þann starfa, að prófa og fullgilda helga dóma, og senda þá frá Rómaborg öðrum kirkjum víðs vegar um katólsk lönd; því ekki er nokkur kirkja vígð í katólskum löndum, að ekki sjeu henni jafnframt lagðir helgir dómar, sem skrínlagðir eru, og skrínið síðan geymt í altari kirkjunnar. Því verður ekki mótmælt, að þó katólska kirkjan hafi gjört sjer far um, að draga fjöður yfir villuna í kenningu sinni, hefur hún allt fyrir það staðfest í þessari grein, eins og öðrum, hjátrúna frá miðöldunum, og hlýtur því að bera ábyrgðina fyrir það. Því verður ekki neitað, að eins og trúnni á helga menn, helgar myndir og helga dóma, nú er komið í katólsku kirkjunni, ekki einungis í alþýðutrúnni, heldur og í öllu daglegu lífi og guðsþjónustugjörð kirkjunnar, virðist, sem hin forna margra guða dýrkun heiðinna þjóða sje risin upp aptur úr gröf sinni, íklædd nýjum búningi. Í mörgu tilliti er svo mikill svipur með englatrú katólskra manna og marggyði heiðninnar, margt svo áþreifanlega líkt með hjátrú katólskra á helgum mönnum og forneskju heiðinnar trúar, að mönnum hlýtur ósjálfrátt að koma til hugar, að heiðinglegar hugmyndir og lærdómar hafi smeygt sjer inn í trúarfræði kirkjunnar, og rutt sjer til rúms í guðsþjónustugjörð hennar. Einkanlega sver hin katólska alþýðutrú á helga menn og engla, sem verndaranda, sig í ætt við trú heiðinna þjóða á verndarguði *(dii tutelares)*, og vottar um heiðinglegan uppruna. Eins og þjóðir, lönd og borgir í heiðninni kusu sjer einhvern af goðunum til

verndara síns (Athenuborg Mínervu, Rómaborg Mars, Krítarey Júpíter, Kýprusey Venus, o. s. frv.), eins eiga katólsk lönd, hjeruð, borgir, fjelög og einstakir menn einhvern engil eða helgan mann sjer til verndar, sem menn leita fulltingis hjá og ákalla fremur en drottin sjálfan. Þannig eru postularnir Pjetur og Páll verndarar Rómaborgar; Jakob postuli verndari Spánar; Andrjes postuli verndari Pólínalands; Markús guðspjallamaður verndari Feneyja; hinn helgi Janúaríus verndari Neapelsríkis, o. s. frv. Á sama hátt kjósa fjelög og stjettir sjer til verndara einhvern engil eða helgan mann; munkafjelög hafa sína varðhaldsanda, siglingamenn sína, o. s. frv. Þannig er Lúkas verndari íþróttamanna; og eins getur hver einstakur maður kosið sjer til verndara einhvern helgan mann, sem hann heitir á og snýr bœnum sínum til í öllum þörfum sínum, andlegum og líkamlegum. Kirkjur í katólskum löndum eru vígðar helgum mönnum, og ekki einungis kirkjur, heldur eru fjöll, skógar, akurlendi og lindir helgaðar þeim og ánafnaðar. Á vegum og vegamótum standa reistar líkneskjur þeirra úr trje eða steini. Á heimilum manna eru myndir þeirra hvervetna, bæði utan húss og innan, tignaðar eins og varðhaldsmyndir heimilanna, á líkan hátt og húsgoðin forðum í heiðninni (*lares, penates*). Karlar og konur, fullorðnir og börn, bera almennt myndir eða dóma helgra manna á brjósti sjer, eins og verndargripi gegn hvers konar háska og voða, og eigna þeim töframátt. Einkanlega er María, móðir lausnarans, tignuð sem himnadrottning í katólsku kirkjunnni fremur öðrum

helgum mönnum; henni er veitt æðri dýrkun heldur en öllum öðrum helgum mönnum (ὑπερδουλεία); í hvers manns húsi er mynd hennar; hvervetna eru kapellur og kirkjur reistar henni til dýrðar, og flestir bera hennar mynd á brjósti sjer til fulltingis og verndar gegn hvers konar voða og hættu. Það má fullyrða, að trú á helga menn sje svo rótgróin og mögnuð í katólsku kirkjunni, að hún beri ofurliða, og hafi að miklu leyti bolað út hina hreinu kristilegu þjónustu, dýrkun guðs og Krists. Ávextir þessarar þjónustu eru, eins og við má búast, samsvarandi eðli hennar: hin ógurlegasta hjátrú og vanþekking á trúarefnum, einkum vanþekking á eðli sannrar guðsþekkingar. Því ekki er það hrein og ómeinguð lotning fyrir heilagleika hinna helgu manna, sem knýr katólska menn til að ákalla þá og tigna, heldur er það ímyndunin um framkvæmd þeirra hjá guði, og vonin um að hljóta eitthvert happ, hafa einhvern hagnað af fulltingi þeirra. Þessi dýrkun er þannig sprottin af og samfara óhreinum hvötum; hún er eigingjörn, en hefur ekki rót sína í lotningarfullri virðingu fyrir dyggðum og siðferðislegum kostum hinna helgu manna; svo það á hjer fullkomlega heima, sem Lúter sagði, „að ef menn ekki væntu einhvers hagnaðar af fyrirbænum helgra manna, mundu allir hætta að tilbiðja þá, því enginn ákalli þá eða minnist þeirra af hreinum kærleika“[1]. Og þessi ókristilega

---

[1]) *„Ubi enim spes commodi et subsidii corporalis et spiritualis adempta fuerit, ibi cultus sanc-*

hjátrú styðst þó einmitt á lærdómi katólsku kirkjunnar sjálfrar; því þar eð hún byggir lærdóm sinn um, að ákalla helga menn, á þeim „miklu velgjörningum“, sem fyrirbœnir þeirra og milliganga eigi að veita oss, þá hefur hún með þeirri kenningu opnað inngöngu í kirkjuna allri þessari megnu hjátrú, sem drottnandi er hjá alþýðu á helgum mönnum, og öllum þeim skaðsamlegu áhrifum, sem hún hefur á trú og siðferði manna. Katólska kirkjan hefur fœrt það til máls helgra manna dýrkun sinni, að það sje vottur sannrar auðmýktar og guðhræðslu, að snúa sjer ekki beinlínis til guðs eða Krists í bœnum sínum. En þessi ástœða er ekki annað en hjegómleg tilraun til að gylla hina heiðinglegu hjátrú katólsku kirkjunnar, og hún vottar um fullkominn misskilning á lærdómi kristindómsins um föðurkærleika guðs og endurlausnarverk Krists, þar eð katólska kirkjan sýnist að hugsa sjer helga menn náðarríkari en guð, og þar að auki lýsir þessi ástœða siðferðislegri ljettúð og sljóvleika, sem þykir það hughœgra, að setja mönnum til fyrirmyndar breyska og vanmáttuga menn, til þess að geta fundið afsökun eigin ófullkomlegleika, heldur en hann, sem sjálfur er hreinn og heilagur, og gjörir þá kröfu til vor, að vjer sjeum heilagir, eins og sá er heilagur, sem oss hefur kallað.

---

*torum evanescet, sive illi sint in sepulcris, sive in coelis; frustra enim, aut ex mera caritate nemo ipsorum facile recordabitur, nec eos colet et honore divino afficiet“. Art. Smal.*

## 10. grein.

### Um aflát.

Lærdómur katólsku kirkjunnar um aflát stendur í sambandi við skriptalærdóm hennar. Eins og hún eignar sjer vald til þess, að meta syndir og afbrot manna við guð, og að leggja mönnum á herðar ýmislegar skriptir, til að bæta fyrir þessi afbrot, eins eignar hún sjer vald til þess, að lina og gefa fullkomlega upp þær bætur, sem kirkjan hefur dæmt menn í, þegar henni svo sýnist, og á þann hátt, sem henni þóknast. Þessi uppgjöf á kirkjulegum sektum er aflát, og kirkjufundurinn í Tríent segir, án þess að gjöra nákvæmar grein fyrir orðum sínum, „að Kristur hafi gefið kirkjunni vald til þess, að veita það“[1]. Þessi lærdómur katólsku kirkjunnar styðst í rauninni einungis á hjegómlegum hugarburði guðfræðinganna á miðöldunum, sem settu saman trúargrein um ótæmanlegan sjóð góðverka (*thesaurus meritorum*), sem kirkjan ætti að hafa ráð yfir. Katólska kirkjan útlistar lærdóm sinn um þetta efni á þessa leið: „Kristur hefur með heilögu líferni sínu og dauða gjört mikið meira, en þörf var á, til endurlausnar heiminum; því einn blóðdropi hans hefði verið nógur, til að bæta fyrir syndir manna og frelsa þá. Þar að auki hafa hinir miklu guðsmenn, helgir menn, unnið mörg góðverk fram yfir það, sem lögmálið heimtaði af þeim, og skylda þeirra lá til, og með

---

[1]) *„Potestas conferendi indulgentias a Christo ecclesiae concessa est“. Syn. Trid.*

því móti hafa þeir aflað sjer sjerlegs verðugleika (*meritum supererogationis*). Á þennan hátt hefur Kristur og helgir menn eptirlátið sjer ótœmanlegan sjóð góðverka, sem aðrir breyskir og ófullkomnir brœður þeirra geta notið góðs af. Þessi sjóður er í höndum heilagrar kirkju, sem á jörðu hefur vald til þess, að út býta náðinni, og af fyllingu þessa nœgtasjóðs getur kirkjan miðlað hinum breysku börnum sínum, sem fátœk eru að góðverkum; hún getur bœtt fyrir það, sem þeim er ábótavant, og fullnægt kröfum guðlegs rjettlætis fyrir þeirra hönd. Af þessum villulærdómi spratt nú eðlilega öll sú andstyggilega aflátssala, sem við gekkst á miðöldunum í katólsku kirkjunni, og sem varð fyrsta tilefni til þess, að Lúter og Zwinglí risu upp á móti katólsku kirkjunni, og byrjuðu siðabótina. Hin eitraða kenning hlaut að geta af sjer banvæna ávexti. Þeir lýstu sjer í aflátssölu katólsku kirkjunnar, og hlutu að verða bersýnilegir öllum; því þegar spillingin var orðin svo mögnuð í ósvífni sinni, að kirkjan opinberlega seldi kvittun syndanna fyrir peninga, og fór með hana eins og varning, þá mátti hverjum kristnum manni verða það skiljanlegt, að sú kenning, sem slík óhœfa var byggð á, hlyti að vera djöflalærdómur, og að það var ekki án orsaka, að drottinn kirkjunnar vakti sjer verkfœri að nýju, og sendi út verkamenn sína, Lúter og samverkamenn hans, til að brjóta niður villuna, og flytja hreinan lærdóm evangelíí. Katólska kirkjan hefur að vísu leitazt við, bæði fyr og síðar, að verja aflátslærdóm sinn, og sagt, að þeir ósiðir og hjátrú, sem

lýsti sjer á miðöldunum sameinuð aflátssölunni, væri ekki lærdómi kirkjunnar að kenna, heldur ósvífnum og óvönduðum þjónum kirkjunnar, sem vanbrúkað hefðu vald sitt, og að katólsku kirkjunni hefði aldrei komið til hugar, að setja sig í guðs stað, og kenna, að aflátið veitti fyrirgefningu syndanna; því aflátið snerti ekki syndasektina, heldur væri það einungis uppgjöf á þeim skriptum, sem kirkjan hefði lagt mönnum á herðar; sömuleiðis varar kirkjufundurinn í Tríent við allri sölu aflátsins í ábata-skyni, og kirkjan kennir jafnvel, að engum komi aflátið að gagni, nema þeim, sem iðrast og játar syndir sínar. En líti menn til aflátssölunnar, eins og hún við gengst í katólsku kirkjunni, og eins og kirkjan lætur hana við gangast, þá verður ekki komizt til annarar niðurstöðu en þeirrar, að þessi viðvörun kirkjunnar sje eintómt yfirskyn. Því katólska kirkjan niður brýtur sjálf reglu sína, og gjörir ómögulegt, að fylgja henni fram, með því að ausa út afláti sínu og aflátsbrjefum á báðar hendur, hverjum sem hafa vill, án þess að heimta önnur skilríki fyrir einlægri iðrun manna, heldur en eitthvert svonefnt góðverk. Það er kunnugt, að katólska kirkjan hefur út býtt afláti sínu með miklu örlæti, bæði fyr og síðar; framan af miðöldunum var hún harðari í kröfum sínum, heimtaði af mönnum krossferðir til fjarlægra landa, eða klaustra- og kirkjubyggingar; síðar varð hún vægari, og veitti aflát fyrir ýmsa smámuni, og fyrir daga siðabótarinnar gátu menn keypt sjer aflát fyrir fje. Enn þá er ríkulega útbýtt afláti í katólsku kirkjunni við ýms tækifæri,

á stórhátíðum, við kirkjuvígslur, þegar biskupar koma til biskupsstóla sinna, o. s. frv.; og þetta aflát fæst með hœgu móti, með pílagrímsferðum til einhvers helgistaðar, með því að taka þátt í prósessíu, með því að láta syngja messu, og jafnvel fyrir hverja lítilfjörlega gjöf, sem menn fœra einhverjum helgum manni. Þó katólska kirkjan í orði kveðnu neiti því, að hún gefi aflát sitt út fyrir syndakvittun, og kalli það að eins uppgjöf kirkjulegra hegninga, þá er þetta einber viðbára, til að breiða yfir villuna. Það er víst, að katólska kirkjan leggur dýpri þýðingu í aflát sitt; því einmitt það, að hún byggir aflátið á hinum ótœmanlega góðverkasjóði helgra manna, lýsir því, að hún tilreiknar þeim, sem aflátið fær, annara rjettlæti, tekur hann gildan þeirra vegna, eða með öðrum orðum: fyrirgefur honum syndir hans. Sama leiðir líka beinlínis af lærdómi katólsku kirkjunnar um yfirbót, sem áður er talað um; því katólska kirkjan leggur börnum sínum, eins og áður er sagt, á herðar ýmislegar skriptir eða bœtur, til að sætta þau við guð, og þessum bótum eignar hún friðþægingarkrapt, mátt til þess, að afmá syndirnar. Þar eð nú aflát kirkjunnar er uppgjöf á þessum ýmislegu bótum, og kemur í þeirra stað, hlýtur kirkjan að eigna því hið sama gildi sem þeim; það er að skilja: mátt til þess, að sætta manninn við guð, rjettlæta hann, eða veita honum fyrirgefningu syndanna. Katólska kirkjan getur því ekki með rökum afsakað sig eða kenningu sína, og slegið skuldinni upp á einstaka menn, sem seldu aflátið. Skuldin er, þegar rjett er litið á málið, hjá

kirkjunni sjálfri, eða hjá lærdómi hennar um apturhvarf mannsins og yfirbót. Því hinir ósvífnustu aflátssölumenn, Tezel og hans líkar, sem buðu mönnum fala kvittun syndanna fyrir nokkra skildinga, fram fylgdu reyndar í verkinu engu öðru en því, sem beint horfði við eptir lærdómi katólsku kirkjunnar, og sem hún mátti sjá fram á að verða mundi afleiðing af trúarlærdómi sínum.

Aflátslærdómur katólsku kirkjunnar hefur, eins og skriptalærdómur hennar, rætur sínar í lærdóminum um rjettlætinguna, og er beinlínis sprottinn af honum. Grundvallarvillan í trúarfræði katólsku kirkjunnar í lærdóminum um rjettlætingu og frelsisveg mannsins hlaut að lýsa sjer í ávöxtunum og verða öllum bersýnileg, þegar hún fór að sýna áhrif sín á ytri tilskipanir kirkjunnar, á kirkjuaga hennar, og lýsa verkunum sínum á siðferði manna og kristilegt líf. Þessar verkanir komu áþreifanlega fram í aflátssölu kirkjunnar, þegar hún seldi kvittun syndanna fyrir peninga. Þess vegna lá það beinast við, að höfundar siðabótarinnar rjeðust fyrst á aflát katólskra, þar sem trúarvillan var orðin að opinberu hneyksli leitaðist bersýnilega við, að kollvarpa kristilegu siðferði, og prjedikaði í verkinu veg glötunarinnar.

## 11. grein.

### Um einlífi klerkanna (*de coelibatu*).

Þó katólska kirkjan telji hjónavígslu með sakramentum, dæmir hún allt að einu alla hina æðri klerka sína (biskupa, presta, djákna, og súbdjákna) til ein-

lífis[1]. Kirkjufundurinn í Tríent endurnýjaði og staðfesti í þessu efni forn lög kirkjunnar; því löngu fyrir 16. öld var einlífi klerkanna orðin lög í kirkjunni. Fyrstu 3 aldir kristninnar lifði andlega stjettin, biskupar, prestar og djáknar, í hjúskap, eins og aðrar stjettir. En snemma ruddi sjer til rúms ímyndunin um, að sannkristilegt siðferði og dyggð væri fólgin í gæzlu ýmissa ytri verka, einkanlega í ströngum bindindisreglum og hörku við sjálfan sig. Samfara þessari stefnu kom þá upp hugmyndin um heilagleika einlífisins, og sú trú fór að því skapi vaxandi, sem álit andlegu stjettarinnar og trúin á heilagleika hennar magnaðist. Þess vegna tíðkaðist það snemma, að prestar, sem ókvæntir voru, þegar þeir tóku vígslu, kvæntust ekki eptir það, og eins var það almennur siður, að prestar, sem urðu ekkjumenn, kvæntust ekki aptur, og við gengst sá siður enn þá í grísku kirkjunni. Frá 4. öld tók einlífi klerkanna víða að tíðkast, og upp frá þeim tíma varð biskupum og kirkjufundum hætt við, að amast við kvæntum kennimönnum; þó bönnuðu kirkjulögin á þeim tímum engum klerkum að lifa í hjónabandi; því kirkjan lagði jafnvel bannfæringu yfir hvern þann leikmann, sem ekki vildi þiggja þjónustu af kvæntum presti. En undir lok 4. aldar komu lög, sem beinlínis bönnuðu klerkum hjóna-

---

[1]) *„Si quis dixerit clericos in sacris ordinibus constitutos posse matrimonium contrahere, anathema sit“. Syn. Trid.*

Þ. e.: Ef einhver segir, að klerkar, sem lifa í helgri klerkastjett, geti bundizt hjúskap, sá sje bölvaður.

band. Siricíus, biskup í Rómaborg, hótaði árið 385 embættismissi hverjum biskupi, presti og djákna, sem lifði í hjúskap. Þó þessi lög væru ítrekuð síðan hvað eptir annað, bæði af kirkjufundum og biskupunum í Rómaborg, og heilagleiki einlífisins væri brýndur fyrir mönnum, hlýðnuðust menn þeim samt engan veginn almennt. Þó ruddu þessi lög sjer til rúms öld eptir öld, og því algengara sem einlífi klerkanna varð, að því skapi spilltist siðferði klerkdómsins. Lauslæti og frillulifnaður varð afleiðingin af þessari löggjöf. Loksins varð einlífi klerkanna almennur siður í kirkjunni frá dögum Gregoríusar páfa 7. Hann endurnýjaði og herti á hinum fornu einlífislögum, og fram fylgdi þeim með kænsku og hlífðarlausri hörku. Hinn kæni páfi færði sjer í nyt hjátrú manna; hann bannaði leikmönnum, að þiggja þjónustu kvæntra presta, og brýndi fyrir mönnum, að blessunin yrði að bölvun á vörum þeirra, og notaði þannig leikmenn eins og verkfæri, til að kúga klerka sína til hlýðni. Gregoríus páfi 7. hafði fyrstur allra páfa ljósa hugmynd um, hver ráð mundu liggja til þess, að gjöra vald kirkjunnar að ótakmörkuðu guðsstjórnarvaldi á jörðu. Hann var svo skarpskyggn, að hann sá glöggt fram á, að einlífi klerkanna hlyti að verða hið öflugasta ráð til þess. Því var honum þetta mál svo mikið kappsmál. Einlífislögin leystu klerkana undan maka-, föður-, húsbænda- og heimilis-skyldum, drógu þá út úr öllum borgaralegum störfum, svo að þeir höfðu um ekkert að hugsa, nema sjálfa sig og sitt eigið ríki, og gátu eingöngu varið lífi sínu í þjónustu kirkj-

unnar. Enginn hlutur gat því verið betur lagaður til þess, að gjöra þá eins og viðskila við mannlegt fjelag, gjöra þá öllum óháða, en eingöngu þrælbundna páfanum í Rómaborg. Eins og því Gregoríus páfi barðist fyrir og barði fram einlífi klerkanna af klerkavaldsanda, eins reyndist líka þessi tilskipun á eptir öflugasta stoð klerkavaldsins. Þetta hefur heldur ekki dulizt rómversku kirkjunni. Hún hefur að vísu jafnan borið ýmsar hjegómlegar ástæður fyrir til varnar þessum lærdómi sínum, einkanlega þá, að einlífi sje helgara líferni heldur en hjúskapur, og sœmi því hinni helgu stjett, klerkdóminum. En í rauninni er þessi ástæða ekki annað en viðbára, sem katólska kirkjan ber fyrir af yfirskyni; hin einasta og sanna ástæða kirkjunnar er drottnunargirni hennar og klerkaveldisandi, en þá ástæðu lætur hún ekki uppskáa. Það stendur því stöðugt, sem Melanchton sagði, að katólskum sje engin alvara, þó þeir látist verja einlífi klerkanna, heldur sje það í rauninni ríkið og valdið, sem þeir þá berjist fyrir[1].

---

[1]) *„Non tuentur serio adversarii coelibatum. Nihil enim vere, simpliciter et candide in hac tota causa dicunt, scribunt, aut agunt, sed re ipsa dimicant de dominatione, et hanc impio praetextu pietatis munire conantur“. Apol. conf.*

Þ. e.: Ekki gengur mótstöðumönnum vorum alvara til, að verja ókvæni klerkanna. Því í öllu þessu máli tala þeir ekkert, rita, nje gjöra falslaust, hreinskilnislega og einlæglega, heldur berjast þeir í rauninni um yfirráðin og valdið, og leitast við að tryggja það með hræsnisfullu yfirskyni guðhræðslunnar.

þess vegna hefur rómverska kirkjan trúlega fetað í fótspor Gregoríusar 7., og fylgt fram grundvallarreglu hans. Því þó það hafi ekki getað dulizt rómversku kirkjunni, hvílík ólyfjan þessi löggjöf hefur verið siðferði klerkdómsins, og hvílíka óvirðing hún hefur bakað klerkunum, þó hún hafi sjeð, að þessi löggjöf hafi hlotið að svipta kirkjuna mörgum góðum klerki, með því að fæla marga frá, að ganga í þjónustu hennar, þó stjórnendur, þjóðir og klerkdómurinn sjálfur hafi samtaka lagt fast að páfunum, og heimtað, að þessi lög væru af numin, þá hafa þeir allir samhuga, hver fram af öðrum, miskunarlaust neitað um alla tilhliðrun í þessu máli. Það má því fullyrða, að einlífislögin muni vera orðin föst grundvallar- og stjórnarregla rómversku kirkjunnar, og svo samtvinnuð allri stjórnarbyggingu páfavaldsins, að það eru ekki líkindi til, að rómverska kirkjan slaki til í þessu efni; því gjöri hún það, þá kippir hún einu öflugasta máttartrje undan klerkavaldsbyggingu sinni. Lögin um einlífi klerkdómsins hafa verið samþykkt og staðfest af hverjum páfa eptir annan, og af almennum kirkjufundum, og síðast af kirkjufundinum í Tríent. Ef katólska kirkjan slakaði til um þetta mál, eða tæki þessa tilskipun sína úr lögum, þá rjeðist hún reyndar á sinn eiginn grundvallarlærdóm, bryti niður lærdóminn um guðdómlegt vald páfanna og kirkjufundanna í trúar- og kirkju-efnum. Rómverska kirkjan hefur það fast fyrir augum, sem hún einu sinni hefur sett. Eptir grundvallarreglum sínum getur hún ekki farið að því, þó heilbrigð skynsemi sýni henni,

að einlífislög hennar sjeu kristilegu siðferði til niðurdreps, eða þó þau svipti klerkastjettina náttúrlegum rjettindum, og sjeu á móti guðs og manna lögum. Hún spyr einungis að því, hvað kirkjan hafi boðið, og fyrst hún einu sinni hefur gjört einlífi klerkum sínum að skyldu, getur hún ekki annað en álitið alla þá klerka ótrúa þjóna, sem œskja og beiðast lausnar undan þessum lögum; því hún telur slíkar óskir og bœnir vott um vantraust til guðlegs myndugleika kirkjunnar, eða vantrúar í undirstöðulærdómi hennar, sem er trú á kirkjuna.

Prótestantiska kirkjan neitar einlífislærdómi katólskra, eins og ókristilegri villu. Þessi kenning þeirra er beint á móti anda og bókstaf guðsorða. Því þegar katólskir banna, og jafnvel rjúfa hjúskap, til að koma fram einlífislögum sínum, komast þeir í mótsögn við ljós og skýr orð Krists, Matt. 19, 6.: „Það, sem guð hefur samtengt, skal maðurinn ekki að skilja"; og postulinn Páll býður, 1. Kor. 7, 2., að saurlifnaðarins vegna skuli hver hafa sína eigin konu, og bendir með því til, að hjúskapur sje skylda fyrir hvern, sem ekki sje fœr um, að lifa siðsamlega í einlífi, og sami postuli kallar jafnvel djöflalærdóm þá kenningu, sem bannar mönnum hjúskap; 1. Tím. 4, 1. Enn fremur er lærdómur katólskra gagnstœður allri siðvenju fornkirkjunnar, eins og áður er sagt, og ekki annað en heimildarlaus setning klerkavaldsins. Þessi lærdómur er þar að auki gagnstœður sönnu náttúrulögmáli, upphaflegri tilskipun guðs; því með því að skapa karlmann og konu, hefur guð í öndverðu sam-

tengt hvorttveggja, og á þessari tilskipun guðs er byggður rjettur mannsins til hjúskaparins. Einlífislög katólsku kirkjunnar eru þannig stórvægileg rangindi gegn klerkastjettinni; því með því, að dæma klerka sína undir þetta lögmál, sviptir kirkjan þá náttúrlegum rjettindum, en tekur allt að einu af þeim heit um skírlífi, sem reynslan þó þrásinnis sýnir að þeir halda ekki, en verða eiðrofar við. Katólska kirkjan hefur þá með þessari löggjöf lagt hættulega snöru fyrir klerka sína, sem orðið hefur þeim til hrösunar og falls, og gjört sig seka í því, að hafa gefið tilefni til þeirrar ósiðsemi og andstyggilega saurlifnaðar, sem reynslan hefur sannað að leitt hefur af þessari tilskipun[1]. Kenning katólsku kirkjunnar, að einlífi sje helgari stjett heldur en hjúskapur, er beint á móti kristilegri trú, sem kennir, að maðurinn rjettlætist ekki af ytri verkum, heldur trúnni. Því ekki er það stjettin eða staðan sjálf, sem gjörir mann-

---

1) *„Quod conjugium prohibuerunt, et divinum ordinem sacerdotum perpetuo coelibatu onerarunt, malitiose et sine omni honesta causa fecerunt, et in eo Antichristi, tyrannorum et pessimorum nebulonum opus exercuerunt, ac causam praebuerunt multis horrendis abominandis peccatis tetrarum libidinum, in quibus adhuc volutantur“. Art. Smal.*

þ. e: þar sem þeir hafa bannað hjúskap, og hneppt helga kennimannastjett undir stöðugt ókvæni, þá hafa þeir gjört það illmannlega, og án allrar heiðarlegrar ástæðu, og unnið með því verk Antíkrists, harðstjóra, og vestu bófa, og gefið tilefni til margra viðbjóðslegra og andstyggilegra synda, svívirðilegs saurlifnaðar, sem þeir veltast enn þá í.

inn velþóknanlegan guði, heldur hið trúaða hugarfar, sem dyggilega þjónar stöðunni; og eins og maðurinn getur reynzt ótrúr í hjúskapnum, eins getur hinn einhleypi maður reynzt ótrúr í einlífi sínu, og vanhelgað þessa stöðu sína með saurugum hugsunum og syndsamlegum verkum[1]. Þó prótestantiska kirkjan engan veginn eigni hjúskapnum í sjálfum sjer æðra gildi í augliti drottins, heldur en einlífi, má þó álíta, að hjúskapur sje í mörgu tilliti betur lagaður til þess, að styðja kennimanninn í prestsembætti sínu, heldur en einlífi. Sá prestur, sem er maki, faðir og húsbóndi, þekkir af eigin reynslu, hvað það er, að gegna þessari köllun; honum gefst kostur á, að verða handgenginn eins því blíða sem hinu stríða, sem mætt getur manninum í þessari stjett, að smakka fögnuð og blessun hjúskaparins, eins og að reyna byrði hans og böl. En þessi dýrmæta lífsreynsla, sem hinn katólski klerkur ekkert veit af að segja, verður prestinum til mikillar uppbyggingar og aðstoðar í embætti hans; hún gjörir hann leiknari í því, að setja sig í annara stað, og taka innilegar hlutdeild í kjörum

---

[1]) *„Si ita intelligunt coelibatum munditiem esse, quod mereatur justificationem magis quam conjugium, maxime reclamamus. Justificamur enim neque propter virginitatem, neque propter conjugium, sed gratis propter Christum". Apol. conf.*

Þ. e.: Skilji þeir við einlífi skírlífi, sem verðskuldi rjettlætingu fremur en hjúskapur, þá mótmælum vjer því harðlega. Því að vjer rjettlætumst hvorki fyrir einlífi nje hjúskap, heldur af náð sökum Krists.

safnaðar síns; í stuttu máli: hún á og getur orðið honum til mikillar uppbyggingar í hirðis- og sálusorgaraembætti hans. Þó prótestantiska kirkjan samkvæmt grundvallarreglum sínum neiti einlífislærdómi katólskra, lætur hún þó hverjum á sjálfsvald, hvað hann kýs sjer í þessu efni, hvort hann vill velja sjer, að vera ókvæntur, eða ganga í hjúskap, en hún leggur prestum sínum ekkert ófrelsisok á herðar, eins og katólska kirkjan[1].

## 12. grein.

### Um föstur og helgidaga.

Fasta var, eins og kunnugt er af gamla testamentinu, algengur siður hjá Gyðingum. Hún var fólgin annaðhvort í því, að neyta engrar fæðu ákveðinn tíma, eða þá í því, að afneita algjörlega einhverri vissri fæðutegund. Upphaflega var það mið sett föstunni, eins og hreinsunarsiðum og öðrum ytri helgisiðvenjum Gyðinga, að hún skyldi vera nokkurs konar eflingarmeðal dyggða og mannkosta, og gjöra manninn hreinni og helgari í augum guðs. Í þess-

---

1) *„Quare ipsorum spurco coelibatui assentiri nolumus, nec eum feremus, sed conjugium liberum habere volumus, sicut deus illud ipse ordinavit et constituit, cujus opus nec rescindere, nec destruere, nec impedire volumus“. Art. Smal.*

Þ. e.: þess vegna viljum vjer eigi fallast á hið sauruga ókvæni þeirra, og ekki þola það, heldur viljum vjer hafa hjúskapinn frjálsan, eins og guð sjálfur skipaði hann og setti, því hans tilskipun viljum vjer ekki ónýta, niður brjóta eða aptra.

um gyðinglega anda komst fastan snemma inn í kirkjuna, og hefur enn þá aðsetur sitt í katólsku kirkjunni í þessum skilningi. Því kirkjufundurinn í Tríent brýnir föstu fyrir mönnum, og kallar hana „meðal til þess, að deyða holdið og auka guðhræðsluna“, og fastan við gengst enn þá í katólsku kirkjunni, bæði allan föstutímann, og hvern föstudag; þá neyta menn að eins mjólkurmatar og fiskmetis, en forðast að neyta kjöts. Þó er nú á tímum, eins og nærri má geta, föstunnar gætt misjafnlega í katólsku kirkjunni, því margir eru þar vaxnir upp úr þeirri hjátrú, að fæðan gjöri manninn guði velþóknanlegri, og með sjálfum sjer sannfærðir um, að fastan sje gagnslaus í siðferðislegum skilningi.

Prótestantiska kirkjan neitar föstulögmáli katólsku kirkjunnar, því það er vottur um gyðinglegan lögmálsanda, og ósamþýðanlegt frelsi kristilegrar trúar. Föstunni er varið, eins og svo mörgum öðrum mannasetningum katólsku kirkjunnar, að henni sameinast hjátrú og misskilningur á eðli trúarinnar, sem lausnarinn og postular hans mótmæla svo víða og vara við, t. a. m. Matt. 15, 11.: „Ekki saurgar það manninn, sem inn fer um munn hans“; og Rómv. 14, 17.: „Guðs ríki er ekki matur og drykkur“. Og hættuleg verður þessi hjátrú fyrir manninn einkanlega af því, að henni er samfara og óaðgreinanleg ímyndunin um sjálfsrjettlætingu mannsins, sem beinlínis er mótstæðileg lærdómi kristindómsins, að vjer rjettlætumst ekki vegna verka vorra, heldur af náð guðs vegna Jesú Krists. Af þessum rökum neitar prótestantiska

kirkjan föstulögum katólsku kirkjunnar; það er hjegómleg þjónusta, tilbúin af mönnum, sem enga rót á sjer í nýja testamentinu, og sem ekki getur samþýðzt frelsisanda kristilegrar trúar; því ekki er eðli kristilegrar heims- og sjalfs-afneitunar fólgið í því, að maðurinn af handahófi eptir eigin geðþótta leggi sjer á herðar sjálfskapaðan kross; það verður miklu fremur manninum syndsamlegt, þegar hann gjörir það til að miklast af fyrir guði; þá verður dyggð hans hræsni, og maðurinn leitar eptir yfirskyni guðhræðslunnar, en afneitar krapti hennar. Heldur er kristileg sjálfsafneitun fólgin í því, að bera með trú, trausti og þolinmæði þann kross, sem vilja drottins þóknast að leggja mönnum á herðar. Prótestantiska kirkjan álítur ekki föstuna sjálfa syndsamlega, því, eins og postulinn segir, fæðan sjálf hvorki rýrir oss nje mælir fram með oss við guð, 1. Kor. 8, 8., heldur neita prótestantar því, og telja villulærdóm, að mönnum sje lögð fastan á herðar eins og ok, í því skyni, að þeir verði fyrir hana helgari og fullkomnari í augliti drottins[1].

Hvað hátíðaskipun kristilegrar kirkju snertir, þá grundvalla hvorirtveggja, katólskir og prótestantar, hana

[1]) *„Itaque non damnantur ipsa jejunia, sed traditiones, quae certos cibos praescribunt cum periculo conscientiae, tanquam istiusmodi opera sint necessarius cultus“. Conf. Aug.*

þ. e.: þess vegna fyrirdæmum vjer ekki föstuna sjálfa, heldur þær setningar, sem fyrirskipa vissa fæðu til hættu samvizku manna, eins og væru slík verk nauðsynleg guðsdýrkun.

á hinu sama kirkjuári. Báðar kirkjur telja sömu stórhátíðir, því þær voru þegar ákveðnar í fornkirkjunni, seint á 4. öld. Eptir þessum stórhátíðum skipta báðar kirkjur kirkjuárinu í 3 aðalkafla: jólatíma, páskatíma, og hvítasunnutíma, og allar þessar stórhátíðir lúta að hinum miklu viðburðum, sem lífssaga kristilegrar kirkju byggist á. Kristileg kirkja byrjar ár sitt með undirbúningi undir tilkomu frelsara síns, með 1. sunnudegi í aðventu (jólaföstu). Fæðingarhátíð lausnarans, jólahátíð, er þá fyrsta hátíð kirkjunnar, og þessi kafli kirkjuársins gengur frá 1. sunnudegi í aðventu til 13. í jólum (6. janúar). Páskatími gengur frá öskudegi til næsta sunnudags eptir páska. Með öskudegi byrjar undirbúningur hátíðarinnar, föstutíminn, og gengur fram til pálmasunnudags. Með pálmasunnudegi byrjar hátíðin sjálf til minningar dauða og upprisu drottins. Undirbúningur hvítasunnu er tímabilið frá fyrsta sunnudegi eptir páska til uppstigningardags. Með honum byrjar hátíðin sjálf í minningu um stofnun kirkjunnar með sendingu heilags anda, og hátíðin öll endar með næsta sunnudegi eptir hvítasunnu, eða þrenningarhátíð, sem varð almenn kirkjuhátíð á 14. öld.

Allar þessar hátíðir telja báðar kirkjur sameiginlega; þær eru beinlínis byggðar á frumsögu kristilegrar kirkju og frásögu nýja testamentisins. Þar að auki telur katólska kirkjan ýmsar Krists hátíðir, en sem ekki standa í sambandi við endurlausnarverk hans, og snerta ekki verulega lærdóminn um Krist sem lausnara og sáluhjálpara, t. a. m. krossfundar-

hátíðin (krossmessa á vori), krossupphafningarhátíðin (krossmessa á hausti), líkamahátíð Krists (dýridagur). Þessar hátíðir urðu fyrst algengar á miðöldunum. En auk þessara Krists hátíða hefur katólska kirkjan sett ótal hátíðir til heiðurs helgum mönnum. Þessi tilskipun er beinlínis afleiðing af lærdómi kirkjunnar um dýrkun helgra manna; því þegar kirkjan kennir, að tigna helga menn jafnhliða Kristi sjálfum, er það eðlilegt, að hún helgi þeim vissa daga, setji hátíðir þeim til heiðurs og dýrðar. Einkum telur katólska kirkjan margar Maríuhátíðir (Maríumessur), til minningar einhverjum viðburði í lífi hennar, t. a. m. boðunarhátíð Maríu (*festum annuntiationis*); vitjunarhátíð Maríu (*festum visitationis;* þingmaríumessa); hreinsunarhátíð Maríu (*festum purificationis,* eða öðru nafni *missa candelarum*, kyndilmessa). Þar að auki telur katólska kirkjan margar fleiri Maríuhátíðir, sem settar hafa verið smátt og smátt allt fram að siðabótinni, og sem enga fótfestu hafa í sögu guðspjallanna, t. a. m. fæðingarhátíð Maríu, getnaðarhátíð Maríu, og himnafararhátíð Maríu. Jafnframt Maríu hefur katólska kirkjan sett vissar árstíðir öllum öðrum helgum mönnum, sem kirkjan tignar. Fyrst og fremst eiga postularnir allir sína messudaga, því næst elztu kennimenn kirkjunnar (*patres apostolici),* og kirkjufeðrunum fram eptir öllum öldum er ánafnaður hverjum sinn messudagur. Sumum eru jafnvel helgaðar fleiri árstíðir en ein, t. a. m. Pjetri postula eru vígðir 3 messudagar, og auk þeirra á hann árstíð með Páli postula, 29. d. júním (Pjeturs messa og Páls). Auk alls þessa há-

tíðagrúa, þar sem hverjum einstökum helgum manni er ánöfnuð sín árstíð, eru til í katólsku kirkjunni minningarhátíðir til dýrðar öllum helgum mönnum sameiginlega. Eptir því sem árstíðum helgra manna fjölgaði í kirkjunni, jafnóðum og dýrkun þeirra fór í vöxt, kom mönnum til hugar, að steypa saman messum þeirra, og minnast þessarar miklu hersveitar í einu lagi. Merkilegust þess konar hátíða er allraheilagramessa (*festum omnium sanctorum*), sem lögleidd var í rómversku kirkjunni á 7. öld, og haldin er 1. d. nóvemberm. Samkynja hátíð er haldin síðan á 4. öld í grísku kirkjunni á trínitatishátíð til minningar öllum píslarvottum. Þar að auki heldur hvert land. hver borg og kirkja sjerstaklega hátíð verndara síns, og þær hátíðir eru jafnvel haldnar með meiri viðhöfn og dýrð, heldur en stórhátíðir kirkjunnar; þá lýtur allt hátíðarhaldið og dýrkun manna að hinum helga manni, sem dagurinn er vígður; líkneskja hans er borin í hátíðlegri prósessíu, og allir sýna henni guðlega lotningu með knjefalli.

Eins og prótestantiska kirkjan neitar dýrkun og ákalli helgra manna í bœnum, eins neitar hún hátíðasetningu katólsku kirkjunnar til dýrkunar helgum mönnum. Prótestantiska kirkjan leggur í þessu efni sem öðrum til grundvallar heilaga ritningu, og játar ekki aðrar hátíðir en þær, sem fótfestu hafa í nýja testamentinu, og standa í nánu sambandi við lausnarann sjálfan, lífssögu hans og lærdóm. Af þessari ástœðu hlutu að líða undir lok messudagar helgra manna, sem sprottnir voru af villulærdómi katólsku kirkjunnar

og hjátrú hennar á helgum mönnum. Að vísu var haldið um tíma í prótestantisku kirkjunni nokkrum katólskum messudögum, sem síðar lögðust niður, t. a. m. boðunar- og hreinsunar-hátíð Maríu, fæðingarhátíð Jóhannesar skírara (jónsmessa), og mikkaelsmessu; og þessar messur eru tilfærðar sem helgidagar í fornum kirkjusiðabókum prótestantisku kirkjunnar. En smásaman varð að kirkjusið, það sem Lúter þegar hafði gefið vísbendingu um að vera ætti aðalregla, að leggja niður alla messudaga helgra manna, en halda helga einungis sunnudagana og hátíðir Krists. Þetta varð almennur siður í prótestantisku kirkjunni á 18. öld; þá voru þessir messudagar annaðhvort lagðir niður, eða þeim var steypt saman við þann sunnudag, sem næstur var.

## 13. grein.

### Um guðsþjónustu katólsku kirkjunnar.

Messufórnin er, eins og áður er á vikið, aðalatriðið í guðsþjónustu katólsku kirkjunnar. Messusöngurinn fer því jafnan fram með mestu og hátíðlegustu viðhöfn. Þó gjörir katólska kirkjan mun á hátíðlegum messusöng *(missae solennes)*, sem fer fram að viðstöddum söfnuðinum með söng og organslætti, og einslegri messu *(missae privatae)*, þegar hvorki er við hafður söngur nje organsláttur, en messa fer fram, þó ekki sje viðstaddur nema einn messudjákn til aðstoðar presti þeim, sem messu flytur. Auk þess sem messusöngur fer fram í katólskum löndum í öllum höfuðkirkjum hvern dag, og í öllum landskirkj-

um hvern hátíðardag og sunnudaga alla, er hann líka sameinaður sjerhverri hátíðlegri þjónustu, t. a. m. klerkavígslu, kirkjuvígslu, krýningu konunga, o. s. frv. Ekki má messusöngur fara fram við altari, nema það sje vígt af biskupi, og geymi helga dóma. Messusöngurinn fer fram á þessa leið: presturinn gjörir fyrst játningu synda sinna *(confessio)*, ber sjer þrisvar á brjóst, og gengur síðan fyrir altarið. Því næst er messuupphaf *(introitus)*, ýmsir lofgjörðarsálmar og bœnagjörðir. Þá tekur við upplestur *(lectio)*; súbdjákn les upp pistilinn vinstra megin við altarið; að því búnu eru sálmar sungnir, og eptir það les djákn guðspjallið hœgra megin við altarið, og presturinn sjálfur hina postullegu trúarjátningu. Því næst er *„offertorium“*, sem fólgið er í því, að presturinn ber fram kaleik og brauð, og les bœnir yfir í hálfum hljóðum, og jafnframt er reykelsi brennt á altarinu, og presturinn tekur handlaug. *„Canon“* heitir hátíðlegasta atriði messusöngsins, þegar presturinn helgar brauð og vín með orðunum: „Þetta er minn líkami; þetta er mitt blóð“; þá á kraptaverk breytingarinnar að fara fram eptir lærdómi katólsku kirkjunnar. Þessi hátíðlega stund er boðuð söfnuðinum með því, að hringt er altarisklukkunni, presturinn heldur upp brauði og kaleik *(elevatio)*, og allur söfnuðurinn fellur á knje í einu vetfangi, til að veita guðlega lotningu líkama og blóði drottins. Því næst ber presturinn hvorttveggja fram til fórnar með fyrirskipaðri fórnarbœn, og bœnum fyrir lifendum og framliðnum. Eptir það brýtur presturinn brauðið í 3 hluti; einn

þeirra leggur hann í kaleikinn; hinna neytir hann, og síðan drekkur hann vínið; því næst úthlutar hann brauðinu, ef nokkur er til altaris. Svo ekkert spillist af hinu helgaða víni, er kaleikurinn til varúðar skolaður innan í víni, og hendur prestsins í vínblöndu, og drekkur hann síðan hvorttveggja úr kaleiknum. Allur messusöngurinn fer fram með mestu viðhöfn, og margbreytilegum formálum, svo fórnargjörðin verði sem hátíðlegust, og í því skyni að gjöra mönnum sýnilega með ytri merkjum helgi og hátign þjónustunnar. Þannig er hinu helgaða brauði og víni sýnd guðleg lotning með knjefalli; og presturinn og klerkdómurinn ásamt honum ítreka hvað eptir annað knjefallið, meðan stendur á messusöngnum. Krossmarkið er endurtekið hvað eptir annað; ilmreykingar fara fram við og við alla þjónustuna á enda; ýmist er altarið reykt, eða presturinn og aðrir klerkar í kórnum, ýmist myndir og helgir dómar, sem á altarinu eru, eða þá biflían, kaleikur og krossar. Handlaugar tekur presturinn þrisvar, meðan á þjónustunni stendur. Í tíðagjörðabókum katólsku kirkjunnar (*missale* og *rituale Romanum*) eru nákvæmar reglur gefnar um alla þessa viðhöfn og formála. Þar er sjerhvað eina fyrirskipað í messusöngnum, jafnvel hið smásmuglegasta, og reglur settar um, hvernig presturinn skuli renna augum, halda höndum, beita róm sínum, og í öllu tilliti haga limaburði sínum í hverju atriði þjónustunnar. Hverju einu í helgisiðum katólsku kirkjunnar er eignuð einhver þýðing, altari, altarisklæði, kaleik, messuskrúða, og hinum ýmislega lit messu-

skrúðans. Hvítan messuskrúða bera klerkar á fagnaðarhátíðum kirkjunnar; rauð messuklæði eru borin á hátíðum píslarvottanna og allra postulanna, nema Jóhannesar guðspjallamanns, sem sagan segir að ekki hafi dáið píslardauða. Grœnn messuskrúði er borinn frá hvítadögum til aðventu, og táknast með honum hinn tilvonandi sigur kirkjunnar. Svartan messuskrúða bera klerkar föstudaginn langa, og þegar fluttar eru sálnamessur, því hinn svarti litur táknar dauðann.

Það yrði langt mál, ef lýsa ætti öllum helgisiðum í tíðagjörð katólsku kirkjunnar. Því svo má að orði kveða, að katólska kirkjan leitist við, að gjöra allt daglegt líf manna að stöðugri helgisiðaþjónustu, fœra það allt í kirkjulegan hjúp, og samtvinna öllu mannlegu lífi kirkjusiðvenjur sínar og helgisiði. Messan er, eins og áður er sagt, aðalatriði í allri guðsþjónustu kirkjunnar, og eins og ágrip hennar allrar; þess vegna eru henni sameinaðir á margbreytilegasta hátt flestallir aðrir helgisiðir, til að gjöra fórnarþjónustuna sem hátíðlegasta. Helgisiðum katólsku kirkjunnar má öllum skipa í tvo flokka; annaðhvort eru þeir hreinsunarsiðir eða vígslusiðir. Til hreinsunarsiða kirkjunnar teljast reykingar, sem bæði eru frambornar guði sem þægilegar ilmfórnir, á sama hátt og siður var hjá Gyðingum og heiðnum þjóðum, og þar að auki til að hrekja burt óhreina anda. Helzti hreinsunarsiður katólsku kirkjunnar er sœring (*exorcismus*). Sœring tíðkast í katólsku kirkjunni við skírnina, við menn, sem taka trúarjátningu katólsku kirkjunnar, en einkanlega við þá, sem álitnir eru djöfulóðir. Þessi

siður er fólginn í því, að presturinn les þrisvar sinnum særingarþulur yfir hinum óhreina anda í þrenningarinnar nafni, og flytu þar að auki ýmsar bænir með krossmarki. Hreinsunarsiðir eru verndarmeðul, til að af stýra voða og óblessun. Vígslu- og helgunar-siðir eru meðul til að styðja og undir búa blessunina. Þess vegna eru allir kirkjulegir hlutir, sem nafni tjáir að nefna, vígðir og helgaðir í katólsku kirkjunni, ekki einungis kirkjur og kirkjugarðar, heldur allt það, sem kirkju er ætlað, messuskrúði, altarisklæði, myndir helgra manna, ölturu, krossar, kirkjukerti, og kirkjuklukkur eru jafnvel skírðar í vígðu vatni. Vígslur og helganir eru ekki að eins við hafðar í kirkjulegum efnum; þær tíðkast líka opt í daglegu lífi og veraldlegum efnum. Hús manna eru vígð með bænagjörð, sömuleiðis skip og víngarðar, o. s. frv.

Hin katólska guðsþjónusta er í eðli sínu fórnar- og friðþægingar-þjónusta. Hinn katólski prestur er, eins og áður er sagt, ekki orðsins þjónn, heldur fórnarprestur; aðalstarf hans er, að bera fórn fram fyrir guð til frelsis mönnum og friðþægingar fyrir syndir þeirra, bæði lifandi og dauðra. Allir hinir margbrotnu helgisiðir kirkjunnar og hátíðlega tíðagjörð miðar til þess, að gjöra mönnum sýnilega og áþreifanlega frelsis- og friðþægingar-starfsemi kirkjunnar. Allt helgisiðahald katólsku kirkjunnar, messufórn, hreinsunarsiðir, bænagjörðir, helganir, prósessíur, særingar, o. s. frv., ætla sjer að vera samvinnandi að einu og sama miði, að afreka friðþægingu, hreinsun og helgun mannsins fyrir milligöngu klerkdómsins, en hafa

ekki þann tilgang, að uppfræða eða uppbyggja söfnuðinn. Hin katólska guðsþjónusta er þess vegna lík í því hinni gyðinglegu guðsþjónustugjörð, að hún er ytri siðvenjuþjónusta. Tíðagjörðin er margbreytilegur samsetningur ytri helgisiða, og þessir helgisiðir, sem allir hafa ýmislega andlega þýðingu, eru ítrekaðir hvað eptir annað, og bornir svo ótt á, að þessi mikla margbreytni bannar mönnum að hafa nokkurt viðnám, eða dvelja við nokkra einstaka hugsun, en dregur hugann í sama vetfangi í ótal áttir. Hvað söfnuðinn snertir, þá verður honum eigi auðið, að átta sig í allri þessari margbreytni; guðrækileg umhugsun getur ekki komizt að, því hugurinn fær ekki ráðrúm til, að dvelja við guðrækilegar hugleiðingar með rósemi og spekt. Hið margbreytilega ytra prjál og viðhöfn í allri tíðagjörðinni, sem löguð er til þess, að skemmta augunum og kitla eyrun, dregur hugann í allar áttir, og hlýtur fremur að glepja fyrir, en vekja guðrækilegar hugleiðingar. Þetta hlýtur að eiga sjer stað í allri guðsþjónustu, sem eins er háttað og katólsku kirkjunnar, að hún útilykur þjónustu orðsins; hún verður dauð þjónusta, því hún setur sjer ekki það mið, að hafa með orðinu andleg áhrif á huga og hjarta mannsins, en ávarpar einungis skilningarvit hans og ímyndunarafl með ytri helgisiðum. Hvað klerkana snertir, sem þjónustuna veita, þá hlýtur hún einnig að vera fyrir þá dauð og þungbær handiðn. Þeir eru ofurliða bornir af hinum margbreyttu helgisiðum; þjónusta þeirra útheimtir ekki, og hvetur þá þess vegna ekki heldur til eigin umhugs-

unar og rannsóknar, þar eð starfi þeirra er ekki orðsins þjónusta, heldur altarisþjónusta, heldur er allt fyrir þá minnisverk; allir hlutir eru þeim nákvæmlega fyrirskrifaðir, ekki einungis bænagjörðir, heldur limaburður, staða, augnaráð, o. s. frv. Hinn katólski prestur hlýtur því að vera á sífelldum glóðum um, að gleyma einhverju, og helzta ástundun hans verður sú, að læra í belg og festa sjer orðrjett í minni fyrirskipaðar reglur og bænaþulur. Sú guðsþjónusta, sem þannig er löguð, hlýtur að hafa skaðleg áhrif á andlegu stjettina; hinn katólski klerkur, sem er einungis fórnarprestur, en ekki kennimaður, mætir mörgum freistingum til þess, að vera leiguliði, en fáum hvötum til þess, að vera sannur sálusorgari. Þar eð þjónustugjörð katólsku kirkjunnar er fórnar- og siðvenjuþjónusta, sver hún sig í mörgu tilliti í ætt við hina heiðnu þjónustugjörð. Bersýnilegastur er þessi skyldleiki og áþreifanlegast lýsir hann sjer í þeim helgisiðum, sem miða til þess, að ítreka bókstaflega í sýnilegri eptirstælingu, og sýna mönnum eins og í sjónarleik atriði úr lífssögu lausnarans eptir sögu guðspjallanna, án þess að nokkur útþýðing, uppbyggileg útskýring eða prjedikun orðsins sje samfara. Í þessu lýsir sjer berlega heiðinglegur andi, ósamþýðanlegur eðli kristilegrar guðsþjónustu. Í heiðninni var það algengur siður, bæði í austurlöndum og hjá Grikkjum og Rómverjum, að sýna atriði úr lífssögu goðanna eins og í sjónarleik. Þvílík þjónusta miðaði, eins og nærri má geta, ekki til uppbyggingar anda mannsins, heldur til þess, að hafa áhrif á skilningar-

vit hans. Margt samkynja kemur fram í helgisiðahaldi rómversku kirkjunnar. Þannig er t. a. m. á jólahátíðinni mönnum sýnd í kirkjunum fæðing lausnarans; fjárhúsjatan er látin bera mönnum fyrir sjónir, foreldrar Jesú, vitringarnir úr austurlöndum, hersveitir englanna, hirðarnir og hjarðir þeirra; þetta allt er látið birtast söfnuðinum í sýnilegri mynd í kirkjunum, eins og þær væru leikhús; á skírdag er látinn fara fram fótaþvotturinn í sýnilegri athöfn, bókstaflega eptir sögu guðspjallanna. Sömuleiðis er í prósessíum helgra manna kostað kapps um, að sýna einhvern viðburð úr lífssögu þeirra. Það gefur að skilja, að slík þjónustugjörð, sem öll er innifalin í ytri viðhöfn og veraldlegu prjáli, muni ekki vera löguð til þess, að vekja guðrækilegar hugleiðingar, eða styðja að sannkristilegri uppbyggingu.

Það er eðlilegt, að katólska kirkjan, sem lætur guðsdýrkun sína vera fólgna í fórnar- og ytri siðvenju-þjónustu, gjöri lítið úr þjónustu og boðun orðsins, því hún setur sjer það mið, einungis að afreka friðþægginguna og frelsið börnum sínum með ytri tíðagjörð sinni og helgisiðum, og ætlast til þess af þeim, að þau setji ótakmarkað traust til framkvæmdarvalds kirkjunnar, eins í þessu tilliti sem öðru, feli henni á hendur, að vera milligöngumaður milli drottins og þeirra, og trúi henni fyrir því, að sjá sálunum borgið með fórnar- og hreinsunar-siðum sínum. Það er því einkennilegt guðsþjónustu katólsku kirkjunnar, að boðun orðsins, prjedikunin, verður þar alveg út undan. Með því móti verður hin katólska kirkjuþjónusta ó u p p-

byggileg þjónusta. Að vísu er sumstaðar í katólsku kirkjunni nokkur bót ráðin á þessu frá dögum siðabótarinnar. Því þá var það almennur siður orðinn, að ekki var flutt prjedikun árum saman[1]. Samt sem áður er enn þá sem fyr prjedikunin hjá katólskum ekki talin verulegt atriði í guðsþjónustunni; hún er höfð út undan eða í hjáverkum, eins og ljósast sjest á því, að söfnuðurinn vanalega notar þann tímann, sem presturinn er í stólnum, til þess að ganga í kirkjuna, og til þess að hagræða sjer og koma sjer fyrir í kirkjunni, þvert á móti því, sem siður er í prótestantiskum kirkjum. Sama sjest líka á því, að í mörgum katólskum kirkjum er enginn fastur prjedikunarstóll, en laus ræðustóll látinn standa úti í einhverju horni, og hann dreginn fram í viðlögum, þegar ræðu á að flytja. Þetta hirðuleysi um boðun orðsins og uppfræðingu með kenningunni lýsir sjer á samsvarandi hátt í efni og inntaki prjedikunarinnar. Þó katólska kirkjan hafi átt einstaka ágæta alþýðukennimenn á síðari tímum, þá má fullyrða, að það sje undantekning. Almennast mun það enn þá eiga sjer stað í katólsku kirkjunni, sem var á dögum siðabótarinnar[2], að prjedikanir kennimanna boði ekki

---

[1]) *„Apud adversarios in multis regionibus toto anno nullae habentur conciones, practerquam in quadragesima“. Apol. conf.*

Þ. e.: Hjá mótstöðumönnum vorum eru víða engar prjedikanir fluttar nema á föstunni.

[2]) *„Cum concionantur adversarii, dicunt de tra-*

hreinan kristilegan lærdóm, heldur hjátrú katólsku kirkjunnar, flytji ekki frelsislærdóm evangelíí, heldur hindurvitni pápiskunnar, hjegiljulegar sögur um kraptaverk helgra manna, eða aðrar óuppbyggilegar mannasetningar tilheyrendunum til hneykslis og leiðinda.

Af engu verður áþreifanlegra, hversu óuppbyggileg hin katólska guðsþjónustugjörð er, heldur en því, að öll tíðagjörð kirkjunnar fer fram á latínumáli. Þetta er ljós vottur um það, að katólska kirkjan sjálf ætlar ekki þjónustugjörð sinni að tala til skynsemi, eða hafa áhrif á hjarta og tilfinningar tilheyrandanna, og með því vinna að uppfræðingu þeirra og upplýsingu, eða með öðrum orðum: hún ætlast ekki til, að guðsþjónustugjörð sín sje uppbyggileg; því latínsk tunga hamlar, eins og nærri má geta, allflestum af söfnuðinum frá, að geta haft nokkur not þjónustunnar; þeir einir, sem lært hafa latínumál, geta skilið það, sem fram fer, og þeir eru fæstir. Allt að einu hefur katólska kirkjan jafnan verið fastheldin við latínska tungu í allri þjónustugjörð, einkanlega í messusöngnum. Gregoríus páfi 7. neitaði þegar á 11. öld slafneskum þjóðum um messusöng á móðurmáli þeirra, og þeirri reglu hefur kirkjan fylgt síðan. Því þrátt fyrir beiðni þjóða og höfðingja úrskurðaði kirkjufundurinn í Tríent, að messusöngur skyldi, eins

---

*ditionibus humanis, de cultu sanctorum et similibus nugis, quas jure fastidit populus". Apol. conf.*

Þ. e.: þegar mótstöðumenn vorir prjedika, tala þeir um mannasetningar, dýrkun helgra manna, og líkar hjegiljur, sem söfnuðurinn með fullum rjetti hefur óbeit á.

og áður, fara fram á latínskri tungu, einungis mætti presturinn útskýra alþýðu eitthvað úr messusöngnum[1]. Það er auðvitað, að þessi ákvörðun katólsku kirkjunnar er sprottin af klerkavaldsanda hennar. Eins og hún álítur það hagnað fyrir klerkavaldið, að meina alþýðu aðgang að heilagri ritningu á því máli, sem hún skilur, eins sjer hún sinn hag við það, að láta guðsþjónustu sína vera almenningi óskiljanlegan leyndardóm. Katólska kirkjan ber kvíðboga fyrir, að tíðagjörð sín muni missa álit í augum alþýðu, ef hún er flutt á þjóðmálunum, og kemur fram í nýjum búningi; sömuleiðis mætti hún eiga það víst, að, ef snúið væri tíðagjörð kirkjunnar á aðrar tungur, þá mundu þessar útleggingar ekki verða allar samhljóða, og það gæti gefið tilefni til ágreinings um trúna, og þar að auki gæti þá hver leikmaður með eigin augum prófað inntak messusöngsins, og borið það saman við lærdóm heilagrar ritningar, og með því móti leiðzt í freistni, að ráðast á kenningu katólsku kirkjunnar. Þetta sjer katólska kirkjan allt glögglega, og kýs því heldur samkvæmt grundvallarreglu sinni, að láta alþýðu vera án uppfræðingar og uppbyggingar, heldur en að

---

1) *„Etsi missa magnam contineat populi fidelis eruditionem, non tamen expedire visum est patribus, ut vulgari lingua passim celebraretur“. Syn. Trid.*

Þ. e.: Þó messusöngurinn hafi að geyma mikla fræðslu fyrir alþýðu, hefur feðrunum ekki þótt það eiga við, að hann væri fluttur víðs vegar á alþýðumáli.

stofna valdi sínu og áliti í þann háska, sem óvíst er hvort hún muni geta ráðið fram úr.

Það leiðir af sjálfu sjer, að prótestantiska kirkjan neitar allri guðsþjónustu katólsku kirkjunnar að því leyti, sem hún er fórnarþjónusta, og styðst á þeirri hugmynd um guðsdýrkun, sem ekki getur samþýðzt anda kristindómsins. Því hin katólska guðsþjónusta er, eins og sjerhver fórnar- og siðvenjuþjónusta, bæði Gyðinga og heiðinna þjóða, byggð á þeirri ímyndun, að tíðagjörðin ein og ytri helgisiðir afli manninum sjerlegra verðugleika og helgunar í augum drottins, hafi það mið, að friðþægja guð við manninn, en ekki þann tilgang, að vera mönnum til uppfræðingar og uppbyggingar. Þvílíkur lærdómur, sem eignar hinum ytri helgisiðum töframátt, og hugsar sjer hina ytri þjónustu nœga til þess, að hreinsa manninn og helga í augliti guðs án tillits til hugarfarsins, getur ekki staðizt með lærdómi kristilegrar trúar um guð sem anda, og sem því vill, að vjer tilbiðjum sig í anda og sannleika, og ekki með lærdóminum um trúna. Prótestantiska kirkjan mótmælir því ekki svo mjög hinum einstöku helgisiðum katólsku kirkjunnar, eins og allri stefnu hinnar katólsku guðsþjónustu, að hún kemur fram sem mannaþjónusta, en ekki eins og guðsþjónusta í kristilegum skilningi, það er að skilja, að hún gjörir alla kirkjuþjónustu sína að verkahelgunarþjónustu, innrœtir mönnum hjátrúarfullt oftraust á hinum ytri helgisiðvenjum, og útbyggir með því lærdómi kristindómsins um hina andlegu guðsdýrk-

un í trú og helgun hugarfarsins[1]. Grundvallarregla prótestantisku kirkjunnar er því sú, að hin kirkjulega guðsdýrkun sje andleg guðsþjónusta, sem hafi það mið, að vera mönnum til uppfræðingar og uppbyggingar í þeirra sáluhjálparefnum, vekja trú þeirra og guðhræðslu, og á þann hátt leiða þá til guðs; og eins og heilög ritning er mælikvarði trúar og siðalærdóma, eins er hún líka sá grundvöllur, sem kirkjuleg guðsþjónusta á að styðjast á; því getur prótestantiska kirkjan ekki fallizt á nokkurn kirkjusið, sem ósamkvæmur er heilagri ritningu, og ekki miðar til uppbyggingar kristilegum söfnuði. Prótestantiska kirkjan af nam því fyrst og fremst alla þá siði, sem ekki gátu staðizt með hreinni kristilegri trú, t. a. m. messufórn, og dýrkun helgra manna, sömuleiðis alla þá kirkjusiði, sem ekki voru annað en hjegómlegar ytri siðvenjur, prjál og viðhöfn augunum til skemmtunar, og enga uppbyggingu veittu anda mannsins, en fremur höfðu orðið tilefni til margvíslegrar hjátrúar, afskræmt guðsþjónustuna, og gjört hana hlœgilega. Samkvæmt þessu rjetti siðabótin aptur við boðun orðsins, sem gleymzt hafði alveg vegna ytri helgisiða,

---

1) *„Traditiones humanae institutae ad placandum deum et promerendam gratiam et satisfaciendum pro peccatis adversantur evangelio et doctrinae fidei“. Apol. conf.*

þ. e.: Mannasetningar, sem skipaðar eru til þess, að friðþægja guð, og til að verðskulda náðina, og til að vinna fullnaðargjörð fyrir syndirnar, eru gagnstœðilegar evangelíó og lærdóminum um trúna.

og ekkert var orðið úr. Boðun guðsorða varð nú, eins og á elztu tímum kirkjunnar, aðalhluti guðsþjónustunnar[1]; fagnaðarboðskapur Krists var útlistaður í prjedikuninni, söfnuðunum til uppfræðingar og uppbyggingar í trúnni. Latínumál katólsku kirkjunnar var lagt niður, og guðsþjónustan öll var látin fara fram á tungum þjóðanna; guðspjöllin voru lesin, bænagjörðir, kirkjusöngur og prjedikanir fluttar á móðurmáli þjóðanna, og með því móti varð hin kirkjulega tíðagjörð aptur uppbyggileg þjónusta. Engan veginn var það samt ætlun siðabótarinnar, að brjóta niður og afmá allar ytri siðvenjur í þjónustugjörð kirkjunnar; hitt var miklu fremur grundvallarregla hennar, að hinir kirkjulegu helgisiðir ættu að ganga í þjónustu orðsins, og verða því samtaka og samverkandi, trúarlífi kristinna manna til uppbyggingar. Þess vegna gættu höfundar siðabótarinnar, einkanlega Lúter, mestu varfœrni og varúðar í öllum tilbreytingum sínum; þeir afnumu, eins og á vikið er, einungis það, sem hneykslanlegt var, og ekki gat samþýðzt anda kristindómsins. Alla aðra helgisiði aptur á móti, sem samtaka urðu kenningunni, studdu boðun orðsins, og gátu með því orðið til uppbyggingar trúarlífi safnaðanna, ljetu þeir standa óhaggaða, og hvað niðurskipun og fyrirkomulag tíðagjörðarinnar snerti og setningu kirkjusiða, tóku þeir það jafnan

---

[1]) *„Praecipuus dei cultus est docere evangelium“. Apol. conf.*

þ. e.: Aðalefnið í þjónustugjörðinni er það, að boða fagnaðarlærdóminn.

fram og brýndu fyrir mönnum, að hinar ytri siðvenjur væru ekki aðalatriðið, að sannkristileg kirkjueining væri ekki komin undir fullkominni samhljóðun í öllum ytri siðvenjum, heldur í því, sem væri aðalatriðið: tilskipunum Krists sjálfs, og lærdómum trúarinnar.



## Prentvillur.

| | | |
|---|---|---|
| Bls. | 11[1]: | ar fyrir þar |
| — | 26[14]: | Cramner fyrir Cranmer |
| — | 119[1]: | landstjórnin fyrir landstjórinn |
| — | 128, | 2. athugagr.: Belorm. fyrir Bellarm. |
| — | 132[21]: | hefja fyrir kefja |
| — | 192[23]: | augere fyrir augeri |
| — | 240, | neðanmáls, í nokkrum exemplörum: sum fyrir sumir |

